Hentug

# Handbók

## fyrir hvörn Mann,

med

# Utskíríngu

## Hreppstjórnar Instruxins,

innihaldandi

Agrip, Safn og Utlistun

helstu gyldandi Lagaboda um

Islands Landbústjórn,

og önnur Almenníng umvardandi

opinber Málefni.

Skrifud og útgefin af

**Magnúsi Stephensen,**

Konúnglegrar Hátignar virkilegu Etatsrádi og Jústi-tiario í Islands konúngl. Landsyfirretti.



Leirárgördum, 1812.

Prentud af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.



# Til Lesarans.

Ad Konúngsins mikdasta bodi, þann 21ta Júlii 1808, er Jslands Hreppstjórnar Jnstrúx samid og útgéfid, þann 24da Nóvembr. 1809. J þess §. 21, á bls. 17, er Hreppstjórum og Almenníngi heitid frekari ávísun um ymislegt, er vid Hreppstjórnar Embættid megi til vegaleidslu og lærdóms þéna, um sveitargagns ebllugu og þaradlútandi skyldur. En þessar liggja ecki einúngis á Hreppstjóranna herdum; Prestarnir, sem Medforstjórar Fátækra, og þeir, sem af Yfirvøldum og Rétt-

um tilskipast til ad þjóna ad Stefnuförum, ad málaferlum manna, einkum Pólití- og Saka-málum, ad búa vyrdíngum, jarda útteftum, eda Auktiónum í Sýslumanna stad, eda þó þeßir sjálfir fyri þeim gjørdum stødu, ega kunna svørum uppi ad halda fyri sekada, máské stund-um saklitla, eda verulega afbrotamenn, fyri vanfæra, ekkjur, børn og ómyndugа, fyri óløg-spaka og forsvarslausa einfeldníngа, á stundum í vidskiptum vid kjænni, klókari og ágengari menn, já! sérhverr ólegkjænn madur, hvert heldur er í embætti eda eckí, yfirbodinn eda undirgéfinn, foreldri, barn, húßbóndi, hjú, landsdrottinn, leigulidi, eda annar — þurfa all-ir leidarsteins einhvers vid lýgúnum þad villu-gjarna haf Laga og Fyriskipana, sem nú skuld-binda vort land og þeß innbúa, egi þeir ad fá ratad réttann lagaveg, verndad eginn og ann-ara rétt í þeim tilnefndu og fleirum markverd-um málefnum; en þared Safn þeßara laga og þeirra, sem Hreppstjórnar Instrúxid vísar á til eptirbreytnis, er í mjøg fárra manna hønd-um, ef annars í nockurs eins hér á landi full-

komid

komid til, bodord þeirra þess vegna fleirstum midur þeckt, fundu Amtanna Yfirveld vid Instrúxins útgáfu, hverfu naudsynleg frekari Avísan um þeirra innihald, og Instrúxins réttann skilning, væri Hreppstjórum og Almenníngi, hvern Instrúxid, med konúnglegum myndugleika samid, allteins skuldbindur.

Til þess ad efna fyrrtjed fyrirheit, hefi eg því, ad ósk tveggja Íslands verdugu Amtmanna, samantekid þessa Handbók, eptir því sem mín besta sannfæríng, stödugt heimfærd vid almenníngs gagn í öllu, en alls eckert egid, krafdi, eins og eg hugdi rádvendum Embættismanni sæma, er vildi hafa eid, skyldu, lög og rétt og Födurlandsheill fyrir augum. Ad sönnu villast allir daudlegir á stundum í meiníngum, en yfirdómar dagdómenda eru fyri þad jafn-réttlitlir og allopt ómerkari. Ad sönnu skuldbinda einúngis birt gefin lög, en vítalaust mættu Hreppstjórar og adrir afkomast, sem bæru fyri sig einhverjar laga-ástædur þær, sem þessi Handbók og Utskíríng heldur, einkum

eptir

eptir þeim løgum, sem í øldúngis sømu ástæd-
um og undir sama edli máls, eru sett Med-
þegnum til sameginlegrar lífernisreglu; því eru
hér og fáein þeirra tilnefnd.

Í nótum nedanundir, er Agrip enn
gyldandi Laga, sem Instrúxid tilvísar, og
fleiri þaradlútandi tilfært. Fyri sérhvørn
verdslegann mann má því Utskíring þeßi,
einkum vegna þeß sjaldfengna Lagasafns, sem
hún inniheldur, ef ecki annars fleira, máské
vyrdast og reynast ecki óhentug Handbók.
Handbók jafnvel fyrir alla, ad því leiti
Instrúxid, hvart hún útskírir, innibindur all-
margar skyldur allra stétta, almenns bjargræd-
is adburda, landbúnadar og — hvad markverd-
ast er øllum — almennar lagaskyldur manna,
eins í tilliti til verndar lífs og heilsu, og var-
údar í nærnum sóttum. Embættismønnum til
studníngs, eru og fleiri laga-greinir tilnefndar,
sem þeir sjálfir fá fundid og gløggvar yfirveg-
ad, þó fyri fullgjørt ágrip allra ecki væri rúm
í þessari Handbók. Ad sønnu var áform
mitt

mitt og í fyrstu, ad láta hana einúnn inni-halda frekari vegleidslu fyrir vorar Sætta-nefndir, hverja eg hafdi fullbúna til, eptir þar-adlútandi útkomnum lagabodum til vorra tíma, hvørsvegna þartil er skírskotad bls. 223, línu 27, en bædi stærd bókarinnar og nú algjørleg pappírsekla í þessari styrjaldartíd, og hans fenki-legi dýrleiki, rédi mér til í bráð Forlíkunar-málefni undan ad fella, en á bls. 237 hefi eg þó heitid útgáfu þeirra útlistunar, hid fyrsta færi er á, sérílagi. Sama pappírs-ekla og dýrleiki nú í bráð, gjørir þad líka ad verkum, ad Handbók þessi nú framselst almenníngi Registurs-laust, en Innihalds-listinn apt-anvid sýnir allvídast hvar helzt leita megi ad sérhvørju høfud-atridi.

A medan þau mørgu løg, hvørra Agrip bók þessi heldur, standa óraskud, sem lengi mun verda í miklu, missir hún alls ekkert í gyldi, þó svo margt annad mætti í einhvørju biltast med tímunum, því sidgædis eda almenns sid-ferdis-lærdóms, innbyrdis réttar manna og skyld-

skyldna grundvallar reglur, á hverjum þau eru bygd, standa um aldir óraskanlegar.

Það lánga erviði, sem verk þetta hefir kostað mig, met eg vel unnið, nái það mínum eina og einlæga tilgángi og ósk, með því að fá stiptað almennings gagn, í svo mikilvægum málefnum.

Innrahólmi, þann 2ann Febr. 1811.

M. Stephensen.

Utskír=



# Utskíring
# Hreppstjóra Instrúxins.

## §. 2. Bls. 3.

Istilliti til hér nefndra Fátækra-saka og til-laga-skipta, sjá héreptir útleggingu 20ta og 22ars §§. a)

Í Hreppum hvar 2 Hreppstjórar finnast, ættu þeßir bádir ad koma sér saman um allar höf-ud-reglurnar, og hvar vandrædi mæta, samegin-lega yfirvega, hvad rádlegast sé, en sídan fram-qvæma hvørr sér í sínu umdæmi, hvad bee. Líka



a) Kóngsbr. 11ta Apr. 1781 §. 6. segir: Sýslumanna rádstafanir og skipanir um ómaga framfæri á hrepp-um í hans egin Sýslu, egi þeir ecki svo ofnagóda náúnga, ad eptir løgum geti þá annast, ega Hrepp-stjórar mótmæla- og Appells-laust ad halda sér fyrir reglu.

ega þeir, hvar medþarf, í Embættis útréttingum ad adstoda hvorr annann med rádi og dád, og yfir höfud ad segja: ættu Hreppstjórar, sem sameginlegir Embættismenn vid samslags störf, sama Konúngi og Födurlands gagni þjónandi, í öllum sveitum ad stipta og vidhalda sameginlegri vináttu, sveit úr sveit, nábúa Hreppstjóri vid næsta, og svo frv., svo allt mætti í gódsemd og vináttu jafna hreppa á milli, og hvörr reynast fús til ad stydja annars Embættis útréttingar, heill og heidur.

## §. 3. Bls. 4.

Bædi vegna þess, ad Póstferdir eru hér fáar, óvissar og kostnadarsamar, en mörg Yfirvalda rádstafan og konúnglegar fyriskipanir krefja jafnvel brádari auglýsingu og framfæri, enn þau í Kóngsbr. frá 26ta Júnii 1782, nefndu geistlegu umferdar-bréf um andleg efni, líka hins, ad vilji Löggjafarans um skjóta framqvæmd réttar- og stjórnar-mála er alkunnur, og kann ecki minni adstodar af Almenníngi til framfæris ad krefja enn fyrrnefnd geistleg bréf, er hér Jónsbókar regla um bodburd og nýnefnds Kóngsbréfs fyriskipun, um bréfa flutníng, og hans forsómunar sektir, fylgt. Komi því til Hreppstjóra Embættisbréf utanáskrifud: Konúngleg þjónusta, og standi þar hjá: beríst fljótt sem þíngbod, ætti hann ítinu fylgisedil ad rita, til dæmis:

„Medfylgjandi bref, konúnglega þjónustu áhrær„andi, ega (á) skyndilega ad berast sem Þíngbod,

bæ

„bæ frá bæ, retta og skemmstu leid til Ós í Skil-
„mannahrepp (eda: til medtøkumanna, ef inn-
„anhrepps eru) og þadan áleidis til þeirra medtokn-
„manns (á), eda næsta Hreppstjóra, undir 1 rdls
„sekt, ef dregst, ad særu vedri, eptir Hreppstjórnar
„Instrúxins 3ja Art. Ytrahólmi á Akranesi, þañ
„14da Apr. 1810. Sigurdur Bjørnsson.
„Hreppstjóri á Akranesi."

og senda þenna sedil åsamt brèfunum å næsta bæ åleidis til framburdar b).

Þeßi Embættis-brèfa burdur er þó ecki svo ad skilja, ad Hreppstjóri megi skylda bændur

A 2 annad-

b) Jónsb. Framf. b. X. Kap. býdur: ad sá beri bod bæa á milli, er hyggja kann fyrir ordi og eidi. Ad Bod afhendist bónda, húßfreyu, fulltída syni eda dottur, eda besta manni í bæ stoddum. Ad sá sem fyrisitur, skuli med vitnum, ef til eru, vita, hvøru tíma dags bod kemur til hans, annars sverji sá er þángad bar. Bod skal ecki bera eptir sólsetur á sumrum, dagsetur á vetrum. Kóngsbr. þann 26ta Júnii 1782 §. 2. býdur: ad umburdar-bref Biskupa og Prófasta tafarlaust berist, svo fljótt sem verdur, Presta á milli, undir 1 eda 2 rdla sekt, hanni ecki løgmæt og bevísanleg orsök. Amtmadur sekti þá verdslegu, Biskup þá geistlegu, er forsóma. Fellur geistlegra sekt til forþjentra Presta á fátækustu køllum, en verdslegra til sveitar eins jeka, en Amtmenn láti bæturnar innkalla.

annadhvert til sjó-flutnínga einúngis med þau, nockurntíma, jafnvel á vetrum eda í fiskiabla-tíd, yfir firdi, ellegar yfir lánga fjallvegu og heidar, t. d.: af Akranesi í Reykjavík, úr Mýra-sýslu yfir Holtavørduheidi eda Sand nordur, eda sama veg þadan til baka, sem væri almúga óbærilegt kauplaust, heldur verda øll bréf, sem Yfirvøld láta ecki med Póstferdum eda fyrir be-talíng flytja, á þeßháttar stedum ad bída fyrstu milliferda, en Hreppstjóra ber í hvørt sinn ad til-taka ad sønnu þann, eptir ásigkomulagi, beinasta, en undir eins bændum vel færa og bærilegasta skëmmsta veg, yfir hvørn þau framberast ega.

## §. 4. Bls. 4.

Skyldt, uppbyggilegt, já naudsynlegt er, ad vér tileinkum 1 dag í viku til helgihalds og gudrækuis æsfínga; skyldt, ad vér hefjum upp huga vorn, til íhugunar þeß hátignar, gædsku, velgjørnínga og vísu stjórnunar, af hvørs fødur-legu hendi vér þegid høfum svo ómetanlegt gott, og ecki sídur uppbyggilegt, ad vér íhugum vor-ar skyldur, vort framferdi, vora áqvørdun hér og sídar, hvad allt upplýstur og rádvandur krist-inn madur dag hvørn, og í øllu sínu framferdi, lætur sér hugfast; en þó allra naudsynlegast, ad kristinndómsins lærdómar og góds framferdis regl-ur brýnist opinberlega fyrir mønnum, svo vísum, sem fávísum, ad þær ecki fyrnist um of, eda lídi burt í gáleysi og gleymsku. Hvíld, eptir dyggt

og

og ærdugt erwidi um 6 samfleytta daga, hvørt heldur sálar eda líkamans kroptum er til þeß varid, er jafnnaudsynleg til beggja endurhreßíngar, gáfna og heilsu vidurhalds. En — þegar Tilsk. frá 29da Maji 1744, býdur helgihald Sabbatsdagsins, meinar hún þó ecki þarmed ydjulaust slór eda svall og útslángur, heldur gudrækilegar samkomur manna í kirkjum, til verdugrar og hátídlegrar Gudsdýrkunar opinberlega, í þessum partil innvígdu musterum. Þad eru því eginlega kirkjuferdir fólks, og ad þad ecki forsmái opinbera Gudsþjónustugjørd, sem hún í 7da Art. býdur Hreppstjórum ad athuga og frásegira Prestinum. c)

En svo sem ætíd og allstadar má dýrka Gud af alúd, midt í leitun atvinnu manna, svo er hans dýrkan ecki svo rikt vid tíma og stadi bundin, ad full naudsynjaverk á helgum, til egin og annara lífs vidurhalds og frelsis, þurfi ne egi fyrir hvílldarsakir ad undanfella, til hvørra nauur dagaminni stund kann opt brádlega veitast; því Kristur sjálfur kénndi: ad madurinn sé ecki skapadur til þeß, ad einhvør sé til ad helga hvíldardaginn, heldur þeßi gefinn manninum til hvíldar. Hann sýndi: ad mannsins lífsuppheldi sé af øllu mest metandi, bædi med Davids

 dæmi,

c) Þar segir: ad Hreppstjórar, svosem Políti-Þjónar Sýslumanna, egi ad vera athugasamir um, ad tilkynna Prestinum, hvørjir vanræktarfullir seu ad vitja Gudshúss.

dæmi. sem, þegar hann svallt, át Skodunar-braudin er annars ecki leyfdist, og med Presti-anna, sem tilreiddu þau og slátrudu offur-ènadi á Sabbatsdegi í musterinu, en vottadi um leid, ad Gudi sé gódvild og hreinleiki hjartans øllu þecknanlegri, enn útvortis Ceremoniur; læknadi sjálfur sjúka, og sagdi Lærisveina sína sýknsaka, þó þeir. svángir á Sabbatsdegi, læsu sér korn ox og nýidu til matar, bendti mønnum líka til þess, ad fjelli saudur ofaní pytt á helgum degi, væri hon-um bjargad; því ætti manna lífi, sem væru saud-num miklu veglegri skèpnur, eigi heldur ad bjarga, heldur enn því ad tortýna d).

Hvad þessvegna álitast má sann naudsynlegt til bjargrædis útréttinga, til lífs vidurhalds manna, og ecki án stórskada eda háska mega hjálída, er því og á helgidegum rètt og saklaust ad vinna. Þanninn eru allmargar sjóferdir og ablabrøgd í bygum árum, eda þá stríd eda hallæri ejøra fram-færis medøl manna tvísýn. Sè heutugt leidi og rædi af sér bedid, má þad opt gylda margra líf og lífsfaung, þar sem von svipuls ablá er opt hjá-lidin, þegar minnst varir. Þessvegna létta haf-skip allra þjóda atkèrum eins á helga og hátída morgnum, þegar leidi býdst, og fiska jafnvel eins þá Tilskip. af 29da Maji 1744, leyfir hèr og í 18da Art; í hallærum ad róa til fiski á helgidøg-um, og ennur frá 13da Okt. 1797, ætíd ad legg-ja net á helgiqvøldum og qvøldinu fyrir helgar, þá

d) Matth. 12. Marc. 2. Luc. 6.

þá høpp eru líkleg, en vill þau takist svo snemma upp á helgidags morgnum, ef vedur leyfir, ad kirkjuferd ecki forsómast þurfi, því hvørutveggja, nefnilega: opinbera Guds þjónustugjørd og bjargrædis útvegi manna til þeirra lífs uppheldis, vyrdast løgin jafnt ad vilja vernda. Sjálf Landsløgin í Jónsb. Frf. b. IX. og Rekab. X. Kap., gjøra ráð fyrir veidum og abla á helgidøgum. En — ad landbúum sé ecki minna verdt ad gjæta høfud-bjargræda sinna á landi, qvikfjár, heya, er undir skémmdum liggja í óþurkum, og þá regn gánga ad, fiskjar í sømu tíd, veidarfæra, skipa í ofvidrum og flódum, og s. fr., mun enginn sá neita, er veit, ad margra lífi er undir bjørgun þeßara lífs medala í tíma komid, eins og naudsyn og venja hefir fundid rétt og saklaust, ad matbúa eins á helgum allstadar, þjóna peníngi, mjólka og þeßháttar Í líku tilliti var þad og, ad Kóngsb. frá 25ta Aug. 1792, leyfdi húsmønnum í Danmørku akuryrkju og heyanna størf á sunnu- og helgi-døgum, þar sem ecki væri messad í sømu sókn; líka hefir upplýsíng vorra tíma kénnt mønnum varengdarsamlega ad þvínga andlegt og borgaralegt frelsi annara, en vyrdt lítils vana-serimoniur einar, helgihald í ytjuleysi, og klágada útvortis andakt eda kirkjuferdir, og þessvegna þegar gjørsækkad helgdidagsbrota til-efnum e). Eg hefi ádur í 1ta Hefti Gamans



e) Róg eru þau framtalin í Tilskip. af 29da Maji, 1744, um helgihald Sabbatsdagsins, og um Kate-

og Alvöru, bls. 149, bendt til þess, ad helgibrot almúga í Danmörk og Norvegi, eptir Tilskip. af 12ta Mart. 1735, sèu 4 ß. í 1ta sinni, og tvöfaldt úr því; er ólíklegt ad Konúngur vor vilji sekta sína íslendsku þegna hardara fyrir sömu yfirsjón enn hina. Hèr get eg og þess, ad Cancellíbréf til Stiptamtmanns yfir Íslandi, þann 29da Júlii 1786, býdur ad byrta Sýslumönnum og Hreppstjórum, ad ef Prestar rádist í ad sekta nockurn fyrir helgidagsbrot, megi þá álýktun ecki framqvæma, heldur skuli hún metast, sem ógjörd og óskrifud, og enginn Dómur um helgibrot framqvæmast, nema med sampycki Stiptamtmanns

kisation, en á vorum dögum er Hreppstjórum þarflitid ad kynna sèr margt þeirra, nema ef vera skyldi í þeirra tilliti, er pápiska daga nú heidra. Jónsb. Frfb. IX. Kap. býdur: ad Hreppstjórar, ásamt tíundum og matgjöfum, skipti því, er fátækir menn eiga af heilagra daga veidum, en Rekab. X. Kap.: Ef hvalur er fluttur eda skorinn á helgum degi, þá skal gefa af hinn 5ta hlut þeim (hvali) er fluttur er, og af svo miklu, sem skorinn er á helgum degi, en ecki er meira skyldt. Af selaveidi og allri þeirri, sem lögheilgann dag er veidd, skal gefa hinn 5ta hlut fátækum mönnum, þar innanhrepps, sem á land kemur, þeim er ecki gjöra tíund, og skulu Hreppstjórnarmenn þessu skipta milli fátækra, því svo hafa forn lög verid og vani. Rettarb. Hák. K.: En hverr madur, er þetta vill ecki greida, er sekur 6 aurum vid Kóng.

manns, sem má þvílíkum dómum umbreyta, eptir málavöxtum, hvad síđan með Köngsbréfi af 7da Mart. 1788, er ad öllu leiti stađfest.

## §. 5. Bls. 5.

Hverjar þær med þessum Tilskipunum aftekna pápiskar og óþarfa helgar sén, hefi eg sýnt, í Eptirmælum 18du aldar, bls. 783—84, og fleira markverdt um þeirra brúkun. Þad vóru, nefnilega: Þeitdagurinn gamli, eda Einmánadar samkoman nordanlands; Jólanóttin; Sumar- og Vetrar-dagurinn fyrsti.; Þridji í Jólum, Páskum og Hvítasunnu; Þrettándi í Jólum; Kindilmessa; bádar Maríu-, Jóns-, Mikáels-, og Allraheilagra-messur, hverja daga Konúngur tjádi optar brúkáda verid hafa til ydjuleysis og óráđvendnis enn sannrar gudrækni, en vildi þeim varid til gagnsmuna og vinnu. Í Póliti-Tilskipun fyrir Danmörk, frá 25ta Mart. 1791 §. 12, er bodid: ad hvørki á þessum né ødrum virkum døgum, megi nockurt hjú forsóma vinnu sína, án húsbóndans leyfis, og hendi þad, megi húsbóndinn korta þar fyrir kaup þess um 2 mørk á dag, til jafnra skipta milli hans og fátækra, en beri þetta vid optar enn þrisvar, eda lengur enn 3 daga, sé þad rækt úr vist, og bæti auk þessa til sømu hálfs missiris kauri, og skal húsbóndinn rita þetta í vitnisburd hjúsins. Eg sje samt eckert, sem Hreppstjórar gæti útrétt til ad afvenja pápisk helgihøld, og kénna sérvitr-

fugum að heiðra Landslögin, og að minnsta kosti sneipa þá af að spilla annara betri atorkusemi og bjargræðis útvegum á þeßum dögum, með þeirra djörfu kathólskþsinnuðu kénningum, nema að setja þeirra egin helgihölðum á verulegum helgum sérlegt auga, og öðrum fremur, til eptirdæmis, ákjæra þá um helgibrot, eptir fyrrnefndum (í skírsingar greininni e, blſ. 7) tveimur Tilskipunum, þann 29da Maji 1744 f).

§. 6. Blſ. 5—6.

Allar yfirsjónir um það hèr nefnda, á Hreppstjóri vottanlega að uppskrifa, og senda Sýslumanni til Urskurðar og Urskurða útvegunar, hvørra hann um leið beiðist g). Þær røksemdir, sem

f) Sjá Eptirmæli Atjándu Aldar, blſ. 784.

g) Kóngsbref þann 26ta Júnii 1782 §. 3 segir, um dryckjuskapar yfirsjónir og hneixli á helgum í kirkjum og við þær, að þeir sem komi svo druknir í kirkju, að það gløggt sjáist af reiki þeirra eda øðru, skuli, samqvæmt N.L. 6—3—8. 9, sektast, þeir verðslegu af Amtmanni, (en geistlegir víst af Biskupi), sem áqveði líkamlegt straff eptir málavøxtum, se sektin ekki goldin, hvør annars skiptist jafnt á milli Hreppstjóra og sveitarinnar fátæku. Hreppstjórar og Meðhjálparar skulu, eptir samvitsku og eins og þeir vilja forsvara, meðhaldslaust tilkynna Biskupi og Prófasti, þegar þeir visitera, þeßháttar yfir-

sem þeßi Artikuli tilfærir mót hunda Kirkjuferd-
um, sem Háyfirvøldin ádur opinberlega bannad
hafa,

---

yfirsjónir. Þeir sem enn grófar misfjá sig druck-
nir í kirkjunni, med hávada, grófum og ósyrilát-
sømum fettum og látædi, sektist enn þýngra, en
skorti gjald til bóta, og med þessara skipti, fari
sem fyrr segir. Aflog í kirkjugardnum eda vid þá
á helgidøgum, hvørt heldur af druknum eda ódruck-
num fremjast, og annad midur gróft, en þó ósæmi-
legt framferdi, straffist eptir NL. 6—9—16. 18,
og 6—3—10, en grófari yfirsjónir í eda vid
kirkju, eptir 6—9—21.

Þeir hier tilnefndu NL. Artikular bjóda:
6—3—8. ad hvørr sem selur ølfaung nockurn
sunnu- eda helgidag, fyrr enn kl. 5 e. m. (edur
1 stundu fyrir midaptan, eptir Tilsk. af 12ta Mart.
1735 §. 3.), nema sjúkum til handa, ef þeir þeß
beidast, hafi fyrirgjørt því, sem hann medferdis
hefir (af ølfaungum), og sektist kaupandi af Yfir-
valdi sínu (Sýßlumanni) um 2 lód sylfurs (1 rdl),
en sjái þad gegnum síngur med þvíumlíkt, bæti
þad 2 rdlm. til Konúngs.

6—3—9. Hvørr sem á bænadøgum selur
eda selja lætur nockur ølfaung til ofdryckju og
óhófs, løgsækist þar fyrir, og annadhvørt standi
opinbera aflausn, eda straffist á eigum sínum til
næsta Hospítals, ellegar á kroppnum med vatni
og

hafa, undir alvarlegt straff h), vyrdast nægar til ad minna menn á, ad kirkjan er samkomustadur fyrir kristna menn, til opinberrar og verdugrar Gudsdýrkunar, en ecki fyrir hunda, og ad NL. 6 — 3 — 10, hér lögleiddur, býdur: ad únglíngar, sem med leik, glímu eda gárúnga-hætti í kirkjugördum, medan embættid í kirkjunni framfer, vanhelga þjónustugjördina, straffist med vendi

og brandi (til vidurværis), bresti hann efni til annars sektagjalds. Eins sektast þeir, er ad ofdryckju fundnir verda þann dag.

6 — 9 — 16. 18. ad hvørr sem í kirkju, kirkjugardi, á þíngi eda nockrum stad ødrum, hvar Dómur og Rettur er settur, grípur til verju, heitist eda ógnar nockrum manni med reidu skapi, edur vopnadri hendi, bæti hvørt sinn, sem hann þannig misgáir sín, þrennum 10 lódum sylfurs (15 rdlm.), enn þótt hann einkis skada se ollandi.

En slái hann pústur og hnefahøgg, stafs eda ønnur høgg, bæti hann og fyrir þad ad løgum, og þaradauki þrennum 15 lódum sylfurs (22½ rdl.), fyrir kirkju- eda þíng-frid.

Tilskipan af 3ja Júnii 1746, um ofdryckju, býdur: ad sá sem kemur druckinn til skripta, eda eptir skriptir dreckur sig druckinn, bæti 4 mørkum til fátækra, og leysist opinberlega.

h) Sja Løgþíngisbók 1745 Num. XVII. sem fyriskipar Hreppstjórum tillit hier med.

vendi og píski — eins þeir verxu nú, síðan Köngsbr. frá 25ta Júlii 1808, setti þetta straff, §. 7da og 9da, í stað gapastocks eda vatns og brauðs — en þeir er hérmed hafa tilsjón (Hreppstjórar), hafi vald ad útverka þeim þetta, og láta áleggja (eptir dómi); en Foreldrar og Húsbændur eru þar hjá, undir helgibrot og fjársektir, skyldadir til ad aptra þessari ósvinnu, hvörsvegna hundum því síður má líðast, ad ósæma med háváda og áslogum opinbera Gudsþjónustu, sem menn ega svo alvarlegri hegningu ad sæta fyrir þeßháttar ad løgum, eda ad raska þar rósemd og athygli manna, hvar gudrækni, dygd, ástsemd og allar kristinndóms skyldur, ega opinberlega ad brýnast fyrir og innrætast søfnudum, undir laganna sérlegri fridhelgi.

## §. 7. Bls. 6.

Vertshús eda Dryckjuhús fyrir ferdafólk eda adra, hvarí brennuvín og áfengir dryckir eru seldir, mega ecki líðast, nema eptir sérlegu Amtmanna leyfi, þar reynslan hefir kénnt um allann heim, hvørsu háskaleg þau ein og øll brennuvíns sala er opt siðgædi og velférnun manna, hvørsvegna Amtmenn eru hér sparsamir á þeßháttar leyfisbréfum, en án þeirra er hún øllum allstadar stórlega saknæm i). Tilskip. þann 3ja Júnii

i) Tilskip. af 13da Júnii 1787, II. Kap. §. 2., segir: Fyribodid se serhvørjum manni, bædi í kaupstødum

Júníi 1746, bannar í §. 9. lausu qvenfólki ad dragast ad Kaupmanna-búdum, og býdur Sýslu-manni og Hreppstjórum ad adgæta þvílíkt, en Tilskipan þann 19da Febr. 1783 í §. 5. bannar konum sem kørlum lausamennsku, og konúngleg skipan, þann 21ta Júlii 1808, búdarsetu vid sjó, undir lausamennsku straff, sem nú er hýdíng, eptir Kóngsbr. frá 25ta Júl. 1808. Adrar, ad þessari grein lútandi, lagaskipanir sjást hér ad nedan k); en hvad bannadar veitslur í kirkjum

og á landinu, ad skeinkja út brennuvín, án sérlegs leyfis Amts-yfirvaldsins, undir 5 til 10 rdla sekt í serhvørt sinn, nockurr verdur þarum sannur ad søk, og hækkist þessar bætur eptir málavøxtum, hendi þad optar þann, sem einusinni er straffadur. Sá sem kemur því upp, fái ⅔, en sveitar fátækir, hvar selt var, ⅓, og standi hinn seki málskostnadinn. Leysist i þesshattar málefnum eckert Appell, eptir Kóngsbr. frá 11ta Apr. 1781. Sjá framar um brennuvíns sølu adra og tóbaks prang, 38 §. hereptir.

k) Tilskip. af 3ja Júnii 1746 býdur í 12 §. ad skilja sundur þá, sem drýgja frillulífi eda hórdóm frá samvistum á bæ, eda í somu sókn, og segir Cancellibr. af 13da Okt. 1787, ad þessi Art. se í þessu tilliti óraskadur, þó Kóngsbr. þann 15da Mart. 1780 hafi sett bætur í stad útlegdar úr Sýslu, fyrir hórdóm og 4da lausaleiks brot. Forsómi Prestur ad gefa þvílík barneignar-brot Sýslumanni til kynna,

jum áhrærir, þá er fyrst audskilid, ad þad hús, sem innvígt er til sérlegrar dýrkunar ens hærsta, á ecki ad gjørast ad Dryckjuhúsi, sem og er ósamqvæmt laganna anda, er í Tilsk. þann 29da Maji 1744 §. 24. bannar svo mikid, sem Héradsrétta-hald í kirkjum, og DL. 2—16—12 býdur Prófastum: ad kalla Héradspresta saman í kirkju á hentugum stad, þegar Embættis vegna vidþurfa, en bannar allar veitslur þarvid, hvad og

kynna, bæti hann eptir efnum, en forsómi Sýslumadur ad stía þeim brotlegu í sundur bæti hann 8 rdlm. í 1ta, en løgsækist uppá Embættid í 2ad sinn. Af bótum beggja fá fátæk børn 2 þridjúnga, en Medhjálparar 1 þridjúng.

Reglugjørd frá 17da Júlii 1782, segir §. 9, um Presta Embættis tekjur: þeir vidbjódslegu og hneixlanlegu brennuvíns pelar, skulu med øllu vera afteknir og fyribodnir. Tilsk. þann 27da Maji 1746 §. 7, skipar Prestum undir straff, ad tjá sig ódrucknа vid húsvitjanir, og fyribýdur þeim, án naudsynja, allann áfengann dryck vid þær, og hans ad leita: NL. 1—3—3. Hvørr sem til þings flytur eda flytja lætur ølfaung til sølu, missi þau, og bæti 20 rdlm. í 1ta, en tvøfaldt í 2ad sinn, eptir Tilskip. fyrir Norveg, þann 8da Mart. 1757 §. 3, hálft Konungi, en hitt þeim er frásegir; í 3ja sinni gisti hann 1 ár í Slavarii.

og á þeim stad væri óſæmandi, og þá enn framar brennuvíns ſala vid kirkju, eptir ádurſøgdu og NL. 6—3—8. 9, hvørra innihald er tilfært undir §. 6. blſ. 10—12.

§. 8. Blſ. 6—7.

Fyrir ſkammarlegum nídqvedſkap og nafnagiftum gjøra Danmerkur og Norvegs Løgbækur varla rád; ſvo óheyrdur er þeßi ſtórglæpur medal þjóda, er ſídadar nefnaſt vilja, ad hann vart ſpyrſt, nema af órádvøndustu gárúnga og gapa túngum, ſem í verkinu votta þarmed villiſidu ſína, og enn ſáraumari kriſtinndóms þeckíngu eda æfingu. En — á ſkammar- og hádſkrifum, ſem nockurr ſemur, lætur frá ſér útberaſt, en dylur nafn ſitt á ſkrifum, ærlegt fólk vanvyrdandi og ærumeidandi, tekur NL. 6—21—8, ecki mildara enn ſvo, ad hann býdur hinn ſeki dæmiſt ærulaus, og til prældóms ervidis í járnum ſína lífstíd. Panninn ítrekar Tilſkip. frá 27da Sept. 1799, þenna NL. Art. og undireins innleidir hann hér, þar hún er hingad á land ſend, og hér auglýſt. Hennar 12. §. býdur: ad ærumeidandi áráſir gégn ſaklauſra medborgara gódu nafni og rykti á prent útgéfnar — af augljóſum hefundi — ſtraffiſt, í tilfellum ſem NL. 6—21—2, 3 og 7 tilgreina, med ærutjóni og Tukthúſs-ervidi, frá 2ur mánudum til 2gja ára, hvarvid bætaſt þrenn 40 lód ſylfurs, ahræri þær, eptir NL. 6—21—7,

Yfir-

Yfirvöld, heidursfólk, ærlegar konur og menar, en í tilfellum, sem NL. 6—2—4 tilnefnir, sem óvidurqvæmilegt en ecki ærumeidandi orda-val, leggur hún sektir vid frá 50 rdlm til 1000 rdla, eptir því, sem tilunnid er, en sé hid straffs-verda og áreitandi í ritgjerdum undir spotti eda rós og sneidyrdum framfært. hvar meiningin og sá vondi tilgángur sé þó audskilinn, leggur hennar 13di §. sama straff vid, sem þó lastid blátt á-fram sé framsett. Ad sönnu áhræra nú nefndar lagagreinir eginlega prentud spott- og smánar-rit, svosem því skadvænni fyrir sidgædi og æru manna, sem þau þanninn auglýsast fleirum en sömu Tilskip. 25ti §. leggur og öldúngis sama straff vid, ad útdeila handskrifudum smánar-ritum, bædi fyrir þeirra höfund, og þá er selja eda útdeila þeim, eins og vid prent-ada auglýsíngu þeirra.

Þeßi í 12ta, 13da og 25ta §§. áqvördudu straff, eru samt einúngis þeim ritshöfundum bótud, hverra nöfn eru augljós, en sé þau dulin, er, sem fyrst segir um nafnlaus skammar- og háð-skrif, enn miklu hardara straff vid þeim lagt. Hvad mun þá bera þeßháttar nafnagiftum og nídqvædum, sem eru láng-grófust tegund ó-qvædis orda og skammarskrifa, af því þau ber-ast vídar út, nemast og hafast yfir til sida- og mannords-spillíngar, miklu heldur, af illasidud-um úngum og einföldum, og vara lengur vid mann frá manni, til saklausra átsmánunar? Straffsverd mættu eldri leg nídslegann qved-

 skap,

skap, er þau lögdu ærubneckjandi bætur vid hann, ef lengri væri enn fjórdúngur vísu, og Kristjáns Konúngs IV. Norsku-Lög bættu vid: ef útbæríst yfir fjórdúng mílu ad vegalengd, og stórsektir lögdust vid jafnvel ad hafa þann qvedskap yfir, til sneidíngar uppá nockurn, sem gjørdur var þó til minkunar ødrum 1).

Tilsk. frá 8da Júlii 1689, leggur 500rd. sekt vid ad innleida, selja eda dylja skammar-skrif, og þá sekt ítrekar Tilskip. af 27da Sept. 1799 í 21ta §., þegar opinber advaran er útgengin. Hin býdur og ad afhenda þau øll Pólitimeisturum (sem Sýslumenn eru hvørr í sinni Sýslu), sem opinberlega láti þau af bødlinum brenna; álíkt fyrisegir og hin seinni, þann 27da Sept. 1799. Vid ritgjørdir, med hvørjum sidgædi og blygdunarsemi, en þó ecki mannord saklausra vanvyrdist, leggur nærstnefnd Tilsk. í §. 9, fángelsis straff, eptir málavøxtum. Yfir høfud ad segja, hefir vor vísa og réttláta Ríkisstjórn æ vottad sømu áhyggju sína, sem hún nú seinast í formála nýuefndrar Tilskipunar auglýst hefir, nefnilega: ad vernda krøptuglega borgaralega vyrdíngu manna, svosem einhvørn þann heilagasta rétt í borgaralegu samfélagi, fyrir æruþjófanna eitrudu túngum og smánar ritum. Bæturnar, sem eptir 12, 13, 21 og 25 §§ í Tilsk. af 27da Sept. 1799, tilfalla fátækum, og sem

1) Sjá Jónsbók, Mannh. XXVII. Kap. og Kóngs Kristjáns IV. Norsku Løg.

sem Hreppstjóra hverjum ber ad innkalla, eru nefndar hér ad framan. En Tilskip. þann 28da Dec. 1792, býdur í §. 3, ad sá, sem ránglega tilgreinir og ritar á klaganir og Supplikatsíur höfundsins nafn, skuli 20 rdlm bæta til sveitarinnar fátækra, hvar yfirsjón sú skédur, en tvöfoldu hvørt sinn úr því.

## §. 9. Bls. 7—8.

Réttarbót Hákonar Kongúngs, innfærd í Jónsbókar Frfb. IX Kap., sektadi þá um ½ mørk eda 1 rdl. specie, sem ecki vildu halda hvad Hreppstjórar løglega skipudu, og Húsaga Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 § 32 baud: ad þeir sem forakta og mótviljuglega forsmá Hreppstjóra løglegar skipanir, skyldu ½ mørk eda 1 rdl. gjalda, — en þá, og til þess 1751, gyldti hér ad eins og géck specie reikníngur — en þeir fatæku skyldu í gapastock setjast, í hvørs stad Kóngsbr. þ. 25ta Júlii 1808 ætlast til, ad Yfirvøld tilraki annad paßlegra. Þegar nú Konúngur vor, þann 21ta Júlii s. á., baud ad auka Hreppstjórum naudsynlegt Embættis álit og myndugleika, og byrta almúga, sem þegar ánægianlega gjørt er, ad Konúngsins alvarlegi vilji sé, ad alþýda gegni þeim med virdíngu og hlýdni, og adstodi þá í ellu til gódrar reglu og almúgastjórnar framqvæmdar, og Stiptamtid med prentadri auglýsíngu, þann 12ta Maji 1809, hótar þeim mjeg svo strángu straffi, er hérámóti brotlegir verda, er audvitad,

ad þessara sekt aldrei gètur vægri ordid í hvørt sinn, en opt líklega hardari; af þeßháttar sektum tileinkar Húsaga Tilskip. nýnefnd, í §. 35, þeim $\frac{1}{3}$, en fátækum $\frac{2}{3}$.

En — þó løgin nú leggi Hreppstjórum þenna myndugleika til, ega þeir, eins og gód og vitur Yfirvøld gjøra, ecki honum ad beita annarstadar enn hvar þeir reyna, ad gódsemd og lempni eckí vyrdist sem ber, einfeldníngar og ófyrilátsamir stórbockar láta í ljósi vidleitni ad óvyrda þá og mæda, eda þverskallast vid þeirra løglegu Embættis-skipunum, í hvørju tilfelli þeir aldrei ega né mega vid sérhvøru þeim undirgéfinn, fella af Embættis vyrdíngu sinni og myndugleika, eckí gèfa sig í lángt eda slæmt ordakast vid ordháka og illhryßínga, heldur taka vottanlegt, hvørsu breytni og undirtekt þeirra sé, og þeim til lærdóms og aga, en ødrum til vidvørunar, einkanlega sýna þessum, ad laganna hegníng nái til þvílíkra, fullvißir um Yfirvaldanna adstod í øllu løglegu, eptir Embættis-skyldu Undir eins minnist þeir jafnan síns aflagda Embættis-eids, med trú og hreinskilni ad vanda sitt embætti, og ecki nýta sér þeim lènt yfirrád, sem medøl til ad áreita saklausa, erta íllt skap, hefna á óvildarmønnum, ellegar ofrìki og ágengni vid nockurn frammi ad hafa, heldur kosta kapps um, ad undirgèfnir unni þeim, og ásamt yfirbodnum vyrdi þar gódann vin og Forstjórnarmann almúgans, og minnist þarhjá, ad sjálfir landsins Konúngar mildilega stjórna yfir þegnum sínum, sem frjálsir

fólki,

fólki, og føðurlega sem børnum, en ecki sem þræl-
um, hvaraf Hreppstjórinn læri að draga sér dæmi.

## §. 10. Bls. 8.

Eins og í nærstundangengnum §. er krafin und-
gefni almúga við Yfirvøld og Hreppstjóra, svo
ega þeßir að áminna Foreldra og Húsbændur til
að krefja sømu af børnum og hjúum, og børn og
hjú til að veita hlýðni foreldrum og húsbændum,
en gagni áminníngar ecki, og stór misbrestur á
finnist, á Hreppstjóri að styrkja þá, sem ákjæra,
til að ná rétti sínum. Þeßi réttur er að lög-
um mikill, á náttúru og nauðsyn og á løgunum
grundvallaður. Eins og borgaralegt samfélag,
hefir tilskilið þess efsta Stjórnara allra undir-
gefinna fúsu hlýðni, án hvørra almenníngs vel-
ferð ecki verður varðveitt; eins og hann aptur
krefur sømu, við þá Embættis-menn, hvørjum
hann umbýður að framqvæma sinn vilja, til al-
menníngs velfernunar, svo hefir hann og í løg-
unum krafið, að børn og hjú votti foreldrum og
húsbændum sømu hlýðni í øllu løglegu, til fröm-
unar sérhvørrar ættar, heimilis og húsfélagskap-
ar manna velfernunar, án hvørrar húsfeður og
foreldrar ecki gætu fullnægt uppeldisins og þegn-
skapar skyldum, borið opinber þýngsli og út-
gjøld, ellegar aðstoðað ørvasa fólk og aðstoðar-
lausa þurfamenn. Milli foreldra og barna hefir
náttúran sjálf sameinað skyldunni, að forsorga,
uppala vel og koma svo vel á fót, en fram undan

manna fótum afqvæmi sínu, ad þad sjálst fái sér atvinnu leitad og útvegad, réttinn til hlýdnis af þessu í øllu, er uppeldid útkrefur. Sé þessu fullnægt, og uppeldis tíminn á enda, endar ad sonnu barndóms hlýdnin, þegar náttúran sjálf hefir og fært þessum skepnum frá, en dveiji børnin í vist med foreldri sínu, í þeirra braudi og þjónustu, tekur ný hlýdnis skylda þeirra vid, sem hjúa, en yfir hjúum hafa húsbændur sama rétt, sem foreldrar yfir uppvaxandi børnum, og hjúanna skylda vid húsbændur er hin sama, sem vid foreldra. Hverr fadir og húsfadir, er sem Kóngur í húsi sínu. Hann hefir, eptir náttúru- og borgaralegum -legum, þegjandi skilmála samid vid børn sín og hjú, ad þau hlýdi honum í øllu løglegu, vinni honum til heilla og heimilisgagns, allt hvad hann býdur þeim, en ad hann þarámót verndi hvørttveggja og veiti børnum uppeldi, hjúum kost og kaup. Beggja óhlýdni eru því afbrot gegn nefndum løgum, háskaleg og óþolandi fyrir almennings velførun, hvarja þau þessvegna ega hardlega ad straffa. Þau leyfa því m) Foreldrum og Húsbændum húsaga vid børn og hjú, og ad straffa þverbrotna med alvarlegum ordum, þó án blóts, illyrda, formælinga og blygdunarlausra ærukreinkjandi orda, og med hendi og vendi, en ecki med høfudhøggum, sem heilsu, gáfum og lífi allopt háska-

m) Sjá Húsaga Tilskip. af 3ja Júnii 1746, §. 8, 9, 14, 16, 17, 24, 25.

háskalegum, ellegar med verkfærum, sem færi eda limlesti þau, ellegar skadi heilsu þeirra. Børn og hjú ega sjerdeilis ad venjast á undirgéfni, lotníngu og vyrdíngu vid foreldra, hússbændur og alla þeim yfirbodna, í ordum, vidmóti og verkum, á audmjúk og sidsom svør, án nockurra mótmæla, ofugyrda, rustaskapar og þvermódsku n), á ad breyta eptir sinna Yfirbodara fyrisøgn í øllu, en ecki egin vild eda hugþótta; á hollustu og trygd vid þá; á rádvandt ordbragd og framferdi. Nýnefnd Løg skipa: ad tilkynna Prestum og Hreppstjórum yfirsjónir gégn þessum reglum, sem áminni til umbótar, en gagni þad ecki, ákjæri Hreppstjórinn o) fyrir þeß hønd, er klagar, ad hinn seki



n) Fundatsia fyrir Íslands Tukthús, þann 3ja Mart. 1784 §. 1. býdur: ad latt, gróft, þrjótskufullt og óhlýdid vinnufólk, sem ecki gegni hússbænda skipunum, og kargir kaupamenn eins, er svo reynist, eda sem forsómi vinnu sína med dryckjuskap eda ferdasnatti leyfislaust, og þeir, sem burthlaupa úr vist eda vinnu í ótíma, skuli setjast í Tukthús, þad er: nú hýdast.

o) Tilskip. þann 27da Maji 1746, býdur í §. 14da: ad Prestar alvarlega áminni børn og hjú til nýnefndrar skylduræktar, og láti jafnvel þverbrotin børn hirta í Medhjálparanna og Prestsins nærveru, en tilkynni Hreppstjórum og Sýslumanni mótþróa og íllt framferdi hjúa til straffs. NB.

verdi, eptir nefndrar Tilskipunar bodi í 14, 17, 18, 19, 22 og 28 §. alvarlega straffadur, eptir Sýslumanns álytun og málavextum, med fébótum og hýdíngu (í gapastocks eda Tukthúss stad) eptir Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808.

Alleins ber Hreppstjóra hvorjum ad áminna um, ad börnum og hjúum, eptir mögulegleikum, veitist gott og naudsynlegt uppeldi, leglegt og forsvaranlegt vidurværi og kaupgjald.

Eins og foreldra-maktin og barna hlýdnin (en fyrir þad ecki adrar sérlegar barna-skyldur) enda med uppeldinu, egi manneskja, sem foreldri á á lífi, nockurntíma myndug og sjálfrád ad verda, svo er audskilid, ad hvar uppeldid er ödrum á hendur falid, er foreldra maktin á medan

6—5—5 leyfir foreldrum og húsbændum ad straffa þau med staf eda vendi, en ecki vopnum, og Tilsk. fyrir Danmörk, þann 25ta Mart. 1791 §. 14. segir: þad er Konúngsins alvarlegur vilji, ad hjú sýni þeirra húsbændum hlýdni, og ad sá myndugleiki og rettur til ad straffa þau, sem NL. 6—5—5 heimilar þeim, verndist; því skal hvört hjú, sem dyrfist ad sýna opinberann mótþróa, eda mótvörn, þegar húsbóndinn straffar þad, eptir málavextum gista fángelsi í nockra daga vid vatn og braud, eda Tukthús 1 eda fleiri mánudi; en þó ad hjú egi ad sýna þeim vyrdíngu og hlýdni, egi þau ad njóta gódrar og sanngjarnrar medferdar, og ecki særast eda limlestast, þó straffud seu, nje skemmist á heilsu.

an þessum seld, en foreldrisins hætt. Eg sie því ecki, ad foreldri megi á medan skipa þad fjarlægu barni sínu, sem húsbóndi þeß løglega bannar; en — meira þessu vidvíkjandi mun eg framtelja vid Instrúxins §. 22 og 43.

Gódir Løggjafarar láta sér jafn-annt um ad vernda æru, borgaralega vyrdíngu manna og gott sidferdi; því opt mætti annars sá forþéntasti æru- og dánu-madur falla réttlaus fyri lygarans skjædu og djørfu túngu. Líka eru munneidar, megnt blótragn og skammarlegt ordbragd merki villisida og spillts sidgædis, sem háskalegt er fyrir adra, sem eptirdæmi, því framar, sem sidaspilling ein hefir kollsteypt fleiri enn einu ríki. Lygarans og Skammarans æruleysis og fjárbóta straff ad løgum, er alkunnugt, eptir NL. 6—21—2, 3, 4, 7, og um Blót og Svardaga er heill Kapituli í Danmerkur og Norvegs Løgbókum, nefnil. 6 B. 2 Kap., sem setur þá, er þenna løst æfa, næst eptir Lygara, hvørjum án eida ecki sé trúandi; fyrir engu Embætti eda útréttíngu trúandi, sem þeim sé gagn og sómi ad, já, gjørir þá útlæga úr stødum, ad ecki gjørspilli þar ødrum p).



p) Tilskipan þann 3ja Júnii 1746 §. 27, býdur: ad Lyga-þvættings og sladurs høfundar, sektist fjárbótum og setjist í gapastock, þad er nú: hýdist; og í §. 19, 24 og 28, sektast blót og ragneidar og skammarlegt ordbragd, ef áminníng ecki

J tilliti til niðurlags þessa Artikula, er fleira að sjá við §. 26.

## §. 11. Bls. 8.

Það er margreynt, að Óþrifinn blessast aldrei, þar sem lítil efni við sparsemd og þrifnað fara dagvaxandi, eða ná tvøfaldt á leið til heimilis nauðþurfta. Sóða- og óþrifa-háttur er auk þessa haldinn vottur uppá jafn-óhreina sálu, og ferðasøgurnar kénna oss, að því villisiðaðra og minnr upplýst hvørt fólk er, því sóðalegara er það í lifernisháttum. Einúngis húngrið lætur øðrum enn óþrifum smackast óhreinleganns mat, framreiddann af skørnugri húsmóður, í grómtecknum óhreinum ílátum, en hvar hún sjálf, allt húsið, borðið, matarfatin er hreint og þrifalegt, þar verður léttmeti jafnvel lostætt og þrifagott hreinlátum mønnum og siðprúðum.

Biðillinn snýr sneiptur heimleiðis aptur, og gjørir ecki erindi sitt uppskátt, sjái hann að stúlkan, sem hann hugði að fá sér til konu, sé skørn-

ecki verkar, með innihaldi verkalauna hjúa til fátækra, og opinberri aflausn, eins annara með fjársekt og aflausn, einkum sjófólks, er í veiðisiøðum bølvar egin og annara veiðarfærum, og brúkar skammarlegt orðbragð; en brúki húsbændur formælíngar og blygðunarlaus ærukreinkjandi orð við hjú sín, segist á því, sem við óviðkomandi, eptir áðursøgðu.

skørnug á þorund eda í fatnadi, lappi á toplud-um rifnum skóm, med skitna og gotótta socka, hvørsu dáfegur ad skapnadi eda eiguleg hún ann-ars þækti, hafi hann ecki henni jafnsódalega sálu sjálfur ad geyma, og hugsar annars med sér: svo vidbjódsleg kind, sem fengir egin slíkur og kropp sinn, fengir víst og skémmir allar eigur mínar, verdur sem eldur í þeim, og bádum ockur til minkunar, komi hún og þær fyrir sidsamra og heidvyrdra þrifamanna augu, og allir þeir fá andstygd á mínu húsi; hvørsu má hún þrífa og uppfóstra born vel, hafa góda umsjón med húsi og penings rækt, og verka notalega mat, er ecki fær sjálfa sig skammarlaust þrifid?

Bædi vegna misjafns adbúnadar sjófólks og skorugra sjóarverka, er í verplátsum jafnan sódalegast, en því framar þorf þar á moguleg-asta þrifnadi, sem medal mannfjølda annars má orsakast pestnæm sótt, og gylda margra líf. Þess-vegna er Hreppstjórum hér hardlega fyrilagt ad áminna allstadar, en einkum þar, um þrifnad í ollu, sem verdur. Utlendar þjódir, sem einúng-is koma hér á hafnir vid verpláts, færa og þess-ara óþrifnad í frásøgur erlendis, og dæma alla þjód vora þar eptir hræmuglega fyrir óþrifnad, þar sem mjøg fáir þeckja rétt til miklu þrifalegri lifnadarhátta til sveita, sem þó þurfa og allvída mikillar umbótar.

Eckert er samt óþrifalegra, eckert óhollara og vidbjódslegra, enn stækjufull Forafsfn fyrir kalldyrum, hvør Hreppstjórar nú ega ad skipa af-

legd

løgd þar, og setja hlutadegendum fyrir vissann tima partil, nus jørd verdur svo þýd, ad mold og sorp fáist nóg, aska og annad til ad fylla þau ad jafnsléttu upp, en leggja vid reglulegar óhlýdnis sektir, 1 rdl specie, ef þessu er ecki í tíma gégnt, aptur og aptur fyrir hvørt stutt tímabil, sem þeir tiltaka, beint eptir 9da §. og vid hann tilfœrdum laga-greinum, nus þeirra bodi er í þessu fullnægt. Er þeßi Instrúxins skipan, auk þess er þrifnadar-skyldan kénnir, byggd á hér ad nedan í skíringargreinni nefndum lagabodum q).

Ad

q) Tilskip. af 13da Júnii 1787, Kap. III. §. 1. segir: Vorir Embættismenn á Islandi, einkum Sýslumenn, skulu ala ønn fyrir, ad Vort bod, þann 28da Febr. 1758 (um siskiveidar), og hvad Vjer um þær sídarmeir framar kynnum ad fyriskipa, verdi, sem náqvæmast skjed getur, haldid, eins og þeir-med øllu móti ega ad áminna fólk í sjóplátsum til þrifnadar og gódrar hentisemis. Serílagi veri þeir fyrirhugsadir ad gjøra hentuga rádstøfun um, ad útvega gott neytsluvatn í siskiverum, hvar þetta brestur, hvørsvegna Hreppstjórar skulu alhalda øllu nálægu sjófólki, undir straff eptir málavøxtum, ad starfa hvad í þessu tilliti er naudsynlegt. Tilskip. þann 5ta Sept. 1794 býdur í §. 1.: Þeir konúnglegu Embættismenn, einkum Prestarnir, skulu ydurlega og vid serhvørt tækifæri upplýsa almúga um þá skadlegu afleidingu

Að sönnu neita eg ecki, að þvílík söfn annarstaðar og sjær bænum, séu ecki með öllu óþörf, til að safna í skólpi, óþverra og saurindum, er annars ecki mega líðast að umkríngja bæinn og bæa-veggi, þecki það og af öllum þjóðum og reynslu viðurkénnt, að rotnuð skólps, soðs, vatns og einkum þvagsöfn allra skèpna, og þeßháttar forasöfn gömul, en ecki ný, gèfi hinn besta áburð einhvörn fyrir velli, en — til þess að missa þennann ecki, heldur margfaldlega auka, fara þeßháttar grafir best nedanhallt við fjóshauga, eða afsíðis, svo að haugavatn gèti ásamt í regnum undan þeim safnast í þær, og safninu lángtum optar og víðar orðið ausið út yfir völlinn, því framar, sem þeir reyndustu búmenn erlendis, taka haugavatn fram yfir allt annað, til frjóssemdar auka.

Um Grossakjötsins hóflegu og hreinlegu meðferð í sveitum, þegar brúkast þarf til fæðu, er Hreppstjórum ásamt Prestum uppálagt, að áminna fólk, og hèrmeð tillit hafa, í tilgreindri Auglýsingu.

## §. 12. Bls. 9.

Í tilliti til þessarar greinar, ber sèrhvörjum Hreppstjórnarmanni æ að minnast: að vald hans

nær

leiðíngu fyrir heilsufar manna, sem stibba og slæmt lopt í hans húsum, óþrifnaður í hans fatnaði, og ofmikið af salltmeti orsakar, einkum í skyrbjúgs og útsláttar (Franssós) sjúkdómum.

nær hér einúngis til ad géfa ydugleg heil-
rædi og áminningar hlutadegendum, en ald-
rei má hann svipta þá eigna umrádum eda
egin bústjórn, né heldur leysa sér ad gjøra
sáttmál hinna ad engu, á medan þeir ecki med
sérlegum Yfirvalds úrskurdi, uppá gyldar laga-
røksemdir eru ómyndugir gjørdir. Ad sønnu
hefir margur rádleysíngur, svallari og letíngi
alla þørf á, ad hann væri frá búrádum settur,
svo sjølfskyldu hans og þurfandi heimili, eptir
greindra manna rádum, yrdi borgid, en — bædi
er þeßháttar fjárhald og yfirrád yfir frjálsu bú-
anda fólki mjøg svo hatursleg, og ecki sídur í
mørgu tilliti ísjárverdt, auk þeß, ad Hreppstjóri
hverr, sem á sjálfur fyrir sjølfskyldu og egin
heimili alloptast ad sorga, og mørg Embættis-
verk ad stunda, fær ecki klofid þvílík rád yfir
allra þeirra búum ad umannast, getur opt á-
litist sem skír og gódur Hreppstjóri í sínu kalli,
þó ecki alltíd taki ødrum fram med búvit, sem
er eins almennt um Embættismenn allra stétta,
en — hvesti nú einhverr, sem hreyfka manneskj-
ju, einninn hreinskilinn vilja og ósérdrægni,
hverfit háskalegt yrdi þá ecki þvílíkt formynd-
aradæmi fyrir frelsi og eigur manna?

Þegar hann þarámót sjer hlutadegendur vel
skipast vid hans hollu áminníngar og heilrædi, á
það ad vera honum upphvatníng til ad adstoda þá
og frama sem best, en láta hina lengur vorkénnast,
er mótþróa og tregdu sýna, ad því leiti þeirra
allopt sakiitla sjølfskylda eptir sanngirni má adstod-
ar sakna. §. 13.

§. 13. Blſ. 10.

Um framqvæmd vid voveifleg tilfelli, víſaſt hér til 24 og 25 §§. Eg hefi engu vid þeſſa 13da Art. innihald ad vidbæta, nema vidvørun til Hreppſtjóra, aldrei ad leyfa ſér ofriki gégn annara borgaralega frelſi, rétti og eigna-umrádum, ennþótt vandrædi uppáfalli, og tilgángur þeirra ſé hinn beſti, líkt og eg vid nærſtundangengna grein hefi varad vid, því, ſkérdiſt þetta mót løgum, hætta þeir ad vera verdugir Hreppſtjórnarmenn, en gjøraſt vargar (ſjá framar §. 56.). En — ad lempa allt, ſem gódmótlegaſt og í vinſemd, ſem løg og réttur leyfa ecki, ſem ſkylduhlýdni alvarlega ad krefja, og þannig ljúflega ad ná ſama góda tilgángi, þad á ad vera þeirra áſtundan, og þá er þeſs tilgétandi um góda og ſidſama Hreppsbúa alla, ad þeir gángiſt fyrir gódu, og tjái ſig nógu mannkjærlega í øllu ſamngjørnu, til ad verda vel vid Hreppſtjóranna gódu tillegum og óſk, til ſameiginlegs beſta.

§. 14. Blſ. 11 — 12.

Þad tel eg mikla óhamíngju fyrir landbúſkap vorn, ad Saudſjár-tadi er ſvo vída brennt, hvar mór eda annad eldsneyti er þó fáanlegt, vid hvad þó yfrid mørg kýrfódur tapaſt, og áſamt jafnmargra manna forſorgun í landinu; alleins hvar klíníngur gjøriſt úr mykju til eldsneytis. Hjártad, ſem úti frýs, mylſt vel og géfur ſljóta og mikla frjóſſemd allſtadar, nema á hardvelli

einu,

einu. Hrossafjöldi á sumardag í högum, hvar málnyta gengur, er því skadvænni, sem lands-þrengra er á hvörjum stad, og hross einkum velja hid besta úr grasinu. En — hvar nóg er af sinuhögum, þar eru þau á vetrum, medan jörd er nóg, sannarleg hagabót, því hvar hellst þeir naga, sprettur upp miklu þéttara og kiarna-betra gras, enn þó litt nýtt sinu-rubb stædi óbitid.

Einhvör en hellsta orsök til bodordsins: "ad halda í lengstu lög fátækum búendum "vid ábýli, ecki ad fella bú þeirra, þó til "sveitar-þýngsla horfi af vaxandi fjölskyldu, "og ecki ad skilja samvistir hjóna, eda ráð-"stafa þeim til hreppa sinna, medan ecki lög-"lega adskiljast, eda verda handbjargar ó-"magar," er framvegis ad koma í veg fyrir þann tyrannaskap, sem einstakir Fátækra Forstjórar ad undanförnu hafa sér leyft sumstadar í þessu tilliti; — eg læt hér ósagt, hvört Hreppstjórar einir, eda med rádi nockurra Presta, og segi því Forstjórar. — Nóg og ný eru dæmin, sem nafn-greind verda, ef vill, ad eckert hefir sumstadar verid þeim hérvid heilagt. Fedur og módur hafa þeir optar enn sjaldnar med ofbeldi og lagalaust adskilid, hrifid burt frá búum og eignum, frá ektamökum, frá lífsafqvæmum og ástvinum, frá jördum og bjargrædis leitum, og sendt hvört á sinn hrepp, og þanninn sundurslitid þau heilög-ustu bönd, med hvörjum Náttúran, Lög, Krist-inndómur og innbyrdis ást höfdu tvinnad saman ektamaka, foreldra og börn, já! margopt hindrad

þau

þau lögleguſtu hjónabønd, og gjørt hjónaefnin ad frillulifis afbrotamønnum, einúngis af þeirri orſøk, ad þeim þókti hjón — og óttuduſt ſama um nockur hjónaefni — heldur náqvæmlega fylla hjónabanda fyrſta tilgáng og Skaparans vilja, med barna fjølgun og innbúa efnum vors lands, þegar fátæktin gjørdi þeirra framfæri tvíſýnt, af foreldranna egin efnum. Ólèttar konur vóru burtu hrifnar af fadmi hjartkjæra ektamaka, og børnin af módurinnar; þráreiddar miſkunarlít-id hreppa á milli, ſumſtadar eptirſkildar úti á vídavángi, adkomnar fædíngar tíma, einmana, og — eg blygdaſt vid ad framſegja þarum þær ſøgur, er Embættis-ſkjøl hjá Yfirvøldum ſýnt géta, ſem ſeinaſt, en opt offeint, vóru úrſkurda hèrum krafin.

Náttúrlegur kjærleiki foreldra til barna, og hjóna optar innbyrdis, gjørir þad naudſynlegt, ad þeirra ſambúd ſem lengſt vidhaldiſt, hvar inn-byrdis adſtod og ſkyldurækt má hellſt væntaſt, til lífsuppeldis og framfæris, til adſtodar og til ná-qvæmari umhyggju fyrir børnum og áſtvinum, enn-nidurſetníngar vænta kunna á ſveitum, med-al mislyndra búenda. Ad ſvipta lasburda, út-ſlitid gamalmenni ſíns kjæra ektamaka hjúkrun og adſtod í elli eda ſiúkdómi, ſvipta huggun afgam-alls áſtvinar ſambúd, fátæktar einnar vegna, medan ønnur mildari medøl gèfaſt, er óſæmandi hardneſkja, en í øllu tilliti mannkjærlegaſt, nátt-úrlegaſt, løgunum ſamqvæmaſt, eptir Frſb. II. Kap., og ſveitunum lèttbæraſt, ad adſtoda fátæk-

ra hjóna og barna sambúð með sveitarstyrk, eptir ástandi, heldur enn að sundra hjón, foreldra og børn, og tvístra heim út um hreppa, hvar únglíngar opt verða seint að mønnum, en hjón þanninn fáa glaða daga sjá. Og þó eitt hjóna verði handbjargar ómagi, og egi annarstaðar sveit, er, hvar gott samlyndi finnst, ófært að aðskilja þau, heldur rétt: að konan ætíð sé hjá manni sínum, en fái styrk og tillag, eptir ástandi, þángað af sveit sinni eða náunustu frændum. Svo úrskurðaði eininn Alþingis Samþykt þegar 1690, sem þeß árs Løgþingisbókar *Num. II.* vottar. Líka er það býli og búlelegt, sem betra sé að fella frá ómegum, og slengja þessum uppá hreppa, enn að styðja. En bresti þarámót samlyndi, megn fátækt aðþrýsti, og hjón því sjálf girnist fjærvistir, er þeim løglegast, og í framtíð opt hættuminnst, ef annaðhvort síðan kynni ysirsjón mót ektabands-løgum að henda, þegar skilja, að beiðast Amtmanna leyfis til skilnaðar að borði og sæng, og Kongúngs síðan, ef þeim það eptir 3 ár enn hugqvæmist, að hjónabandi þeirra megi þá með øllu lokið vera.

Eg veit að sønnu það svar vidliggja, að allmørg heimili fátækra barnamanna finnist, einkum við sjó og þurrabúðir, hvar børnin kreystist upp í vesæld, ómennsku og óþrifahætti, læri litið gott eða ráðvandt, eckert til munns eða handa, og verði seint eða aldrei að mønnum, og játa, að þeß eru, því miður! ofmørg dæmi. En Tilskip-

skip. þann 3ja Júnii 1746, býdur í §. 9. Presti og Hreppstjóra ad áminna foreldra alvarlega og ydduglega um kénnslu, betra uppfóstur og vinnu barna, og sé þeim áminníngum ecki hlýdt, ad taka børn frá þeim um tíma, og setja til skickanlegs enn starfsams bónda, er haldi þeim til vinnu, og standi foreldrar þann kostnad, en sveitin fyrir fatæka. Sýni foreldrar sig Hreppstjórum þverbrotna og hyrdulausa í uppeldi barna sinna, býdur sú grein, auk fyrrnefndra bóta, ad setja þá í gapastock, sem nú, eptir Kóngsbr. af 25ta Júlii 1808 §. 7., er umbreytt til Hýdíngar enna setu, frá 10 til 20 vandarhagga. Væri þad dæmi sett á børgum letíngja og óþrifa, ad løgum, mundu adrir láta sér meira annt um fyllíngu þeirra fyrstu skyldna vid lífsafqvæmi sín, enn ad géta þau á skaut fátækra hreppa, og útsjúga annara þrifnari, sparsamari og ydjusamari sveita, sér og hyski sínu til vidurhalds í ómennsku, og sjaldnar vidþurfa, mót náttúru og borgaralegum løgum, ad hrífa børn burt frá foreldra fóstri og kénnslu, sem Kóngsbr. þann 2ann Júlii 1790, ecki vill gjørt sé án þessara vilja, nema í stórnaudsyn. Þetta Kóngsbréf og fyrrnefnd Tilskipan þann 3ja Júnii 1746, ásamt annari frá 27da Maji s. á. §. 17, býdur: ad þeir foreldrar eda húsfedur, sem forsóma kénnslu barna á bóklestri til 7da árs, og í kristindómi til fullra 10 ára, straffist af Sýslumanni med 4 mks. bótum til fátækra; séu þeir sjálfir øreigar, þá, eins og fátækt á engum ad undanskjóta eda afsaka frá

laga=hegnfngu, svo fyrileggur Kóngsbréf þann 25ta Júlii 1808 í §. 9, ad Sýslumadur láti þá seku, med opinberri eda annari vinnu, afplána sektina. Audvitad er, ad allt hvad hér ad framan sagt er um búendur, gyldir og í þessu efni um húsmenn, þar sem þeir framvegis mega lídast.

Þeßi 14di §. Instrúxins telur med skyldum Hreppstjóra: ad fyribyggja sveita-vandrædi, sem opt hægra, en sídan ad greida úr þeim. Medøl til þeß eru hér talin, og vyrdast einkum þeßi:

*I.*) Ad fækka sem mest tómthúsfólki, og útvega því ábýli, einiñ ad lída ecki ødrum framvegis, nema í stórnaudsyn, og þó med þeim skilmálum, sem Konúngur hefir, þ. 21ta Júlii 1808, fyrilagt, húßmennsku, — hvarum sjá meira vid §. 45. — Ad útvega ábýli, er Hreppstjóranum ecki ætíd hægt, því ecki rædur hann fyrir jarda=byggíngum, nema þeirra, er hann sjálfur á. Ad sönnu eru þarum gamlir Alþíngisdómar og samþycktir til, frá 1629 og 1689 og fleiri, ad jarda-bygging til utansveitarmanna, gjøriſt med Hreppstjóra rádi, ad þeir megi ráda þeim, ad innsveitismeñ gángi fyrir ødrum, og s. frv., eptir hverjum nockrir hafa viljad vidhalda eda nú þeßháttar tilfalli, en allt þvílíkt er, sem markláust ad álíta, engin løg fyrir land eda lýd, og aldrei af þess Løggjøfurum eda Konúngum stadfest. Þad getur og enganveginn stadist, ad Hreppstjórar

þjódi

þjóði sér að skérða í svo miklu eignar-rétt eða umráð manna, sem Konúngar vorir og Lögin láta sér heilög og óraskanleg vera. Sé eignarréttur og umráð ecki lengur heilög haldin, úti er þá með borgaralegt frelsi og heill, hvar viðbúast má á hvörri stundu, að þeßi eða hinn, vegna egin eða annara ásælnis eða hagsmuna, hripsi til sín af eigum manna hvað hann vill, með ágengni, ofríkis úrskurðum eða opinberu ráni; úti þá með laganna heiður og borgaralega vernd undir þeirra skjóli. Hreppstjórar geta því einúngis góðmótlega farið þeß á leit við eigaudann, að byggja sveitarmönnum fyrr enn hinum, húsmönnum og þurfandi búendum, með því að gjörast borgunar-menn af sveitarkassanum fyrir þeirra ábúð, en vilji jarðeigandinn það ecki þyggja eða eptirláta, verður ecki rétti eða valdi beitt, þó hann byggi þeim er hann vill, því ecki er það hans, að ábyrgjast ókomin sveitar-vandræði af þeirri bygg-íngu, á meðan hann byggir jörð sína frjálsum og ákjærulausum manni. Fátækt má engum frá gjörðri bygglugu hneckja, því fátækir þurfa hellst ábýla við, og hafa jafnann rétt til að bjarga sér og hyski sínu, sem aðrir, egi helsíngur landsbúa ecki að gjörast betlarar og útaf deya. Líka hefir margur velgengnis maður reist bú við fátækt eina og skuldir, svo vansjen eru kjör manna fyrifram. Einmánaðar samkoman gamla er með Réttarbót (sjá §. 5. bls. 9.) aftekin, og Landslögin skylda nú ecki fram-

ar, sem í Grágásar gyldis tídum, til, á þeirri samkomu ad bidja sér bygdarleyfis, þó meñ skipti um hreppar). Fjelskylda bagar vart heldur, því þeßháttar menn er skyldast ad styrkja, og mót utansveitar ómegd med búanda manni verdur litid løglegt mælt, því þegar hann þrýtur med hyski sitt, verda børn hans þar sveitlæg, hvar þángad til uppfædst hafa, eptir Jónsb. Framsb IX. Kap., eda nú ega Módur-heimilis hrepp (sjá § 22.), svo þau ecki lengur, eptir tiltølu, sveitfestast kunna til byrdi þeim hreppi, hvar þau sídar dvelja um uppfóstrurs árin, og er því í þeßu tilliti ósanngjarnt, ad Hreppstjóri krefji jardaregauda fyrirfram um vedsetningu fyrir þeim þýngslum, utansveitar børn, er síntjast med óbjargvænlegum øreiga inní hreppinn, orsaka kunna þar, þó hinn neiti Hreppstjóranum um jørdina fyrir innsveitismann, sem þeßi býdur borgun fyrir. Varlega er og beitandi frekum krøfum í þeßu efni, þar hardrædi vyrdist, ad bægja fátækum barnamanni frá vidreisn vid lífvænlegra ábýli, hvar hann má ødlast, en hvørs eins hrepps hagi eda heppni verda ætti, hvørninn bónda, vid løglegann bjargrædis veg búandi med ætt sinni, lánast henni ad framfleyta. Allrasíst er nefnandi ófæddra ómaga von hjá fátækum, eptir ádursøgdu bls. 33. Misjøfn kynníng eda ádur gengnir saka- og fébóta-dómar yfir

r) Sjá hennar Landsleigubálks XLIX. Kap.

yfir bónda-efninu, vyrdast ecki heldur hueckt géta ábúdar-rétti hans, medan hann þá er ad løgum óákjærdur, eda hafi hann sakadómum fullnægt, nema hann væri miskynntur ad þjófnadi, og flyttist ad fjallgardi, hvørt einúngis frómir og rádvandir menn veljast ættu.

*II*) Ad halda ómaga-fólki sem lengst vid jørd eda bú, eptir ádursøgdu, en gjalda heldur jardarskuldir þeß, og standa fyrir løglegri ábúd, líka styrkja þad til bjargrædis, hjúa fyrirvinnu, bjargargripa til leigu, og svo frv., enn ad húßbóndinn, vegna óskila og illrar ábúdar, setji þad frá jørdum, ætti Hreppstjóri optar ad velja, þó á sveitarkassans kostnad sé; útvega þeim, eptir Tilskip. af 3ja Júnii 1746 §. 32, vinnu og vinnuefni, ef verdur, hjálp til bjargar útvega, t. d.: róðurs, hvar svo ástendur, grasaferda, kályrkju, og framfærslu málnytu penings, þegar hørd ár, hëyaþrot á vorum, eda ófyrisjen bágindi og skadar uppákoma, vera med þeim og fáráðlingum á haustin í gódum rádum med skynsamlega hevaásetníngu, samqvæmt Løggjafarans bodi, í Tilsk. af 3ja Jún. 1746 §. 32, einninn rádleggja þeim allt hid besta jafnan, um medferd bjargrædis síns, kaupskap og sølu búinu vidkomandi, til ad koma í veg fyrir heimsku brall og brutl rádleysíngja og svallara, en spara mogulegann bjargrædisforda, en hugfesta á hann þó ætíd, eptir því, sem talid er vid §. 12ta hér ad framan, ad beita aldrei valdi eda ſkipun í því efni, heldur

 ad

ad eins heilrædum med skynsemd og gódsemd, jafnframt minnugur, ad allteins aumingjans eigna umrád og búskapar-frelsi er Hreppstjórnanum heilagt og óraskanti, ad hann, þó fátækur sé, einkum sé hann kunnur ad sparsemd og þrifnadi, kann í morgu ad vera eins búvitur; ad undir heppni og stundum þessa fátæka er komid, hvad af skepnum hans fleytist fram, og undir von, hvernínn vetrarfar og vorid og hagar þad árid gefast. Setji hann þvi ecki fyrirfram mjeg heimskulega á hey, en þó freklega nockud, og mæti honum svo óvæntar skémmdir eda stakleg hardindi, er vel med honum gott tilleggjandi vid heybyrga á vorum, med hjálp, annars ber Hreppstjóra strax á haustin, og ydsuglega úr því, þegar vandbyrgdir hans og fellir er ad óttast, ad áminna hann um ad fæcka í tíma, og affegja honum annars allar útvegur med hey.

Þó mikid sé árarid ad bjarga gódum gripi ómagamanns og málnytu; þó med því megi bú og heimili hans frelsast frá sveitarvandrædum og fellir, er samt ógjörulngur, ad pressa adra byrgari um fódur og hey handa þeim, er vísvitandi setja sinn pening heimskulega á, og opter á annara hey, í þeirri von, ad þeir muni sér bjarga, þá komid er í þrot, og Hreppstjórinn fyrir því ala eir. Jónsb. Llb. XII. Kap. sem leyfdi ad taka upp hey hjá byrgari mönnum handa heyleysingjum, afmáti Plakat frá 19da Sept. 1806, sem bannar framvegis þvílikt

likt ofríki, hvad og var óheyrilegt rán á eigum manna, og þess illa afleiding: ad leingiam og hinn ágjarni eda óframsýni, í þessa trausti, allvída áfetti ad ega undir kasti, hvad lángt hann med egin faung kjæmist, en sídan ad fódra penníng sinn med þeim herafaungum, med hverjum forsjón Guds blessad hafdi betri forstands, þrifa- og atorku-manna ydjusemi, framqvæmd og færann vinnusveita. Hreppstjóri hverr minnist þess vegna: ad hey, matur, peníngar, og allar eigur ens byrga og efnuga, eru undir laganna frids helgi og eigandans eins umrádum, þó fátækir þurfi margs af því med, og ad þegar hann geldur sitt fátækra tillag eptir efnum og ástandi, sem honum í mat eda mataryrdi gyldu er uppálagt ad þorsum, á Hreppstjórinn alls eckert med hans hey eda adrar eignr, sem allar standa undir laganna vernd í borgaralegum félagsskapi manna, en ega ecki, sem medal villifólks, ad vera framseldar ríkum eda fátækum, voldugum eda vesælum til ráns, herfángs eda ofríkis. Hann getur ecki skuldbundist til meira, enn ad bera fátækra framfæris þúngann, eptir tiltölu, med ödrum, og med sama móti, þó þessi svo vari vid gripafellir hins fátæka. Loks minnist hann þess, ad heyaupreckt eda útnaudun, mót vilja, hjá ödrum, er íssjárverdari enn flest annad, bædi vegna hennar illu afleidingar fyrir adra, sem þarvid leidast til, optar ad svipta fylgismanninn og hinn forsjála, sem því ad eins er hinum ásamt heybyrgari, ad hann setti skynsamlegar á, og fæckadi egin grip-

 um

um sinum í tíma, atorku og forsjálnis óverti sinum. til hvorrar hann verdur þeim mun dauf-ari, sem hann, med gremju, sier adra, opt lettinga eda óspilsama og trassa, uppskera þar, hvar hann þó einn sádi, og hins, ad missir afgángs-kýrfódurs í ár, kann á fylgjanda hallæris árs vordegum ad fella mørg kúgildi, med hvørju þessum annars hefdi mátt bjarga; og loksins, ad honum a drei ber í embættis nafni ad fala nockurn heyä- og fódur-styrk fyrir sjálfbjarga menn ad ødrum efnum, þó þeir í heyaþrot komi, heldur einúngis fyrir þá sveitarinnar fátæku, sem þurfa og þyggja sveitarstyrk, eda eru med ómegd í háska, og sem þyngja mættu med henni tølu-veidt á sveit, ef málnytu sina misstu til muna, þetta þó þot ad eins, ad þeir á haustí hafi þeckt Hreppstjórans heilrædi, med skynsamlegga ásetníngu, en lidid skada á heyum, eda í sérlegum hardindum komist í þrot.

*III*) Ad mótmæla giptíngum veikra og óknyttasamra vankunnandi, atvinnu- og á-býlis lausra svallara og letingja, uns þeir mega forstødu veita børnum og hjúum, er einmidt eptir þeim í 14da §. tilnefndu lagagreinum, og þarmed er um leid komid í veg fyrir margfeld sveitavandrædi, sem af þessháttar fólks ohamíngju giptíngum og barneign skapast sveitunum. Þeir veiku, sem Kóngsbr. frá 28da Mart. 1776 tiltekur, eru eginlega þeir, sem eru spitelskir, eda hafa líkindi nockur til íbúdar þessa þúngbæra sjúkdóms, sem ecki einúngis gjørir þá

veiku

veiku sjálfa svo lángþjáda, og þýngstu byrdi frænda eda sveita sinna, heldur ásamt, ef hjóna-band leyfdist þeim, foreltra til fleiri óluckulegra ættqvísla, þar reynslan kénnir, ad þessi sjúkdóm-ur leggst ortlega í ættir, og N8. 3—18—14. No. 7, og 16 No. 3, 4. álita hann næmann; ad ektavígja þá, sem bera líkindi nockur á sér til hans, kostar Presta í fyrsta sinni sekt, (er Biskupinn fastsetur) eptir kallsins inntekt, í 2ru sinni tvøfaldt, og í 3ja sinni laga-ákjæru fyrir Prófasts rétti, fyrir mótþróaulegt Kóngsbréfa-brot. Eignast fátæk børn, þad er: sveitin, þeim til uppeldis $\frac{2}{3}$ þaraf, en Medhjálparar $\frac{1}{3}$. Sømu-sekt leggur Tilskipanin af 3ja Júnii 1746, um hjónabandsins mál, etc. í §. 2. vid, ef Prestur gefur í hjónaband fáfróda í kristinndómi og ólæsa, eda þá, sem ecki géta tilhlydilega upp-frædt og forstødu veitt børnum og hjúum, ef eignudust þau; en hvørsu mega mjøg van-kunnandi og óknyttasamir uppfræda? eda bláfá-tækir atvinnu- og óbyla-lausir svallarar og let-íngjar, veita børnum og hjúum forstødu? Þad vyrdist því ad bláfátækt, forþénustu- og jardnædis-laust vinnufólk (sem annars vegna fátæktar vel mætti giptast) ecki egi ad fá hjóna-band, til ad géta børn á hreppanna skaut, sé konuefnid ecki úr barneign, fyrrenn, ad minsta kosti, jardnædi med málnytu nockurri er feng-id, sem naudsynleg ástæda til ad veita børn-um og hjúum forstødu, einkum nú, þegar graenytarlaus húsmenska er af Kóngi fyr-

irbod-

irbodin edrum, enn sérlegum handverksmönnum, eptir Tilskip. af 19da Febr. 1783 §. 9. Hvørr einn sjer, ad vinnufólk, hvørju óvida veitir af kaupi sínu til klædnadar, ecki gétur giptst og forsorgad børn í vistum, en þó klædt sig vel vinnufært, án þess ad orsaka húsbændum sínum eda sveit stór þyngsli, sem ecki má. Veit eg ad sönnu marga mæla fram med fjølgun hjónabanda til fólksfjølgunar, sem þeir álita landsheill. En — eg segi sem fyrr s) — ad atvinnulaus fólksfjeldi, og børn, gétin á hreppa-forsorgun eina hjá oss hér, er, eptir vorra stopulu nærîngarvega ástandi, landshättum og harda bygdarlagi, einúngis efni í ú:sjúgandi ómaga fyrir átorkusama búendur, oft efni í óknytta-skêpnur, vegna skorts og ills uppveldis, og í öfrur, er falla mega sem flugur, hvad reynslan opt hefir sannad í hallærum, sem svo tídum heimsækja vort land; giptíng øreiga og fólksfjølgun af þeim, er því einúngis ad álita landi voru gagnleg, þegar útsjón nockur til líklegrar atvinnu og framfæris fyrir hvørttveggja frambýdst, vid fast ábýli med graslnyt.

Ad einúngis þessi útleggíng gèfi réttann skilníng á Løggjafarans bodi, í Tilskip. af 3ja Iún. 1746 §. 2, ad þeir sem giptast, séu færir um ad veita børnum og hjúum forstødu, þad er: forsorgun og stjórn, votta ánægjanlega 2 konúnglegar Tilskipanir fyrir nábúalønd vor í líku

ástandi,

s) Í Eptirmælum Atjándu Aldar, bls. 827.

ástandi, og ad sú sé meiníng vorra Løggjafara um fátækra giptíngar í þessum løndum øllum, nefnilega: Tilskip. þann 21ta Maji 1777 §. 8, ad á Færeyum skuli þad almúgafólk, sem giptast vill, sanna fyrir Presti sínum, hvørsu þad hyggi ad bjargast, svo sem: ad þad hafi part af eignar- eda leigu-jørdu, eda annann løglegann og ánægjanlegann bjargrædis-veg, eda ad bædi sýni vitnisburdi, ad þau til sveita þjónad hafi 4 ár full, med fylgi, trú og dugnadi, vill þá Konúngur hjálpa duglegu ógiptu fólki, sem fátækt er, um jardarpart til ad yrkja, eda ødruvísi styrkja þad til ad bjargast. Tilskiv. þann 20ta Aug. 1778, býdur í §. 41, ad sá Prestur í Finnmørk sektist 10 rdlm., sem géfur í hjónaband nockurn ýngismann, nema hann sýni bréf, sem hann réttilega egi uppá útskipta jørdu, eda bólfestu sedil frá Amtmanni, á jardarparti med brúkanlegu engi eda rudníngi, hvar þvílíkur nýgiptur megi fastann bústad hafa og jardyrkju til styrks vid fiskifaung. Þessi ástæda stadfestist og ølla fremur med Kóngsbodi þann 21ta Júlii 1808, ad hér hjá oss megi engum framar tómthús byggja, nema grasnyt fyrir 1 málnytu kúgyldi og kálgardsstædi medfylgi, án hvørs heimili hvørju, jafnvel vid sjó, þykir ecki lífvænlegt, ef misfellur.

Ecki er mér ókunnug ályktan Geheime-ráds Totts, þann 18da, og jafnvel auglýsíng Stiptamtmanns, þann 25ta Júnii 1768, ad gipting meinist ecki ødrum eñ þeim, er hefdu

nama

næma sjúkdóma, fyrir ofkomendur, líka, ad nockrir hafi rángfærda viljad úrskurd Kóngs, þann 2da Apr. 1760, ad skattar í 3 ár mættu þá ertiregast sátæku, enn dugleqn bænda og vinnu fólki, sem gipzt, en sjálf ordaultæki úrskurdarins, ad þeir skyldu fríast vid skatta og tinndir, sýna, ad þeim þá og var ætladur búskapur og jardnædi, þó menn ecki vildu nú unna lengur til úrskurdarins sanna tilgángs, þá ad koma hastarlega bygglngu aptur á þær mörgu jardir, sem vid mikiu hardindin 1752—59, og 9 744 manna fækkun í þeim, lögdust í eydi. (samanb. Tilsk. 19da Febr. 1783, §. 2 og 5.)

Loksins gét eg hér þess, ad af Sjúkdómum eru fleiri enn Spitelska, sem eptir nýrri lagaskipunum banna ættu giptingar fólks, medan ecki læknast, og þad af sömu ástædum, nefnilega: ad ecki sýki þeir fleiri, eda útdreifist fótt í bygdum og bæum. N. L. 3—18—14, No. 7, telja þar til, auk Spitelsku, Níðurfallssótt, og sérhvern næmann eda andstyggilegann sjúkdóm, og allteins álítur Tilskip. þann 5ta Sept. 1794, í § 4 fransóskynjada, skyrbjúgs og adra hætta og næma sjúkdóma, sem háskalega. Tilskip. af 17da Apr. 1782 § 1, og 27da Maji 1808, §. 4, bólu, flekkusótt, blódsótt og adrar hættulegar sóttir þannian, ad Yfirvöldum er strengilega fyrirlagt, ad hindra þeirra útdreifingu, því er enginn vafi á því, ad sá ætti af þeßháttar sóttum fullælnadur og alheill ad vera ordinn, sem gékast má í hjónaband. Enn framar hefir

kon=

konúnglegur Urskurdur, þann 29da Sept. 1808, híngad á land sendur med Cancelliebr. af 1ta Nov. s. á., bannad ad sleppa sakamönnunum úr straffhúsum, þó streffunartími þeirra sé hjálid-inn, fyrr enn Læknirinn skodar, finnur og vitnar, ad þeir hvørki hafi kláda útslátt, sem er mjøg svo skjæd veiki og andstyggileg, eda nockrun annann næmann sjúkdóm, en skipad annars ad koma þeim nidur á afvikinn stad til lækninga, undir Yfirvaldanna tilsjón. Hvad Konúngur hér hefir bodid um kládsellda og heilsuveika sakamenn, verdur audsjáanlega af sømu røksemdum ad gylda um sérhvørn med slænnum kláda útbrotum og ødrum næmum veikindum, sem giptast vill, þvi framar, sem útdreifing þeirrar veikju og kláda med hjónabandinu teist víss, en þeßháttar lángvinn útbrot á stundum eru afleiding eda undanfari skyrbjúgs eda holtsveikju. Af sømu røkum eru þeir, sem enn bera Geitur ólæknadar í høfdi, ecki í hjónaband gefandi, fyrr enn fullæknast, bædi af þvi, ad Læknar tjá Geitur ad vera mjeg svo þrálátann og únglíngum einkum skjæd-ann sjúkdóm, líka hinu, ad hann einúngis er samferda miklum óþrifnadi sóda, sem ecki kunna á medan ad álltaft géta heilnæmt og gott uppeldi børnum, eda þeim og hjúum for-stødu veitt ad Løgum.

Fulla lagarøksemd til þess, ad hjónaband ecki framfari, medan næmir sjúkdómar eru ólæknadir á þeim, er giptast vilja, gefur NL.

3—18—14, No. 7, og 16, No. 3 og 4, sem kallar þad ókristilegt, ad hjón, þegar annad-hvort fær Likþrá, Nidurfallssótt, eda nockurn næmann og andstyggilegann sjúkdóm, girnist (med samfængnu) ad sýkja hvort annad, hvers vegna þá er sjálfsagt, ad þeim á medan ber rúmid ad skilja, og No. 4 giörir þad ad skilnadarsök, hafi annadhvort ádur leynt á sér spitelsku (eda annari skjædri og littlæknandi veikjn) ádur enn þau giptast, sem hitt kynni veikjast af.

I öllum framantöldum tilfellum ber Hreppstjóra þvi ad fyrirbyggja Sveitar-vandrædi med mótmælum giptínga þesshattar fólks, samnleidis bjána og hálfvita, eptir NL. 3—18—5, og þad skiflega í tima, fyrir hlutadeganda Presti, en vilji hann og vidkomendur ecki þará fallast, senda Sýslumanni þarum ávisun, sem án dvalar leggja ætti réttar ályktun þará, þvi honum einum ber úr þeim málum ad skéra, svosem ad öllu leiti vidkomandi verdslegra Pólitistjórn, fyrirbygg'ngu sjúkdóma útbreidslu og vandræda í hreppum, eins og hjónabanda mál, eptir Tilskip, þann 1ta Dec. 1797, þeirra ásleidíng og lögleg hindran, er ad öllu leiti verdslegra embættum vidkomandi, en Presta einúngis ad handleggja med hjónum, þá lögleg hindran ecki mætir. Þetta vottar berlega NL. 2—8—1, og Kristjáns IV. Kirkju ordinantia, hér lögleidd, þann 29da Nov. 1622, í 2. P. VIII. Kap., hvar svo segir: med ektaper-

persónur hafa Gudsords þénarar eckert ad gjøra, hjúskaparins vegna, utan ad gefa þau saman, og ad undirvísa þeim og hugga þeirra hrelldar og sturladar samvitskur, allt annad heyrir veraldlegu valdi til. Ad sønnu er hlutadegendum heimilt ad stefna þeim dómi til Landsyfirréttar, því med dómi, en ecki Yfirvalda úrskurdum, ega þeßháttar, sem sunnur prívat mál ad afgjørast, eptir Tilskip. frá 11ta Júlii 1800, §. 10, NB. 2—8—3, og 3—18—13, sem bannar Prestum hjónavígslur ad gjøra, þá løglegt forbod skédur, fyrrenn Dómur áfellur. Sama fyriskipar og Kirkju-Ritúalid, þann 25ta Júlii 1685, í 8da Kap., og Synodal-réttar áminning til Presta þegar árid 1635; sunnur ályktan nordanlands 1751, um sama, bannadi þeim ad gefa hér ørçiga í hjónaband án Hreppstjóra sampyckis, hvad þó alls eugum er løg. t) En — eptir NB. 3 — 18 —



t) Eintóm fátækt vyrdist ecki hamlad geta hjónabandi, því Jónsb. Ffb. II Kap. gjørir ród fyrir, ad hjón giptist, sem bædi til samans egi ecki til 3gja hundr., líka kann manni eda konu serleg forþenusta til uppeldis af handverki eda ødru, einkum vid kaupstadi, eda serlega þjónustu ad veitast, en hjer ætti hellst ad vera umtalid um fátækt vinnu- og bænda-fólk, sem einúngis vid bóndavinnu hyggst ad bjargast, og þá vyrdist bod Póliti-skipunar útkastsins, er Landkommissiónin 1770 gjørdi, í þess VIII. Kap. §. 1.

18—10 og 13, í sambúrdi vid 1—19—20 og 22, verdur Hreppstjóri þá og strax ad beidast þíngadags, og stefna þeim er giptast vilja, fyrir Sýslumanns Rétt, til ad heyra sitt forbod þar med dómi stadfest, og sídan á þínginu framfæra sínar máls-ástædur mót giptíngunni. Henda kann þad nú, ad hlutadegendur fái konúnglegt leyfi

ennþótt óløgtekid, ecki ósanngjarnt, ad Prestar sæti bótum til fátækra Prestacckna, gefi þeir þvílíka í hjónaband, seu þeir ecki rádvandir og læsir, og hafi þar um, og ad þeir seu líklegir til bjargræðis, sanna vitnisburdi, og þarhjá jardarpart eda eydikot tekid til ábýlis og framfæris ser og hyski sínu, og þanninn ecki ósamqvæmt Tilskip. af 3ja Júnii 1746, §. 2.; en þó býlid se ecki stórt, eda málnytan mikil, en ómegd nockur fyrir ad hafa, eda brádlega í vændum, má þad eitt aldrei hjónabandi hnecka. Þó Kirkju-Ritúalid af 1685, bls. 310, banni Prestum ad meina løglegs hjónabands ødrum enn þeim, sem þecktir eru þartil ónýtir, svosem Gjeldíngum, eru nefndar Tilskipanir og siálf Norsku Løg þarámót yngri, og ecki hygg eg hjónabandid se ad álíta løglegt, nema þad se þeim og framantøldum ástædum samqvæmt. Einúngis gjet eg þess hjer, Hreppstjórum til varúdar, ad brestur einstaks skilníngarvits, svosem sjónar eda heyrnar, og sama er um málleysi ad segja, ecki bægir frá hjónabandi, eptir Ritúalsins VIII. kap., gjeti þeir skilmerkilega óskad þess, og hafi ad ødru leiti nockra bjargrædis ástædu, sem adrir.

leyfi ad vígjast, án lýsínga, í heimahúsum, og Hreppstjórinn þess vegna ecki í tíma vitneskju um hjónabandid, til þess ad gjöra løglegt forbod ádur, hvar laga-rekfemdir þó eru til, en ecki ætti þad umtalslaust ad henda, bædi af því, ad Prestsins skylda er jøfn vid Hreppstjórans, ad afvenda súkdómi og sveitar-þýngslum, hvar óttast eru, og ætti hann því ádur ad tilkynna Hreppstjóranum þetta giptínga leyfi, ef þeßi hafa kynni nockud løgmætt þarámóti, líka af því, ad þau giptínga leyfi ætlð setja þann skilmála: "ad "eckert løglegt sé hjónabandinu til hindrunar," svo sømu mótmæli er í þessu tilfelli alltei s leyfilegt mót giptíngunni ad frambera, sé hún ecki ótilhlýdilega dulin, sem þá sýnist ad verda Prestsins ábyrgd.

## §. 15. Bls. 12.

Tilskipan hérnefnd, frá 28da Febr. 1758, um Fiskiabla, er ein af þeim, sem Hreppstjórar, einkum í fiskiverum, þyrftu ad fá, svo ad hún fylgt gæti embætti þeirra; í bráð set eg hér samt nedanundir, þeim og almenníngi til leidarvísirs, ágrip af hennar merkilegasta innihaldi, og af því, þann 18da Sept. 1809, um Ædarfugls dráp á prenti kunngjørda, sem ádur er þeim likleg allstadar sendt frá Yfirvøldum. u)



u) Tilskipan af 28da Febr. 1758. 1.) Rádnir Formenn og hásetar sen komnir til skips í ágvedinn tíma,

§. 16. Blſ. 12—13.

Venjulegt hefir hingad til verid, og ſamqvæmt Jónsb. Fſb. X. og XII. Kap., ad Hreppſtjórar ſkéri

tíma, bæti formadur ella 2 mki. fyrir 8ta daga, 4 mki. fyrir 14, og 1 rdl. fyrir 3 vikur, ſem þad dregſt, en hvørr háſeti hálfu minna. 2.) Enginn háſeti má hindra ródur Formannsins, heldur fara til ſkips þá kalladur verdur, bæti ella 5 fiſkum, hvørt ſinn hann kalladur lætur ſig vanta, og fleiri enn ½ af fiſkiſkipum rær. 3.) Drolli hann 1 klukkuſtund kalladur, þegar adrir eru komnir til ſkips, án løglegra forfalla, bæti hann 3 fiſkum. 4.) Knurri nockurr yfir launqum fiſkiſetum Formanns og vti honum til lands fyrri enn honum ſjálfum líſt, bæti hvørt ſinn 2 fiſkum. 5.) Háſeti hvørr, ſem vid fiſkiabla reyniſt latur, og Formannsins fyrirſøgn óhlýdinn, bæti í hvørt ſinn 2 fiſkum. 6.) ; 7.) Formadur hafi tillit med, ad háſetar verki hlut, þorſkhøfud og hrogn og ſkinnklædi þeirra, ſem beſt, og haldi þeim til ad hlada ſer fiſkigarda í landlegum, hvar þeim er tilviſad. Hvørr þad forſómar, og verkar því ødrum verr fiſk ſinn, bæti í lokin 2 mki. 8.) Enginn háſeti má yfirgefa ſkiprúm ſitt, fyrrenn Formadurinn ſegir upp Vertídinni, nema ſtór naudſyn leyfi. Hvørr ødruvíſi breytir, høndliſt og dæmiſt af Sýſlumanni til fjárbóta eda líkhams hegningar (nú Hýdingar, eptir Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808) eptir málavøxtum. 9.) Formadur hvørr ſæki ſjó med fylgi,

skéri upp Þingboð (í skeldsaxar formi með hvöss-um hornum) og með umvöfðum sedli, í hvörn

D 3

sam-

ad færu vedri og sjó, og má enginn, án gyldra orsaka í landi sitja, þegar $\frac{1}{4}$ fiskiskipa rær úr sömu veidistödu. 10.) Formadur haldi skipi sínu og veidarfærum jafnan í gódu standi, setji vel undan sjó og skordi, svo óhætt se fyrir sjó og ofvidri, og haldi hásetum til ad halda skipinu hreinn. 11.) Hann sjái vandlega til, ad hvörr einn fari gætilega med árar, skipa áhöld og veidarfæri. Brjóti há-seti af gáleysi eda viljandi ár, eda skemmi annad, sem skipinu fylgir, haldi Formadurinn þeim seka til strax ad bæta skadann, og gjalda þockabót ad auki. 12.) Þegar fiskast tekur, skulu Formenn og hásetar, med fylgi, sjó sækja, og má hvörr brúka þau veidarfæri, sem hann finnur best, sem enginn má med ásettu rádi skemma, und-ir ofríkis sektir, eptir Íslands lögum. 13.) Bændur skulu útvega ser folauct, þar sem hann fæst í fjordum, og strax leggja þad af honum, sem ósredid er, í salltlög, og sem þeir ecki samdægris borda, en þurka sídan. 14.) Sýslumadur láti Hreppstjóra úttaka allar fyrrtaldar bætur, sem ecki gódmótlega gjaldast, fær sá er ákjærir $\frac{1}{4}$, Sýslu-madur $\frac{1}{4}$, en fylgnir fátækir fiskimenn, sem missa skip sín, og þurfandi eckjur og börn, þeirra sem druckna vid fiskiródra, hálfpartinn.

Tilskip. þann 13da Júnii 1787, Kap. III. §. 7, og Kóngsbod, þann 21ta Júlii 1808, bjóda:

ad

samkomudagur, stadur og hennar tilefni sé ritad, bedi hreppsbúa alla til Hreppstjórnar þíngs. Verist þad Bod ecki reglulega og leglega fljótt um hreppinn, leggur sá fyrrnefndi X. Kap. 2 aura eda 54 ß. sekt til Konúngs vid Bodfalli, og Rétt-arb. Eiríks K. 1 eyris sekt fyrir bónda hvorn, sem þíngbodid kom ecki til á rettri bodleid, og þvi ecki kom til þíngs, forfallalaust, en eptir XII. Kap. er þíngvíti til Konúngs, fyrir þá er ecki koma, hálfu minna. Um leid eg tengi hérvid ágripi af þeirri nú gyldandi Tíundar Reglugjørd frá 17da Júlii 1782, ad þvi leiti Hreppstjór-um eginlega vidkémur, læt eg hér nóg ad bæta þar vid fylgjandi fáeinum athugasemdum: x)

1.) Inn-

---

ad hvørr sem viljandi drepur Ædarfugl nock-urstadar, bæti 3 marks sekt fyrir serhvørn fugl, en þeir, sem med vórn, og sogdu ecki til, hálfu minna. Hvørr, sem af illvilja skjemmir eda eydir varpplátsa tilbúníngi, sektast ofrík-is bótum ( þad er þrennum 40 lódum sylfurs.)

x) Tíundar Reglugjørd, þann 17da Júlii 1782: §. 1. Bóndi hvørr komi árlega á Hreppstjórnar þíng, og framtelji rettilega fyrir Hreppstjórnar-retti allt sitt fie, sem Hreppstjóri á þínginu vyrdi svo, ad 4 rdla vyrdi hvørt, sem svo gengur í kaup-um og sølum, af qvikfjenadi, fiskiskipum, etc. skal metast á 1 Hundrad til tíundar, svo sem:

2 hestar

1.) Innstædu kúgyldi jarda, sem samsjóda þeirra innstædu peníngi (Besætning) í Danmørk
D 4 . og

2 Hestar eda 3 hryssur 4ra vetra . 1 Hundr.
Allar kýr, sem full leiga geldst af, hvør í 1 Hundr.
en 7da hvør fellur úr í tíundareikníngum.
Øll naut og gjeldar qvígur af 3gja hundrada vyrdi, (eptir Jónsb. Kaupab. VI. Kap.) . . 1 Hundr.
6 mylkar ær . . . 1 Hundr.
8 saudir 3gja eda 4ra vetra . 1 Hundr.
10 saudir 2 vetrir . . 1 Hundr.
18 saudir veturgamlir . 1 Hundr.
Hvørr bátur stór eda smár, er gengur til fiski . . 1 Hundr.
Lódir og fiskinet, sem brúkast, tíundist; en øll, sem hvørjum báti eda skipi fylgja til samans fyrir . ½ Hundr.
Peníngar, sem ávaxtarlausir standa, hvørjir 40 rdlr. specie á . 1 Hundr.
20 rdlr. specie . . ½ Hundr.
en minna í peníngum tíundast ecki.

Merk: Jónsbókar Kaupabálks VI. Kap. leggur
3 naut veturgømul vid kú.
2 naut 2 vetur vid kú.
Geldmjólka kú, eda qvígu ad 1ta kálfi, 2ur aurum verri enn kú.
Uxa 4ra vetra, geldtann eda ógeldtann, vid kú.
Uxa 3vetrann og gelda kú, hvørt á 80 álnir.
Uxa

og Nórvegi, hafa verid alltcins hér áliti, sem jørdunni sjálfri tilheyrandi, likt og hús eda

Uxa 5vetra . 1 hundr. 40 álnir.
— 6vetra . 1 hundr. 80 álnir.
— 7vetra og eldri 2 hundr.
Alinn eda ardur uxi er eptir samkomulagi.

§. 2. Hreppstjórar mega ecki láta sér lynda framsøgn tíundarhædar yfir hofud, heldur láti hvad eitt framtelja, og leggi sídan sjálfir í tíund. §. 3. Komi einhvorr ecki á þíngid, sem koma á, skapi Hreppstjórar honum tíund, hvorja hann skal skyldugur ad borga. Tortryggist einhvors framtala, skal byrda sie hans, og hann skyldast til med eidi fyrir Sýslumanni ad sanna, ad eckert se med ásettu rádi undandregid eda úrfellt. Skulu Sýslumenn og Hreppstjórar hafa þar um nákvæma tilsjón, bæti annars skadann, sem af forsómun þeirra rís. §. 4. Prestar, Kirkjur, Skólar og Hospitol eru fritekin frá ad tiunda þeirra kúgyldi og Inventarium. §. 5. Sømuleidis Stiptamtmadur, Amtmenn og Biskup frá ad segja til tíundar, eda gjalda hana af fje sínu til sveitar eda annara, en gefi fríviljuglega til þeirra og fátækra, eptir venju. Þó nær þetta leyfi ad eins til heimila þeirra. §. 6. Geistlegir framtelji, sem adrir, fje sitt til tíundar, og gjaldi hana í tíma, en einúngis til fátækra; haldi og nidursetur, helst sáfród

børn,

eda partur af henni, og þeirra tíund þess-
vegna vídast hvar þókt innifalin í jardaña
tíund, því framar, sem margir vitrir
menn uppástanda, ad þau séu, bædi vegna
naudsynja ábúenda, hvörra skipti hér gjör-
D 5 ast

børn, er kennslu vidþurfa. §. 7. Sjóarbóndi
betali Presti og Kirkju tíund hálfa med peníngum,
1 vætt á 90 ß., en hinn helfíng med besta hordnum
fiski, eda þegar hann skortir, med peníngum, vætt-
ina á 1 rdl. 76½ ß.: en til sveita gjaldisti tíund
med 4½ ß. fyrir hvörja alin, eda í gódum og út-
gengilegum vørum, sem Prestur vill medtaka.

Merk: Kristinnrettur Arna Biskups segir í XV.
Kap., um útsvar fátækra tíundar: þad sje,
er þurfamenn skulu hafa, skal greida í
vadmálum eda vararfeldum, í ullu eda
gjærum, í mat eda qvikfje, nema hrofs
skal ecki greida, ecki skal seinna goldid eñ
á Marteins messu (ɔ: 11ta Novembr.)

§. 17. Tíundir og allar kirkju og Prests skyldur,
mega úttakast hjá skuldaþrjótum, ad bodi Syslu-
manns, án dóms.

Ad fátækum einum beri tíund óskipt af minna
enn 5 hundr., er Hreppstjórum kunnugt, en úr því
ber þeim ad eins ¼ hennar, eda skipti-tíund. Af
þeirri venjulegu Tíunda Tøblu, læt eg samt Ut-
drag fylgja, allt til 20 hundr., úngum Hreppstjór-
um til minnis.

Tíunda

aft opt, en margir þeirra fátækir adkoma, og til upprèttingar jardagótsins, frá forn- gyld:

## Tíunda Tabla.

| Tíundar-fje | | Tíund. | | Skiptitíund. | |
|---|---|---|---|---|---|
| hundr | aur. | áln. | fisk. | áln. | fisk. |
| : | 10 | 1 | : | : | $\frac{3}{10}$ |
| 1 | : | 2 | : | : | $\frac{3}{5}$ |
| 1 | 10 | 2 | 1 | : | $\frac{9}{10}$ |
| 2 | : | 3 | : | : | $1\frac{1}{5}$ |
| 2 | 10 | 3 | 1 | : | $1\frac{1}{2}$ |
| 3 | : | 4 | : | : | $1\frac{4}{5}$ |
| 3 | 10 | 4 | 1 | 1 | $\frac{1}{10}$ |
| 4 | : | 5 | : | 1 | $\frac{2}{5}$ |
| 4 | 10 | 5 | 1 | 1 | $\frac{7}{10}$ |
| 5 | : | 6 | : | 1 | 1 |
| 5 | 10 | 6 | $1\frac{1}{5}$ | 1 | $1\frac{3}{10}$ |
| 6 | : | 7 | $\frac{2}{5}$ | 1 | $1\frac{3}{5}$ |
| 6 | 10 | 7 | $1\frac{3}{5}$ | 1 | $1\frac{9}{10}$ |
| 7 | : | 8 | $\frac{4}{5}$ | 2 | $\frac{1}{5}$ |
| 7 | 10 | 9 | : | 2 | $\frac{1}{2}$ |
| 8 | : | 9 | $1\frac{1}{5}$ | 2 | $\frac{4}{5}$ |
| 8 | 10 | 10 | $\frac{2}{5}$ | 2 | $1\frac{1}{10}$ |
| 9 | : | 10 | $1\frac{3}{5}$ | 2 | $1\frac{2}{5}$ |
| 9 | 10 | 11 | $\frac{4}{5}$ | 2 | $1\frac{7}{10}$ |
| 10 | : | 12 | : | 3 | : |
| 10 | 10 | 12 | $1\frac{1}{5}$ | 3 | $\frac{3}{10}$ |
| 11 | : | 13 | $\frac{2}{5}$ | 3 | $\frac{3}{5}$ |
| 11 | 10 | 13 | $1\frac{3}{5}$ | 3 | $\frac{9}{10}$ |

gyldunni, svo stórum ríkuudu afgjøldum, vid jardirnar fest, þeßvegna leigurnar eins vel ad reikna sem ígyldis vidbot jardanna, eins og þessara bjargargripa sjálfra eptirgjalds. Frá búfé ábúenda og tíund reiknast því jardar innstædu kúgyldi vid tíundargjørdir, en øll ønnur laus leigukúgyldi og ávaxtargripir, sem nefnd Tíunda reglugjørd nefn-

## Tíunda Tabla.

| Tíundarfje. | | Tíund. | | Skiptitíund. | |
|---|---|---|---|---|---|
| hundr. | aurar. | álnir. | fiskar. | álnir. | fiskar. |
| 12 | : | 14 | $\frac{4}{5}$ | 3 | $1\frac{1}{5}$ |
| 12 | 10 | 15 | : | 3 | $1\frac{1}{2}$ |
| 13 | : | 15 | $1\frac{1}{2}$ | 3 | $1\frac{4}{5}$ |
| 13 | 10 | 16 | $\frac{2}{5}$ | 4 | $\frac{1}{10}$ |
| 14 | : | 16 | $1\frac{3}{5}$ | 4 | $\frac{1}{5}$ |
| 14 | 10 | 17 | $\frac{4}{5}$ | 4 | $\frac{7}{10}$ |
| 15 | : | 18 | : | 4 | 1 |
| 15 | 10 | 18 | $1\frac{1}{5}$ | 4 | $1\frac{3}{10}$ |
| 16 | : | 19 | $\frac{2}{5}$ | 4 | $1\frac{3}{5}$ |
| 16 | 10 | 19 | $1\frac{3}{5}$ | 4 | $1\frac{9}{10}$ |
| 17 | : | 20 | $\frac{4}{5}$ | 5 | $\frac{1}{5}$ |
| 17 | 10 | 21 | : | 5 | $\frac{1}{2}$ |
| 18 | : | 21 | $1\frac{1}{5}$ | 5 | $\frac{4}{5}$ |
| 18 | 10 | 22 | $1\frac{2}{5}$ | 5 | $1\frac{1}{10}$ |
| 19 | : | 22 | $1\frac{3}{5}$ | 5 | $1\frac{2}{5}$ |
| 19 | 10 | 23 | $\frac{4}{5}$ | 5 | $1\frac{7}{10}$ |
| 20 | : | 24 | : | 6 | : |

nefnir, ega vafalaust ad tíundast, hvert hellst sem á, og sá er þá í hefd eda umsjón hefir í þeirra tíundar fyrirsvari ad standa, og færa eiganda síðan til reikníngs, en eptir Tíundar Statútu Gissurs Biskups, frá 1096, og Arna Biskups Kristinn-rétti, XIV. og XV. Kap., sem hér eru enn gyldandi lög (eptir Réttarbót Magnúsar Konúngs Smecks, frá 1356, og Fridriks II. Stóradóms staðfestíngu, 1565), en sem bjóda ad tíunda einúngis skuldlaust fé, er hvert á ad fardögum, og þar sem menn eiga leghéimili ad Marteins messu, eda þan mißiri, þegar skipt er tíundinni á hausti, kann til hans egin tíundar ecki ad reiknast hvad hann ecki sjálfur á, t. d.: lausa-kúgildi eda gripir, sem adrir eda hjá hans eign, ecki heldur hagagaungu peníngur, sem af ödrum er um tíma tekinn, heldur á heßi allur ad framteljast þar, hvar eigandi á legheimili á haustum, og í þeirri sveit eins af honum eda umbodsmanni ad tilsegiast á Hreppstjórnar þínginu, eins og þetta var í eign hans í nærstu fardögum ádur, og allteins og þad heima væri, undir lagasektir.

2) Bædi náttúrleg sannsýni, ad höfudstóll ecki rírast egi, né menn ad ótarmast vid tíundir, og þau ordatiltæki í nefnds Kristinnréttar XV. Kap.: ad tíunda skuli ómagafé, er menn ecki vöxtu af, og Tí-

unda reglugjørdin, þann 17da Júlii 1782, rædur ad krefja ecki tíund af ávaxtarlausum aurum, og varla, þó í þessari Reglugjørd tiltekid sé, af peníngum, sem ávoxtarlausir standa, heldur þeim, er rei tu gėfa, og þá $\frac{1}{10}$ rentunnar, eins og $\frac{1}{10}$ landskuldar, hvar jarda dýrleiki er óviss. Ad af aidlausum peníngum sé hardt eda ónáttúrlegt hér ad gjalda tíund, hvar sídur enn vídast annarstadar er audid ad gjøra þá óhult ávaxtarsama, og fá medøl þartil, en í ødrum løndum nóg, sjest bædi þaraf, og af grundvallar reglunni, ad tíund ecki ætti ad gjøra nockurn fátækari, eda skérda hans eigna høfudstól, heldur vera saungjarnt útsvar $\frac{1}{10}$ þessa ávaxtar, til opinberra þarfa.

3.) Þegar Tíundareglan 1782 í §. 1. baud: ad 4 rdla virdi hvert, sem svo gengur í kaupum og sølum manna á milli, reiknist fyrir 1 hundrad, verdur þad ad skiljast eptir þá gengu gømlu verdlagi fyrir mikla fellirinn, undir taxtabundinni kauphøndlun, og er því réttast fyrir Hreppstjóra, ecki nú ad reikna tíund manna, eptir núverandi margfeldu verdlagi gripa, skipa, neta, veidarfæra, hværra haldinn ardur eptir óstødugu verdlagi, og margføldum vidurhalds kostnadi, er svo stopull, misjafn, og opt enginn, heldur beint ad fylgja því reiknings formi til útundar alls þessa, sem Reglugjørdin fyrileggur, án vyrdíngar eptir núverandi kaupverdi,

uns nÿ og greinilegri fyriſkipan um Tiund-argjørdir og Tekjur, útkémur.

4.) Af Reglugjørdarinnar frá 1782, §. 2 og 3, og Tilſkip. þann 1ta Sept. 1786 — ſem finnſt í Landsyfirrettar Auglÿsinganna No. 5, blſ. 41—43, hvørjar fylgja ega Hreppſtjórnar Embættisins ſkjelum — er ad ráda: ad Hreppſtjórum eginlega ſé ætlad ad ſækja mál um Tiundarſvik, ennþótt Kriſtinn-réttur Arna Biſkups, í XV. Kap., leggi ſókn um þau á vald ſérhvørs Tiundatakara, þó ber fyrſt ad leggja þau mál til Forlíkunar nefnda, og hvar ſá reglulegi Dómari er tiundanna Forpaktari áſamt, og egi þær honum líka ad greidaſt, þarf ſetts Dómara um þeſſar tekjur vid Amtid ad beidaſt. Sekt fyrir Tíundar-ſvik er: ad gjalda prefalda Tiund af því ſem undandregid er, ſem fátækir einir eignaſt, egi tiundin ecki ad gjaldaſt fleirum, annars fá Hreppſtjórar, þegar þeir ákjæra þetta til Dóms, $\frac{1}{10}$, en fátækir hitt, eptir ſeinaſt nefndri Tilſkip. frá 1786.

Tíund er eitthvørt þad ellſta, ſanngjarnaſta og almennaſta gjald til Launa Yfirvalda, Frædara, Kirkna vidurhalds og fátækra framfæris, þeß vegna mjøg ſvívyrdilegt, ad ſvíkja ſkyldu ſína vid allt þetta, en þarhjá ofurbágt, ad hlutadegendur þurfi bædi ad lÿſa á þingum ómannlegheitum fólks í þeſſu efni, og leg-

deila

deila um þvílíkar skyldur, og þartil neydast til óvildarsamlega ad hnýsast eptir annara eignum, hvad frjálsum og rádandi eignarmønnum kémur sárilla, og óskandi væri, ad sem skjaldnast og skémmst vidþyrfti. y)

Ad ødru leiti vísa eg, um tíund, enn framar, til Gamans og Alvøru 1ta Heftis, bls. 119—22.

## §. 17. Bls. 13—14.

Cancelliebr. þann 10da Maji 1788, um sakamanna flutning, stadfest med Kóngsbr., þ. 25ta Júlii 1808, §. 3, 5. býdur: ad jafna sakamála kostnad á Amtid, eptir hvørs bónda lausafjártíund, sem skal leggjast til grundvallar, þó eru þeir, sem ecki tíunda meira enn 1 hundr. fríteknir frá útsvari. Hvad hvørr bóndi á út ad svara,

y) Sjá má ljóslega af nýrri lagasetníngum, ad vor milda Ríkisstjórn sjálf ecki heldur ann eigna og hús-ransóknum hjá fólki; því Kóngs úrskurdur, þann 29da Sept. 1797, segir: „ad ransóknir „um peninga byrgdir kauphøndleuda, ef leyfdust, „mundu kúgunum valda og kløgunum, og skadleg„ri þvíngun." Og formáli Tilskip. þann 27da Dec. 1799, segir med berum ordum: „ad Kon„úngi seu húsransóknir ógedfelldar; hafi hann „því afmád þær lagaskipanir, hvørjum almúga „verdi ecki ødruvísi enn med þeim, haldid til ad „eptirlifa." Sjá útskíríngu yfir §. 18.

ra, innkrefur Sýslumadur á Manntalsþíngum, eptir Amtmanneins nidurjöfnun. Ad Embættismenn, og medal þeirra Hreppstjórar, sem í Instrúxins §. 55, eru fríteknir frá sakamála-kostnadi, hér undantakast, er bædi vegna allra bnógu launa, og fyrigreindrar fyrirskipunar, sem útþryckilega leggur Bændum einum ad standa þenna kostnad. Um leid minnist eg þeß hér, ad þó Tilskip. þ. 13da Jan. 1747, og 5ta Apr. 1793, einúngis ætli almúganum ad standa sakamála kostnad uppá öll þjófnadar-, ráns-, drápa- og mordbrennu-mál, en ecki önnur, býdur Cancelliebr. þann 10da Maji 1788. §. 3, og Kóngsbr. þ. 25ta Júlii 1808 í §. 3 og 5, ad kostnadur allra opinberra sakamála jafnist á Amtsins eda Landsins almúga, og ad þeßi einn umannist fángaflutníng.

## §. 18. Bls. 14.

Sóknarprestunum er, eptir Rentukammers br. þann 7da Aug. 1787 og Cancellie-skipun þann 25ta Nóv. 1797, af Biskupum uppálagt, ad vera Hreppstjórum hjálplegir med reglulega innfærslu þeß, sem fyrilagt er í landbúskapar (oeconómisku) töblurnar, en — án tillits til tíundaútreiknings, ber Hreppstjóra ad krefja til þeirra framtalid allt hvad til stodugrar veru á býlí hverju finnst, af fólki, lifandi peníngi og skipum, etc., hverra eign sem þad er. Sektin, sem vidliggur rángri fráskýrslu, fastsetur Kóngsbod

þann

þann 19da Júníi 1793, 1 rdl. í mesta lagi, og síðan tvefaldt, til sveitar fátækra, eptir Amtmanns ályktun, þó skulu listar yfir þeßháttar bætur sendast Rentukammerinu til stadfestíngar, ádur enn þær mega úttakast. Nú þeßi lagasekt og mikla varúd ecki ásamt stadfesta innihald þess, er nóta vid lok útskírsngarinnar yfir Instrúxins §. 16, bls. 63, bendir til?

## §. 19. Bls. 14—15.

Þeßi Stiptamtsins fyriskipun, frá 26ta Dec. 1785, eins og hún í áminnsta Løgþíngis-bók 1786 er innfærd, býdur: "ad Hreppsbókin be"talist af sveitar-kassanum, og bladsídur hennar tølusetjist, en hún gégnumdragist, innsigl"ist og gyldist af Sýslumanni; í hana innfær"ist allra sveitar þurfamanna nøfn, þeirra á"stand, og ad hve miklu leiti, hjá hvørjum og "hvørninn þeir forsorgist af hreppnum. Sømu"leidis innfærist í hana allar sveitar fátækra "tekjur og þeirra medferd, ásamt øllu, sem ad "ødru leiti vidkémur fátækra málefna stjórn í "hvørjum hreppi, hvørn reikníng Hreppstjór"ar ásamt Prestinum haldi og undirskrifi, "en Hreppsbókin vardveitist hjá Prestinum."

Þessa Stiptamtsins fyriskipun hefir hid konúnglega danska Cancellie, þann 11ta Júlii 1789, ordrétt stadfest.

§. 20. Blſ. 15—16.

Innihald Cancellie ſkipunar, þann 11ta Júli 1789, var hér nærſt fyrir framan byrt.

Það er af Jónsb. Fríb. IX. og XII. Kapitulum vafalauſt, að Hreppſtjóranum nú, eda hvar 2 eru í hrepp, þá þeim bádum ſaman, eginlega ber að ſkipta fátækra tillögum, og ráðſtafa ómögum til forſorgunar, en undir eins af Nl. 2—7—2, og einkum hér hjá oſs af Tilſkipan um húſsvitjanir, frá 27da Maji 1746, í §. 19, að Sóknarpreſtarnir þarhjá eru ſettir Hreppſtjórum til hefuds í því efni, þar þeim í þeſſari grein er á hendur falin nákvæm tilſjón um tillaga ſkiptin medal ſveitarinnar fátækra; ſjálfir ſkyldaſt þeir þar, til að gánga á undan ødrum med góðfúſa hjálp og aðſtoð fátækum til handa, og til hennar, og láns eda ølmuſu fyrir fátæka þurfamenn, ydduglega að áminna og upphvetja velmegandi fólk. Þeſſa tilſjón, áminníngu, eptirdæmi og ydduglegu aðgætſlu, að fátækir njóti þeſs, ſem þeim tillagt er, felur þeim Nl 2—7—2 einkum á hendur, því ber Hreppſtjórum med þetta ſameginlega embættisverk undqvæmlega að rádgaſt hvørjum vid ſinn Sóknarpreſt, og eptir beſtu ſamvitſku rada øllu ſem beſt nidur.

Það er að ſønnu engum, ecki þeim hreinſkilnaſta daudlegum unnt, að gjøra ſvo réttvíſ ann tillaga jøfnud hreppsbúa á milli med nidurſetur og aukatilløg, að engin þeſſara verdi

fyrir

fyrir nockrum halla þar vid, því bædi er svo misjafnt ástand manna, sem þó máské gjøri jafna tíund, og á einu og sama ári breytilegt, eptir høppum eda óhøppum, jardargædum, heilsufari, fólks og fjølskyldu ástandi, já, opt óframtøldum og ókunnum eignum, og ósamanreiknudum skulda tilkøllum, ad hinn fullkomnasti jøfnudur, ecki nema eptir leglega eida og lángsøm þíng, sem ófært er um hvørs eins útsvar ad forma, er møgulegur, þessvegna verda Prestar og Hreppstjórar, eptir bestu þeckíngu, yfirvegun, eidi og samvitsku ad gjøra þenna jøfnud, þegar þeir fyrst hafa samanreiknad allt, sem þeir vita nockra von til, ad þad ár vidþurfi í hreppnum, og eptir Instrúxins 20 § lagt þar framyfir tøluverdt í sæmilegum eda betri árum til Neydarforda z). Þegar sá Artikuli bannar ad krefja, sem vißt skyldu útsvar til fátækra, annad enn aukatillagid í vidbót vid tíundirnar, er audvitad, ad hvørki Dþrotoll,

E 2 Mat=

z) Svo kunna tveir búendur vid sjó ad tíunda jafnmikid í lausafje, annar þar í mørg skip, sem í gódum fiskiárum gefa honum ard vid mørg kúgyldi fleiri, en í bágum olla honum útørmun; hins ástand kann ad vera þessa gagnstædt í mørgu. Tveir adrir ad gjøra somu tíund til sveita, en annar ega, auk bús síns, mikla inntekt af fasteignum, leigukúgyldum og ødru, hinn enga, nema búsins, og væri þá ósanngjarnt ad gjøra bádum sama útsvar.

Matgjøf eda Manneldi framar, má handa þeim heimta, heldur einúngis Dýratoll þanninn og til þeß kostnadar eins, sem §. 33. fyrirsegir.

Bædi til ad votta Hreppsbúum hreinskilni sína í nidursetu- og aukatillags-skiptunum, líka og til ad fyribyggja þeirra ógrundada tortrygni um sannsýni þarvid, ætti Prestur og Hreppstjórar hvørrar sveitar árlega, eptir Októbers mánadar lok, ad láta um hreppinn gánga bæ frá bæ, útdrag af sveitarbókinni, haldandi hreppsins inn- og út-gjald, ómaga og hreppsþurfamanna tølu og ástand, veitta hjálp eda rádstøfun þessum, og sérhvers búanda útsvars nidurskipun. Þad er þeim, er þýngstir ber, til hughægdar og fródleiks um hvad honum, í samburdi vid adra, er ætlad, en Embættismønnum skyldt opinberlega ad kannast vid adgjørdir sínar. Þeßháttar auglýsíng árlegra nidurskipana, um ómagahald og útsvar hreppsbúa fyrir þessum, er auk þessa med konúnglegri Reglugjørd um fátækra sakir á landinu í allri Danmørku, af 5ta Júlii 1803, útþryckilega legtekin a). Vilji þá nockurr ákjæra jøfnudinn, ætti hann ad senda Presti og Hreppstjóra á-

stæd-

a) Tilskipan frá 5ta Júlii 1808 býdur í §. 18: ad jafnvel þann reikníng, sem Amtmadur sjálfur gjørir yfir bjarglaun á strøndudu skipi og gózi og þeirra skipti, skuli fyrir øllum skipverjum og bjargvættum upplesa.

stædur síuar og umqvørtun, med allri sídsemd ordadar, í bréfi til Sýslumanns, sem Sýslunnar Yfirvalds, og þeim Yfirstjórnara fátækra málefna innan hennar takmarka, — álíkt og Fógetar vilda á landinu í Norvegi — hvørjum Kóngs bréf af 11ta Apr. 1781, §. 6, hefir myndugleika veitt, án Appells úr þeim málum ad skéra, svo ad þeßi úrskurdur, ad heyrdum ástædum beggja parta, og med tilliti til þess, er Prestur og Hreppstjóri hvørr þarum framfæra, ad þeir hafi vid þessa nidurskipun fyrir augum haft, verdi løglega felldur, þessvegna ætti og samhljóda útdrag af Hreppsbókanna árlegu reikningum, í seinasta lagi vid hvør árslok, Sýslumanni ad sendast, af hvørjum eg auk þessa veit til og gétska á, ad Amtmenn, sem efstu Stjórnarar fátækra málefna í hvørju Amti, muni krefja þeßi skilríki til upplýsingar.

Sú spurning kann máské ecki óþørf ad vyrdast: géti Prestur og Hreppstjóri, hvar einúngis 1 er í hrepp, ecki komid sér saman um ómaga og aukatillaga nidurskipun, hvad er þá til ráda? Séu 2 Hreppstjórar í hrepp til ad gjøra þetta ásamt Prestinum, er sjálfsagt ad fylgja þeirri meiningu, sem 2 fallast á af þeim 3. Annars er jafn íßjárverdt ad láta Prestsins framar gylda enn Hreppstjórans, sem Hreppstjórans framar enn Prestsins, þar vansjed er hvørr í þeim efnum er kunnugri, forsjálli eda réttsýnari, fyrst bádir eru eidsvarnir, og þeßvegna réttast í þvílíkum tilfellum ad beidast Sýslu-

 manns

manns úrskurdar, ad framtöldum beggja ástæd-um (sjá skíríngargr. litr. a) bls. 1.)

Medal margra vandræda vid Aukatillags-ins niðurskipun, tel eg þau, sem sérleg hallær-is, grip-fellirs, fiskileysis og mannskjæd ár skapa kunna einstökum sveitum, medan fleslar adrar í sama Amti kénna litid eda ecki á þvílíku. Nærmar sótttir og drucknun húßfedra gjöra á stundum grúa munadarleysíngja ad hreppavand-rædum, til hverra framfæris naudsynlegt auka-tillag verdur þeim sáu veikburda eptirstandandi óbærilegt. Hvert þetta þá skal af hendi leys-ast í aukatillags og niðurfetu nafni einu, eda, sem fyrri í aukatillags, nidurfetu, mati-eldis, matgjafar, og ofan í kaupid Dýratolls nafni, er allt hid sama. Af mørgum dæmum þaruppá læt eg hér nægja ad minnast eins, sem Legþíngisbókin 1679 í No XLII. gėfur: þá funduft í Høfdahverfi í Þíngeyar Sýslu 38 þýsingar løgbýli; 2 Bændur á þeim alls í skiptitlund, en hrepps-ómagar vóru 34, hvar vard nú framfæri þessara fengid í hreppnum? Í þeßháttar tilfellum er sérhvert Amt í ein-stakra sveita eda Sýslna sérlegu neydar vand-rædum ad álíta, eins og hver ein sveit er fyr-ir hennar fáein bjargþrota heimili, og sú hjálp, sem einstakar sveitir vidþurfa kynnu, ega eptir náttúru og borgaralegum løgum, ad jafnast á alls Amtsins betri búendur. Þessa reg'u finn eg jafnvel løgtekna fyrir bædi Danmerkur og Nor-

Norvegs Ríki b). Ekkert er heldur sanngjarn-ara, ekkert vissara medal undir vors ástands margbreyttu biltingum, sem gjøra mega fjar-læga adslod svo opt óvissa til ad afstýra fólks-fellir í sveitum og þeirra audn; ekkert sann-gjarnara, enn ad hvør ein þjód, og hvørt Amt í Landinu adstodi sína Sýslu, hvør Sýsla henn-ar sveitir, hvør sveit sína þurfamenn. Náttúrunnar raust gjørir oss kristinndómsins bod-ord, um fúsa hjálp vid naudstadda medbrædur, áheyrileg. Gódra nábúa dæmi, optlega vid sjálfa oss, og, eptir søgunnum, fornum og nýjum, vid eginn naudlídandi medborgara, þess gódgjarna danska og norska fólks, og þess mildu



b) Þanninn býdur Tilskipan frá 5ta Maji 1786, um fátækra málefni á landinu í Christianssands Stipti í Norvegi, í 3. Káp. §. 5. „Ef einstakar „Sveitir ekki megna sjálfar ad annast sína Þurfa-„menn, og viss naudsyn í serlegum tilfellum kref-„ur serlegrar hjálpar, verdur þessari ad jafna til „útsvars í peníngum á állt Amtid, medal saka-„mála kostnadar, en ad því leiti mognlegt er, ad-„gæta, ad sveitanna innvortis búsjóru serilagi „haldist vid."

Reglugjord um fátækra mál á landinu í Danmørku, frá 5ta Júlii 1803, býdur í §. 10: „Allt Amtid á og ad hjálpa sveit þeirri, sem vid „serlegar kríngumstædur, edur óhappa tilfelli, „verdur ófær um tíma til ad framfæra sína Þurfa-„menn."

Landsfeðra dæmi, telja oss ósæmd, eckert ad láta af hendi rakna vid eginn naudþreyngda Landa, og Landsbúa vora, ef gétum, þó utansveitar séu. Og sé nockurstadar samheldis og gódvildar þörf til fólks frelsis í uppáfallandi bágindum hér og hvar, er þad vist á því landi, hvar náttúran sendir oss svo opt óþýrt augakast í hardærum, einkum ef styrjöld ásamt bægir til lengdar bjargar og naudsynja adflutningum frá oss.

## §. 21. Bls. 16—17.

a.) Lögmálsins bodord um helgidaga veidar, sýnir skýríngargr. litr. e) bls. 7—8, en þar Tilskip, af 13da Okt. 1797, um neta-abla, einninn yfir allt Norvegs Ríki gyldandi, ecki nefnir neinn afdrátt af honum til fátækra, né heldur hefir hann þar eda hér híngad til af þeßháttar fiskibrögdum krafinn verid, og øllum almenníngi, um ótakmørkud tímabil, er leyfd netabrúkun um helgar, þá happavon er, var hér ecki heldur neitt fátækum tilskilid af helgidaga neta-abla.

b.) Med Plakati af 18da Aug. 1786, §. 23, hét Konúngur vor allramildilegast ad gefa Fátækum af sjódi sínum, fyrst um sinn, þá 287 rdli, sem ádur guldust þeim af Kauphøndluninni, og sýnir Løgþíngisbókin 1777 á bls. 40—41, hvørsu þeir til Sýsluana árlega skiptast. Peßir peníngar

ar borgast Sýslumanni hverjum árlega, en hann á aptur ad skipta þeim med sveitunum eptir þørfum; ætti nú Prestur hverr og Hreppstjóri, sem eptir 19. §. ega sveitarkassann sameginlega ad varðveita, fyrir þessa gjafa-venlnga framvegis ad qvittera.

c.) Til fríviljugra gjafa til fátækra, er Prestum, eins og fyrr segir bls. 66, med Tilsk. frá 27da Maji 1746, §. 19, skipad ydruglega ad uppørfa og áminna fólk, sømuleidis í NL. 2—7—2. Fjøldi Tilskipana fyrir bædi Rikin býdur þeim á Predikunarstólum vid mørg tækifæri, ad uppørfa fólk til mannkjærlegrar adstodar vid þurfamenn, eg nefni til 4, seint og snemma nú um lidinn aldar tíma, nefnil. Køngsbr. frá 3ja Sept. 1708, og 27da Apr. 1759, en einkum 2 Reglugjørdir um fátækra mál fyrir Danmørku, þann 5ta Júlii 1803, sem og eru sendar til Norvegs, til þess eptir þeim ad laga vidlíkar, þessu Ríki hentugar c). Fríviljugar gjafir til fá-



c) Þar segir í VIII. Kap. 42 og 46 §§.: „ad Prest„ar skuli uppørfa þeirra søfnudi til góðgjørda „vid naudstadda (sem þeir á Predikunarstólum „plaga serílagi ad gjøra, eptir predikun), einkum „á Nýársdag, þeim 3ur Stórhátídum, Bæna„døgum, Sunnudeginn eptir Allraheilagra„messu, og ætíd þá fólk er til altaris; sømuleidis „þegar

tækra, af háum og lágum, gèfa um bædi Ríkin, álitlega innteckt fátækum, þeim mun kjærkomnari, sem hún er fúslega af hendi l tin, opt af duldum mannvinum og ørlátlega, í stadinn fyrir þad harmabraud handa voludum, sem af mørgum óþocka, med illdeilum og eptirtølum annars er út naudad. Þvî er þad furda og raun, ad Ísland ennþá mjøg svo óvîda gètur ratad á líkann adstodar brunn, fyrir þess mørgu aumíngja, og ad þó ýmsar andlegar rædur hjá oss yfir høfud mæli opt fram med kjærleiksverkum, heyrist þó sjaldan állt sèrleg uppbvatníng af rædustólum, legud til hvørs safnadar ástands og margbreyttu þarfa, til ad bæta úr uppáfallandi vandrædum, og bágstaddra medbrædra naudþurft; sjáar uppvakníngar þar til, vid endurminníngu gudlegrar verndar og velgjørnínga vid oss, mißirum og árum saman, og vid sèrleg tækifæri. Ad fríviljugar gjafir til fátækra, sem tilskipadar eru um bædi Ríkin, med mørgum lagasetníngum, sem ætla jafnvel hvørjum vinnumanni ad leggja til 8 ß., en vinnukonu 4 ß, og heldra fólki eptir efnum og ástandi allt til 10 rdla — sjá, t. d., Tilskip. frá 5ta Maji 1786, Kap. III., §. 6. — hafi ver=

„þegar þeir halda vor= og haust=predikanir, (eda „þackargjørdir fyrir aflidinn vetur og sumar)."

verid oss hér einninn ætladar, sýnir Plakat af 18da Aug. 1786, §. 22, eins og Reglug. frá 17da Júlii 1782, §. 5, um heldstu Embættismenn, og óskandi væri, ad innbúar hværrar sveitar, sem í ollu tilliti þeckja mega undanfærslulausa skyldu, ad annast sína þurfamenn, kjæmu sér gódfúslega saman um frivilјuglega ad bæta úr sveitar-vandrædum, án allrar þvíngunar, og teldu sér sæmd ad, þari ad vera hværr ødrum mannlyndari.

d.) Um Náúnga og ékta barna foreldra tilløg til ómaga framfæris, mun eg vid nærstfylgjandi 22. §. tjá meiníngu mína, og þar líka, ad náúngar optast missa egi arfa eptir Sveitar-ómaga, sem þeir ecki annast, þó ómegum bætast kunni, en sýna, ad ómaga eptirlátnu eigur, falli til Sveitarkassans, eptir løgum.

e.) Hvad fátækum beri af forbrotnum vørum, abla og bótum, sýna vidkomandi Dómstóla og Yfirvalda dómar og úrskurdir í hvært sinn, en svo ad Hreppstjórar viti, í hværjum tilfellum, og fyrir hvada yfirsjónir þeim ber fátækra rétt og tekjur ad innkalla, tengi eg aptanvid quer þetta, lista yfir þær lagaskipanir, sem tileinka fátækum þar í hlutdeild, ad því leiti mér hugqvæmist.

§. 22.

§. 22. Blſ. 17—18.

Þeßi grein inniheldur 3 mjøg ſvo vafaſamar og ervidar ſpurningar, nefnilega:

1.) Hvar hefir náúnga framfæri hjá oſs ſtad?

2.) Þegar þad breſtur, hvar ſkulu ómagar á øllum aldri framfæraſt? og

3.) Hvør er ſanngjørn upphæd Forlags-eyris?

1.) Í tilliti til 1tu ſpurningar, ſegir Jónsbókar Erfd. I. kapituli: "ad hvørt einn ſé "ſkyldur ad frammfæra Fødur ſinn og "Módur, hvørt ſem hann ſé ſkilgètinn eda "frilluborinn, og ſvo børn ſín," og Tilſk. frá 3ja Júnii 1746, §. 13., býdur Børnum ad adſtoda naudþurfandi Foreldra eptir megni, med árlegu uppeldis tillagi. Hoſpitals Tilſkip. þann 27da Maji 1746, gjørir í §. 18. ráð fyrir, ad nockrir egi ad løgum ad forſorga ſpitelſka manneſkju, líklega, og optaſt, vegna ſkyldugleika; en — þad er ſérlegt, ad á framfæris ſkyldu vid Foreldra, minnaſt Dønſku- og Norſku-løg ecki, eda þaradlútandi Tilſkipanir, heldur einúngis á Frænda framfæri, og þad vídaſt mjøg ſvo ógreinilega, því NL. 1—17—7, nefnir ad ſønnu, ad Frændur ſkuli vardveita viſtola mann, hafi þeir ráð til þeſs, en hvørt á-

ſamt

samt forsorga, sem þó líklegast er, hefir sumum þókt vafamál; 3—12—24 gjørir og ráð fyrir ómegüm, sem frændur hafi ecki efni til að forsorga, og Reglug. um fátækra mál í Danmørku, þann 5ta Júlii 1803, í §. 18, að ómagi ega kunni náúnga eða vini annarsstaðar, af hverjum hann vænta mætti að eins nockurs styrks í neyð sinni: Tilskip. þann 2ann Dec. 1741, fyrir Norveg, í 2. Kap. §. 6, að ef Frændur annaðhvert ecki megni eða ecki vilji framfæra náúnga sína, verði þeßir þurfamenn að álitast, sem rèttir sveitar ómagar, þó vill Tilskip. frá 20ta Aug. 1778, í §. 26, að ómagar í Finnmørku setjist niður hjá nákomnustu Frændum, hafi þeir efni til þess. Eg nefni þetta til að sýna, að beggja Ríkjanna løggjøf hvørki ætlar mikið uppá náúnga framfæri, né telur þaraf, jafnvel ecki í nýustu Fyriskipunum, neina inntekt væntanlega til Sveitarkaßanna, eða léttir á þeim við náúnga framfæri, ecki heldur býður hardt eptir því að gánga, eins og það er alkunnugt, að um bæði Ríkin er svo lítið sem eckert, eptir náúnga framfæri gengið.

Fari menn nú að ransaka grundvøll til náúnga framfærisins, verður þeßi, eptir ásigkomulagi, nærsta ólíkur.

a) Í tilliti til Barna uppfóstrurs og þeirra forsorgunar, tekur náttúrunnar raust lángt yfir allar aðrar, eins hjá mønnum og málleys-

leysingjum. Ad koma afqvæmi sínu á legg, ad veita því uppfóstur og adstod, uns þad sjálft fær sig forsorgad, er innplöntud náttúru drift, og hennar krafa hjá öllum foreldrum, jafnvel flestum þeim grimmustu vörgum. Hvørn dóm og hvørt álit verdskulda þá þær foreldra myndir, er tjá sig þessum argari, med engu eda illu uppeldi einn? med tilfinningarleysi um þá náttúrleguftu skyldu, eptir mögulegleikum, en þó rádvandlega, ad afstýra óheillum og mædu þeirrar veru, medmanneskju og þess lífs afqvæmis, til hvørrar lífs og tilveru þeir verid hafa frívíljug orsök af ásettu rádi? um rádvanda foreldra er ecki tilgétandi, ad þad sé af lostasemd einni, laungun ad fylla heiminn med óluckulegum afkomendum, eda þarmed ad fremja illt eitt. Undir öllum tilfellum er því ríkt gángandi eptir gódu uppeldi og framfæris skyldu vid börn af öllum foreldrum. Hún er fullkomin, hún er kreptug og einhvør hin heilagasta mönnum, og sé hún þad ecki foreldrum framar, hvör önnur skylda má þad þá verda?

b) Af náúnga framfæris skyldunum kémur þessari nærst, ad forsorga Foreldri sitt, eda adstoda í neyd, ennþótt sú sé veikari. Hún er hjá mönnum og skepnum af náttúrunni svo, því grundvöllur hennar er annar og ecki sá hjá Börnunum, ad þau séu hinna frívíljug orsök, og þar med orsök tilveru

veru þeirra eda eymdar, og bágindafulls lífs hér á jørdu, ef mæta kynni. Vid uppeldid eitt innleggja foreldrar ecki eginlega skuldakrøfu hjá børnum, ad þvi leiti þeir einúngis fylla sína egin fullkomnu skyldu, med því ad uppfóstra þau, uns sjálfbjarga verda, sem adrar skêpnur, og ôhult sê ad fæta þeim frá. En hvad foreldrar láta børnum gott og ræktarsamlega í tje, framyfir þad, sem vitalaust uppeldi krefur, annadhvørt medan þad yfirstendur, med sérlegri ástsemd, náqvæmni, borinni mædu, audsýndu velgjørdum og umhyggju fyrir þeirra besta uppeldi, uppfrædíngu og mentun, til ad verda sem líklegust til farsæls og gagnlegs lífs, ellegar hvad þeir, ad því lidnu, børnum gott og elskuríkt veita; hvad þeir þá gêfa þeim og eptir sig láta í arfa; þau heilrædi, med hvørjum þeir þá framvegis styrkja þeirra vellídun, minnir góð børn á, ad heidra og elska þar hørunda þeirra lífs, sem þá horfir til ad verda þeim ánægjusamt, ad endurminnast þeirrar mædu, umsorgunar og kostnadar, sem hid góda uppeldi orsakadi foreldrum; þeirra mørgu velgjørda, ástríkis og náqvæmnis vid þad, framyfir eginlega og naumt reiknada skyldu, og ad endurgjalda hana þessum nánustu, bestu vinum, med adstod og ástúd, heidrun og forsorgun í þeirra naudþurft, elli, sjúkdómi, eda mædu-tilfellum.

En —

En — svo sem ecki sú einbera Hendíng, ad þeßi eda hinn vard foreldri manns, er framfærisins grundvöllur, heldur þegin sérleg velgjörd og ástsemd í uppeldi og sídan, og ásamt arfsvon eptir foreldra, ef eitthvad kynnu þeir eptir sig ad láta, sjálfum þeirra erfingjum til framfæris eda bústofns, svo verdur þarámót spurníng: hvörsu lángt framfæris skyldan vid þad foreldri nái hjá hórgétnu barni, sem þad eptir N. L. 5 — 2 — 72 nær ecki til arfs eptir, og hefir tæpast þegid skyldu uppfóstur af þess hendi? eda hjá barni, sem alls eckert uppeldi eda tillag til þeß, og eckert, nema tilveruna eina þegid hefir af foreldri sínu, eda máské illt og órádvandt uppfóstur eitt? loksins hvörja þöck þad barn náttúrlega kunna má foreldri sínu fyrir eintóma tilveru þess, sem fædist, eins og nockur, til sorga og mótlætis eins, lángt af þess æfi, vid ólæknandi heilsuveiki, til dæmis: spitelsku, frá samslags foreldri, eda vid vesældar vergángs kröm, sem lætur margann einn verda ad ómaga, hálfheidíngja og sjúklíngi, er fáa glada daga sjer? Í öllum þessum tilfellum held eg ecki fært ad krefja arflaust barn um framfæri þeßháttar foreldris. Frilluborid barn, einkum ættleidt, annast foreldri sitt, eptir arfsvonar tiltölu, sem þad eptir þad á.

c) Hvad

c) Hvad fjærskyldari eda Frænda framfæri snertir, þá er þetta ónáttúrlegast af øllu í flestum tilfellum, vegna skyldugleikans eins, nema ef væri af nánasta erfingja, sem nærstur stendur arfi, og nóg efni þartil hefir, en þó er jafnan med Dómum eda Urskurdum vægt og varlega farandi ad útskordun nockurs, í framfærisskyldu nafni, þeßháttar Frænda eda Náúnga. Margar og mikilvægar røksemdir eru til þess: sú frændsemis tengd, sem er á milli systkyna, frænda og annara í ítdulínunni, er ad álíta, sem bending ein, ófrelviljug þeim, sem um framfæri er krafinn, sem ecki er nein orsøk til frændans tilveru eda eymdarlífs, og því enga náttúrlega og fullkomna skyldu til framfæris hans gætur vidkannast, heldur opt margar, er móti því mæla, svo sem: bródir kann opt vera svallsamur, ó-rádvandur, ógæfumadur, letingi, ættarskømm og skapraun, hvørsu kann þá hans rádvandi, starfsami og sidsami bródir ad sektast fyrir hans meiri mannkostu, skyldast til ad hrifa braudid frá sínum og sinna velsidudu barna munni, ad offra sínum súra ervidissveita, til ad ala stráksskap og svallsemi síns órádvanda, lata bródurs, og hans óknyttasama hyskis, og þarmed svíkja jafnmikla eda meiri hjálp, frá betri og verdugri þurfamønnum sveitar sinnar, því ecki ma honum gjørast sveitar- og skyldsemis-

ómaga þaradauki ad annast, nema hvert-tveggja samvyrdt, sem vandalaust sé ad rétt-ri tiltelu. Annars mæti rádvendni verda fjárverd, atorka sektast, skyldur vid born sín, foreldri og sveitar fátæka lída undir lok, fyri svallsams, eda klækjótts, eda blán-gëfins náúnga grædgi eda þorfum. Sú ástæda, ad af þeim sé skyldt strauni ad stan-da, af hvorjum ábatavon sé vid arfa lík-leg, er einúngis sanngjorn, hvar efni eru fyrir, og enginn nánari eda fyrri til ad verda þess þurfanda frænda erfingi ad løgum, og þetta er þó allt ad banadægri óvist, því þeßháttar náúngar gëfa opt frá réttum erfingjum arfa eptir sig, og er því litlu til þeßkostar arfsvonar kostandi fyrir-fram. En — sé nú engin arfsvon eptir hann, vegna fátæktar eda gjafa til annara, og hann heldur ecki standi framar til ad efnast vid arfa eda ødruvísi, svo sem er opt vid gamalmenni, sje eg ecki hvad skyld-ara sé, enn ad fela þvílikann Guds og Hreppstjórans forsjón. Af þessu flýtur og, ad medan allranánasti erfingi, enn-þótt vanefnugur, er lífs, ega fjærskyld-ari á medan, ad vera vid náúnga framfæri lausir, og þetta aldrei ad hvíla á ødrum enn nánustu erfingjum, og ecki nema í arfsvonar skyni. Jónsb. Arfatøkur ræriast til, í Kap. XIX. og XXI. og Frsb. I., ad sá sé nánastur arfi, og

ád lögum réttur erfíngi þess, er framfæris þarf, sem það sé skyldugur að veita. Lika er auðvitað, að skyldugleikinn einn ecki skuldbindur nánasta frænda, egi hann enga arfsvon, eda feamar enn hún tilnær, t. d. hálfsystkyn, eda þann erfíngja, frá hverjum arfur med Gjafa- eda Testamentis-bréfum er burtu fenginn.

Ad sönnu sýnast Frfb. I. og V. kap. ad ætla fjærskyldari frændum, ef nánasta erfíngja brestur, framfæri frænda, en sá I. kap. sýnir þarhjá, hversu ónáttúrlegt Löggjafarinn, jafnvel árið 1280, fann þetta framfæri, er hann eptir fjærri skyldugleika ætlar honum svo miklu meiri efni ad ega, skuli honum náúnga framfæri gjörast, og bætist sídan annar fjærskyldari á fód, er jafnvel þeim nánasta, er fyrisitur, ætlad eins mikid í forlagseyrir og þeim fjærskyldasta, auk þess, er allt vandalaust heimilisfólk þarf til forsorgunar; líka hefir eg ádur sýnt þess ónáttúrlegleika og skadsemi, og ad Danmerkur og Norvegs Ríki þessvegna ecki kalli uppá þvílíkt, nema hvad hverr einn, sem gódmótlegast og frí-viljuglega vill láta af hendi rakna vid frænda sinn, til þocka og sæmdar ætt sinni, eins og þeirra Ríkja nýustu Lög, ecki gjöra fyrir meiru ráð, og þau eldri nú gyldandi ad einslinlega fara þessu framfæri á flot, og framar ætti það aldrei heldur hjá oss ad ské,

 því

því eins mikið og í náúngasemdar skyni er frændum með ómögum ofþyngt, eins mikið mißir sú sveit, hvar þetta skeður, af framfæris von fyrir sína þurfamenn. Auk þessa vill það óþénanlega mæðu kosta, að dæma eða úrskurða réttilega ómaga á náúnga fé, vilji hann ecki góðmótlega annast þenna frænda; kosta hatursleigar eigna ransóknir, sem Kongungr vor ecki vill gjarnan líða — sjá Tilskip. þann 27da Dec. 1799, nefnda í Ekríngar gr., litr. y), bls. 63 — kostnað og bjargræðaspillir þarvið, og auk þess er optast vansjeð, að hverjun haldi það kémur, þar sem nú ecki bæri, eptir bls. 60 — 61, No. 2, annað að vyrða uppí forlags-fé, eptir Frfb. I. kap., enn áwartarsama aura, samqvæmt Erfda-tals XXI. kap., og það eptir sama formi, sem Tíundar Reglug. 17da Júlii 1782, leggur fyrir fátækra og Presta og kirkna gjöld í þess §. 1., líka á enginn, heldur enn við tíundargjörð, eptir fyrrtjeðu, bls. 60 — 61, No. 2, að útarurast við náúnga framfæri, því Frfb. I. kap. segir: að ef forlagseyrir minkar fyrir manni, síðan ómagi (náúngi) kémur á hendur honum, þá hverfi aðrir ómagar (frændur) af fénu, svo sem er, hversu lengi þetta framfæri helst.

Loksins bæti eg því við, að þó Kóngsbr. þann 11ta Apr. 1781 §. 7., leyfi Yfirvöldum án Dóms að gjöra jöfnuð útsvars af ná-

náúngum til ómaga framfæris, ætti þau sem skjaldnast, og æ með mestu vareygð, að beita svo háskalegum rétti, sem, að óþecktum (skuldlausum) eigum og ástandi manna, með Appellslausu Yfirvalds bodi, í svo ónáttúrlegt og ópénanlegt útsvar, sem til náúnga, að gjøra eigur manna upptækar. Þeßvegna vyrðist eckert útlag til náúnga framfæris réttilega að géta gjørst, nema eptir haldnar uppskriftir, vyrðíngar og skipti búa, og með tilliti til hésudlódar þess hjónanna, á hvers fé ómagínn, vegna skylduglcika, gjøraſt ætti, því hitt vandalausa fríteknr Réttarb. Eyríks Kongs. Þess skyldu þau og minnast, að skadvænna er svoitum, að velstandandi búandi útarmist einn við náúnga framfærið, og verdi síðan sveitarbyrði, enn þó hans náúnga framfæri legðist uppá alla.

d) Að hjón framfæri hvørt annað, meðan fé vinnst til, eda hitt fær fyrirunnið, býður hjónabandsskyldan, náttúra þessa sáttmáls og Frfb. II. kap. útþryckilegás; eg læt mér nægja hér að vísa til bls. 33—34 hér að framan, og að géta þess hér: að hvar hjón fá Amtmanna leyfi til skilnaðar að bordi og sæng, ber manninum, sem samegiulegt bú hefir í umráðum, á meðan að forsorga konuna og børn þeirra, að því leiti efni tilná eda fyrivinna hans, en leyfi Konúngur þeim fullkominn skiln-

 að,

ad, ber eigum þeirra reglulega ad skipta ad løgum, og Hreppstjórum ad adgæta ómaga og barna rétt í því tilliti, í tíma. Þanninn verdur mín meiníng, ad réttast og hentugast se um náúnga framfæri:

1) Ad allir foreldrar ekta og eins óekta barna, egi, svo lengi þeim lengst er møgulegt, án tillits til eigna, vafalaust fyrst ad framfæra børn sín, úng og jafnvel gømul, þar þeir vóru fríviljug fyrsta orsøk til þeirra lífs og lífsins þarfa.

2.) Þar næst egi ad framfæra foreldra, hafi þeir veitt eda útvegad børnum sínum løglegt uppeldi, og þessi egi arfsrétt eptir þá, og þar hjá fé til þess.

3.) Hjón framfæri hvørt annad, medan ecki eru ad fullu løgskilin, og þau hafa nockur efni, eda med fyrirvinnu, rád til þess; en

4.) Ad annad náúnga framfæri krefjist ecki af nockrum fjærskyldari, enn nánasta rétta og náskyldasta erfíngja, og því ad eins, ad hann efni nóg partil hafi í ávaxtar-fé, vyrdtu sem annad fé til tíundar, ecki minna enn Srfb. I. Kap. í tilliti til skyldugleika og forlags-eyris upphædar, tilteknir, en hvar þau efni bresta eda þverra, og fjærskyldari náúngar eru, taki Hreppstjórar med þøckum vid því, sem hinir af ættrækni góðfúslega vilja náúngum sínum til framfæris eda adstodar af hendi láta án nockurs kífs eda krøfu, og fari bónarveg þar um.

5.) Að eins og Arfsvon eptir náúnga sinn, er grundvöllur til þeirrar ófullkomnu skyldu, að framfæra hann, svo missa og náúngar opt, og að miklu leiti Arf eptir þá, sem þeir forsóma eða tregðast við að framfæra, en kasta á sveita forsorgun. Þannig býður Frsb. V. kap.: að Erfingi missi af ó-magans tilföllnum arfi, eða eptirlátnum eigum og réttar tilkalli, eins mikið og annar, sem framfærði hann, lagði fyrir ómagann, og fái einúngis hvað umfram er d). Arf eptir Hospitals-limi, og arfa sem þeim, meðan þeir lifa, bætast, leggur Tilskip frá 27da Maji 1746, §. 10, 17, til Hospitalsins, allkt og NL. 2—19—13, og Tilskip. þann 5ta Dec. 1749, leggur allann þann arf, sem sveitar ómögum og Hospitals-limum tilfellur, eptir það þeir komast á Hospital eða sveit, þessum fátækra stiptunum, og allt hvað þeir eptir sig láta, eins fjöldi annara lagasetnínga fyrir bæði Ríkin, t. d.: Kóngsbr. af 16da Nóv. 1775, 29da Nóv. 1771, 4da Apr. 1772, 16da Sept. 1786, og 4da Sept. 1795, en það er eginlega að skilja um vaxna, sem



d) Eins bjóða Reglugjörðirnar um fátækra framfærið í Danmörk, þann 5ta Júlii 1803 (§. 19-20), § 23-24, að sveitin erfi alla sveitar ómaga, sem deya, gjeti eða vilji þeirra erfíngjar ecki gjöra henni fullnustu fyrir því, sem hún kostað hefir til þeirra framfæris og greftrunar.

deya sveitar ómagar eda Hospítals-limir; en ecki þó børn þurfi uppfósturs styrk, og verdi ad dugandi mønnum, eda eigniſt arfa sídan, þó eg þá haldi skyldt, ad þeir bætti sveitinni fósturs kostnadinn, sem samqvæmt þeirri nafnfrægu Reglugjørd um fátækra sakir í Kaupmannahøfn, þann 1ta Júlii 1799, §. 185 e). Kóngsbr. af 29da Mart. 1732, baud: ad arfar, sem tilfellu munadarlausum børnum í Munadarleysingja-húsinu, geymdust þeim, en renta þeirra legdist med þeim; en dæu þau í því, ætti Húsid eignir þeirra og arfa, hvad

e) Jafnvel hjá oss er endurgjald þessa uppfósturs kostnadar í vissann máta løgtekid, med Tilsk. frá 3ja Júnii 1746, um Húsaganinn, í §. 11, sem bannar børnum, er uppalist hafa á ølmusum, og annara góógjørdum, ad vista sig, þegar þau mannast, burt úr sinni sveit, á medan þau þar geta fengid forsvaranlega vist; en ad hvørju leiti vistarvinnu se þar sanngjarnt ad uppástanda, og nær endurgjald ollu heldur í peníngum eda ødru, vil eg sýna í útskíríngu §. 43.

Sú nefnda 185ta grein Reglug. frá 1ta Júlii 1799, segir: Sjerhvørr, sem af fátækra forløgum hefir ølmusu þegid, ellegar adra almenilega eda óvenjulega adstod, skal skyldugur vera, bætist honum efni til þess, eda ad því leiti hann eptir sig (dáinn) lætur, ad endurgjalda Fátækrakassanum þad, sem hann af honum þegid hefir.

hvad eg held heimfærandi, vegna sennu ástæðna, uppá áðursagt um børn. Loksins ætlast Kóngsbr. af 13da Dec. 1805 til, að fátækra Forstjórar, en ecki reglulegir Skiptaréttir, uppskrifi, virði, selji og skipti sveitar-ómaga eptlátnu fémunum, og að Hreppstjóri, vegna skulda-tilfalls, lýsi við kirkju láti þeirra, allt kauplaust.

2.) Annnur Spurníngin (bls. 76): hvar skulu ómagar á øllum aldri framfærast, þá náúngar ecki skyldast til þess, eda eru ecki til? er ecki stdur vandasøm, og gamallt þrætuefni hér á landi.

Hvað legskipad sé, sýnir Frsb. I. og IX. kap., uefnilega: að

1.) Sé Náúnga og Hjóna framfærid, en — hvørsu lángt þad egi að ná, nær og med hvørri varúd krefjast, var nú strax á undan sýnt, bls. 76—89.

2.) Að þurfamenn, sem ecki annast af frændum, egi þar hrepp, sem þeir hafa uppfædst, það er: uppfóstrast, og þenna uppfósturs- eda ómegdar-tíma telur Frsb. I. kap. eda Réttarb. Eyriks Konúngs til fullra 16 ára-(sjá og IX. k.)

3.) Sé uppfósturs hreppurinn óviss, sem eptir Frsb. II., VII. og IX. kap. opt mátti verda og vída, þar sem fátækum var umferd leyfd um alla hreppa, hvar hjálpar von þókti að, er náúnga-hreppurinn

 nærst

nærstur talinn í Frfb. IX. kap., þad er sá hreppur, hvar frændi ómagans, þrímesingur eda nánari átti heimili fast, annadhvørt búfastur eda vistfastur, því þá ætludu legin þessum, ad standa nockurn straum af, eda hafa umsjón med frænda sínum, er þurfamadur var, eda vildu, ad minnsta kosti, leggja þennann til sama hrepps, en ad þau sjálf ætli til, ad sá frændi sé vid efni, og undir eins ómagans rétti og nánasti erfingi á lifi, verdi til þessa tillit nockurt haft, sem þá verdur náskyldt náúnga framfærinu No. 1, hefi eg í andsvari itu spurníngar sýnt.

4.) Seinustu tirrædi løgbókar, þá þenna náúnga til umsjónar brast, var umferd um alla hreppa, eptir Frfb. II., VII. og XII. kapítulum.

Þad er af ádurnefndu augljóst, ad, þegar framfæri barna og hjóna, og alloptast foreldris er undantekid, er lítid uppá annad náúnga framfæri Løgbókar, eptir No. 1, ad byggja, og enn heldur er þad, þó þad svo standi í þessum enn óafteknu gømlu løgum, ósanngjarnt, ad leggja ómaga á þann hrepp, hvar náúngi þessa er bú- eda vist-fastur, og getur ecki med ødru tilliti, enn því stadist, ad náúngi þessi, ennþótt of efnalítill til ad forsorga frænda sinn ad øllu, egi þó af honum, sem ómagi er, fyrstum manna ad erfast, hvørsvegna ómaginu egi þar í hrepp arfsvon, sem borga megi

hrepp-

hreppnum máské einhværntíma nockud af kostnadi hans til ómagans framfæris, líka sé tilætlandi, ad frændi ómagans, sem prímenníngur er eda nánari og undir eins erfíngi, beri fyrir framfæri hans og adhjúkrun ødrum betri umhyggju, máské og styrki eitthvad lítid til þeß. Samt sem ádur er þetta allt svo stopult, eptir óvissum samastødum náúngans, óvißt og ónáttúrlegt, óvidkomandi frændsemda vegna, vid einhvørn vanefna mann í sveit, ad ofþyngja hreppnum med framfæri hans, opt fjølmenna, húßgángs hyskis, ad lítid er med þessu framfæri Legbókar mælandi fram, eins og eg ætla þad hvørgi af Yfirvøldum í landinu framar vidhaft.

Ad gánga med vonarvøl um alla hreppa, eptir No. 4, ennþótt í Jónsbók legtekid, er fyri laungu med nýjum laga-bodum f) fyrirbodid, nema væri svo, ad einstakur hreppur, vegna sérlegra bágindα, ødrum fremur yrdi ófær til ad standa straum af sínum ómøgum, þá leyfir Kóngsbréf þann 10da Martii 1784, Sýslumanni ad géfa fátækum í þeßháttar hrepp, leyfi og

f) NL. 2—11—4. Tilskip. um Skriftastól og Altarisgaungu, þann 27da Maji 1746, §. 5. Tilsk. af 3ja Júníi 1746, um Húsaga, §. 11. Kóngsb. um Passa, frá 11ta Apr. 1781, og um Betlara, þann 10da Mart. 1784. Fúndatz fyrir Tukthúsid, af 3ja Mart. 1784, §. 1. Kóngsbr. frá 2rum Júlii 1790.

og passa, einúngis til innansýslu umferd-ar. En — þar Yfirvøld hafa þarhjá fundid, hvørsu skadlegt fyrir heilsufar, rádvendni og uppeldi flackaranna sjálfra, þvílík umferd er, þar sem þeir eldri eckert vinna eda forþéna med starfsemi sér til atvinnu, vid svo ómenn-skufullt líf, børn og únglíngar eckert verk læra, en flestir, auk þessa, missa heilsu, fiør og vil-jugleika, vid skort, vosbúd, vantandi þjónustu og þrifnad, en útsjúga hrædilega atorkusamara fólk, er berst fyrir fiølskyldu sinni, þá er því-lík umferd, jafnvel innansýslu, mjøg skjaldan leyfd, og ætti aldrei nockru sinni ad lídast, því betra miklu er þá, ad øll Sýslan eda Amtid, eptir því, sem eg uppástúngid hefi, bls. 70—71, hjálpi med tillegum þeirri þurfandi sveit eda Sýslu, og fátækir haldi kyrru fyrir í sveit sinni vid nytsamleg størf, holla þjónustu og þrifnad, reglulegt og løglegt uppeldi og kénnslu úng-línga, enn ad þeþir, á flacki, freistist til þjófn-adar og lyga, læri leti og ómennsku eina, og drafni sundur í óþrifahætti.

Þanninn verdur nú, þegar náúnga fram-færi brestur, eckert eptir brúkanlegt af Løg-bókar ómaga-framfæris reglum, nema Upp-féstúrs hreppurinn einn, (eptir No. 2 bls. 89) og hann er í raun réttri ennþá sá eini løg-legi grundvøllur hér, til ómaga-framfæris, þad er: ad allir þeir hreppar, hvar hinn úngi uppfædst hefir til fullra 16 ára, hjálp-ist ad, eptir tiltølu, med ad fullkomna

hans

hans uppféstur, sé því ecki aflokið, eda anniſt hann ſídarmeir í ſjúkdómi, ørbyrgð eda ørveſi. En — af því ad Uppfósturs-hreppurinn, þó eg ecki framar gjøri ráð fyrir umferdar flacki um alla Sýslu, eda uppfóstri á vergángi, ſem aldrei meir á ad þolaſt, heſir ſamt ýmisleg vandrædi, þegar innkalla ſkal forſorgun ens ſátæka af fleiri hreppum og Sýſlum, opt á ýmſum landshornum, eptir því ſem ómaginn í úngdæmi vída flækſt heſir, eda ef hann flytja ætti til ſérhvørs af hans Uppfósturs-hreppum til forſorgunar, þá hafa Yfirvøld ſjálf ſmídad ſér margbreyttar framfæris-reglur og hreppa, nærfellt eins margar og Amt eda Sýſlur finnaſt í landinu, en allar óſtadfeſtar af Konúngum, þeſsvegna enn óløgteknar, og, því midur! mjøg óſamqvæmar. Þanninn er nú á ýmislegum ſtødum, í Uppfósturs-hreppsins ſtad, mælt fram med **Fædingar-hreppi, Vinnu-hreppi, Búnadar-hreppi, Giptinga-hreppi**, já, hvad grundvallarlauſaſt er, **Getnadar-hreppi**, en ſá eini híngad til løglegi, nefnilega Uppfósturs-hreppurinn, því nær gleymdur allvída.

Med fám ordum er hægt ad ſýna, ad enginn þeſſara er allskoſtar gódur, því hvad Fædingar-hreppinn áhrærir, þá má þad í fyrſta áliti vyrdaſt óſanngjarnt, ad ſá hreppur, hvar fæding manns, rétt ſem af hendíngu, vildi til, ſkuli bera þýngſli hans á øllum aldri, ſem ómaga, bædi vid uppfóſtur í úngdæmi,

og

og fátækt, sótt eda ørveſi á efri árum, máſké aldrei af mørgum ómegum minnſtu ſtod eda uppbyggingu hafa, og þad er í raun réttri ſvo, ſé framfærid ætíd og einúngis bundid til þeſs hreppa, hvar fædíngin vildi til, og hefir þad allopt ollad hardneſkju hrakulngi á óléttum mødrum. Vinnu- og Búſkapar hreppar eru opt margbreytir, því margur kann ad hafa búid í fleiri Syſlum og mørgum hreppum, en einkum í viſtum flækſt í fjølda mørgum, og þegar til framfærisins kémur, mæta ſøm vandrædi, ſem vid Uppfóſturs-hreppinn, med ad ſanna áratøluna á ſérhvørjum ſtad, en þó einna hellſt, hvar ómaginn í viſt eda vid bú hafi hellſt verid ſveitum til gagns, því ſumir eru þad hvørgi, og þareptir ad koma honum þángad hrepp frá hreppi, eda innkalla tilløg hinna, ſé ómaginn ecki flutníngsfær. Vinnu-hreppur má einkum verda fólksríkum ſjóplátzum ofþúngbær, bædi vegna þeſs, ad fiſki- og annar útvegur gjørir fjølda hjúa þar naudſynlegri og almennari enn annarſtadar, líka þeſs, ad í hørdum árum ſkyja margir ad ſjó, og ørvaſa fólk einkum, ſem ecki lengur treyſtir ſér til ørdugrar ſveitavinnu, tredur ſér þar inn í húsmennſku, og þyriſt vid hægſókt fiſkifaung allvølda, en makinda líf, og yrdi þó, ef hann hér gyldti, ofaná gróa ſveitar únglinga og ómaga annara í þeſſum plátzum, ad allt ofþúngum ſveitarvandrædum. Þó er Giptinga-hreppurinn enn óſanngjarnari, þared møng hjón giptaſt í

einum hreppi ad eins, og þad opt med sveitar-manna hmugusti, þegar óvænlegt þykir, en flytjast strax burt þadan, eda auka hreppum, med ólåns giptíngum, allopt einúngis stór-þýngsli, en ecki gagn; hann er og ecki einúngis jafnólegmætur hinum, heldur á sárlitlum røkseindum bygdur. Grunndvallarlausastur af øllum er samt Gétnadar-hreppurinn, þvi auk þess, ad hann er optast illfært ad sanna, sem óvissrar hendíngar afleidíngu, má hann eins opt verda á fjøllum uppi, máské á hafinu sjálfu, hvar, eins og á grasafjøllum, og í lestaferdum yfir óbygdir, Amta og Landsfjórdúnga á milli, børn kunna gétin ad verda. Til þessa hrepps þeckja ecki heldur nockur vor løg, og ecki er sá ófæddi og ókomni í heiminn, teljandi til vissrar sveitar félags, framar enn annarar, fyrr enn hann lifandi byrtist; hans réttur til sveitar-framfæris á vissum hreppi, gétur ecki byrjad fyrr enn hans erfdaréttur eptir foreldri, sem NL. 5—2—30 ásktilur ad byrji vid lifandi fædíngu og skírn, þvi fyrr má hann ecki teljast í kristinna sumfélagi, og þeir einir eru vorir réttu hreppsmenn.

Í nærverandi byndis úrrædum, eda úrrædaleysi, og á medan engin føst regla um ómaga framfærid, sem sameini allra meiníngar, eda taki tvímælin af, fæst løgtekin, er því ecki annad fyrir Hreppstjóra hvørn ad gjøra, þegar efi er á, hvar ómagi egi ad framfærast, og náúnga framfæri verdur ecki kraf-

id,

id, en beint ad fylgja þeirri reglu, sem hans Sýslumadur honum þarum fyrirleggur, eptir Köngsbr. frá 11ta Apr. 1781, §. 6, og Instrúxins §. 22, en egi ómagi framfæris tilkall utansýslu, heldur Sýslumadur sig þarum til Amtmannsins, þar þeßi einn réttilega má úr þeßháttar þrasi skéra, nái þad ecki útyfir hans Amt, þar Sýslumadur eckert vald hefir, ad úrskurda um skyldur fólks i annari Sýslu, eda láta ómaga þángad flytja án Amtmanns eda hlutadeganda Sýslumanns samþyckis. Ecki heldur er Hreppstjóra nockrum leyfilegt ad beidast Amtmanns úrskurdar um þeßháttar innansýslu málefni, ennþótt honum ecki med øllu gèdjast kynni Sýslumannsins álytan, á medan Köngsbr. frá 11ta Apr. 1781 i §. 6 stendur óraskad, ad Sýslumanna gjørdir þarum Skuli ómótmældar og appellslaust haldast, og ecki sie eg, ad Amtmadur megi þeim raska ad løgum.

Þad er því æskilegast, ad hlutadegandi Amta Yfirvøld gèti falliſt á eina meiníngu um þeßi vandrædafullu mál, eda øll komid sèr saman um eina almenna høfudreglu, hvørja þau sameginlega leggja vilji undir konúngle gann úrskurd, sem og þegar er skéd, og er mèr heimilt hana ad auglýsa almenníngi, þar eg haldi byggjandi, ad hvørja hellst reglu adra menn skapa sèr um þetta, mæta ýmisleg og meiri vandrædi vid allar; því tel eg, ad sú væri hellst kjósandi, sem færst og lèttvæguſt hefir.

Ad

Ad þessu adgættu held eg hentugast: svo ad børn og únglíngar í uppvextinum, eda heilsubilad og lasburda fólk, á efri árum, flækist ecki hrepp úr hreppi, sem sveitar-ómagar, heldur gæti sama uppfósturs og adhjúkrunar adnotid, sama Prests og Hreppstjóra tilsjónar, og svo ad sanngjarnastur jefnudur ómaga-framfærisins, um allt land, gjørast mætti eptir fólkstølu bú- eda vist-fastra- og fæddra-tølu í sérhvørjum hreppi, ætti ómagar einúngis ad eiga þar alla sveit, hvar Módir þeirra átti stadfast Løgheimili, þegar hún þá fæddi, og þad einlægt alla æfi, nema svo sé, ad einhvørr þessara verdi sídan bú- eda vist-fastur í ødrum hreppi full 20 ár, hvar med hann fái hefdad sér þar sveitar félag og framfæri, því þá ætti hans Framfærishreppur þar ad vera, og heita: Tuttugu ára-hreppur, en hinn Módur-heimilis-hreppur.

Af þessari audveldu reglu følgir:

1.) Ad børn, sem fædast á ferdareisu módur, eda í ødrum hreppi, enn hún bú- eda vist-føst er þad augnablik hún fædir, eiga þar sveit, sem hún þá á rétt løgheimili, því annars kynni bráðvandur húsbóndi, eda ágengur Hreppstjóri ad senda óléttar konur, med þeirra og fóstursins lífsháska, í adra hreppa, til ad fæda þar børn á þessara skaut, sem væri mjøg svo

 ráng-

rånglått. Af þessu sieſt og, ad þeſsi hreppur ecki må rèttilega nefnaſt Fædíngar-hreppur, og ad þeßi opt er annar, en ad hinn þvî rèttara kallaſt Módur heimilis-hreppur.

2.) Ad ef módir flackar innan Sýslu, med Sýslumanns paſſa þar til, og fædir barn å flacki, á þad barn ſveit, hvar hún átti adſeturs heimili þá paßinn var útgèfinn, en lídi Hreppſtjóri nockurri ólèttri konu flack í hreppnum, ån Sýslumanns paſſa, eda utanſýslu betlurum, lendi þeirra børn þar å hreppi, hvar þau fædaſt. Hèraf flýtur þå og, ad Sýslumadur aldrei á ad leyfa ólèttum konum flack, ſem auk þeſſa er þeim og fóſtrinu háſkalegt, heldur útvega þvílíku þurfafólki hrepps adſtod å rètt adſeturs heimili þeß.

3.) Ad eptir þeſſari regln, ber eckert tillit ad hafa til uppfóſturs ára annarſtadar, eda tilkall þar eptir til annara ſveita, um framfærſlu eyrir.

4.) Ad búa med løgſkilum, eda vera í gyldri víſt fyrir venjulegt kaup og koſt í ſama hreppi um 20 ár eda lengur, álít eg vera ſvo gylda rekſemd, ad þeim hreppi, hvar annadhvert hefir vidvarad, øllum framar beri ad annaſt þaß, ſem ervaſa verdur eda heilſubiladur, en var þar ſvo lengi í gagnlegu ſveitar-félagi, ad ſå ſkylda liggi vafalaus á þeim hreppi,

hver-

hvörjum ómaginn þanninn var lengst gagnlegur. Alþíngis Samþyckt, gjörd þann 13da Júlii 1722, hefir jafnvel stúngid uppá, ad húsbændur skyldu, nærst konu, börnum og foreldri, en þó med sérlegu skilordi, annast lasburda hjú þeirra, sem med dygd og hollustu höfdu þjónad þeim í 15 ár eda lengur; sú Samþyckt er ad sönnu bædi óleggyldt, og má, eptir ásigkomulagi, opt verda enn nánari skyldum gagnstæd, einkum þá efni bresta, en þarhjá má hún þó mjög svo sannsýn vyrdast, og þeßheldur vidlík um forsorgun þeß ómaga, sem um hefdarlángann tíma, í full 20 ár eda lengur, samtals med búskapar- og vinu-árum, var sveit nockurri gagnlegur. Hafi nú einhvörr verid þad jafnlengi, eda, t. d.: 20 ár í hvörri sveit af 2ur, ber þeim bádum ad þeckja hann sinn löglegann ómaga, en þeirri ad halda hann, hvar hann sídast var gagnlegur 5 samfleytt ár eda lengur, og þursti fyrst adstodar med, bædi af því, ad hann þá er þar réttur sveitar félagi, líka vegna höfudreglunnar: ecki ad hrekja veika eda örvasa ómaga lángferdir burt á adra hreppa þadan, sem þeir í réttu sveitar félagi verda þurfamenn. Þad er audvitad: ad þeßi 20 ára gagnsvera einúngis reiknast eptir hvörs eins tvítugs aldur, því fyrr enn 20 ára, telja Frsb. IV. og Qvennag. II.

Kap. engann úr ómegð né fjár síns ráðandi, eða giptingafærann með einráð sín, ecki heldur telja NL. 3—18—5 karlmann það fyrr til giptinga. En 16 vetra úngling telur Frfb. I. Kap. og Réttarb. Eyríks Kóngs við hann, og Erfdab. XXI. og XXII. kap., fyrst matvinníng, og Þjófab. I. kap., hyngri enn 16 vetra, ómaga.

5.) Nærst straffsverðri og hygðir útarmandi Lausamennsku, hefir tómthúß eða þurrabúða-fólks líf, um aldur og æfi, þókt hið skaðvænlegasta landinu. Svipull fjáfarabli hefir leidt margann í tóma kofa, til að eyða þar dögum og mánuðum saman í ómennsku, ala upp við sömu, og óþrifnað, já, allopt óknytti, fjölmennann úngdóm, er fátt gagnlegt eða gott lærði, fyrir hvörn og jafnaðarlega brast forsorgun, því síður að sveitir yrðu styrktar með töluverðum tillögum húßfólks, að eg ecki nefni önnur þegnskyldugjöld. Hvað ábrast til þess egin sjölskyldu framfæris árlega, og í bágum eða fiskileysis árum, þetta framfæri allt, var lagt uppá hreppsbúa aðra, og varð þeim opt að útarmandi byrði, en úngdómur þeßi sjálfur, vegna misjafns uppeldis, einhvörr enn lakasti og óbjargvænlegasti landsins. Sannleikur þeßi hefir fyrr og síðar alþecktur verið, og þeßvegna margir Dómar og Alþíngis Samþycktir útgengið þeim á móti; eg nefni

nefni til Þíngs Dóm 1490, stadfestann 1533, og árin 1558, 1638, 1657, 1664, 1679 og 1689, mèdal margra, en nú seinast er Tómthúss- og Þurrabúda-lif fleirum framvegis fyrirbodid med konúnglegri Skipun, þann 21ta Júlii 1808, og húsmennska einúngis leyfd med því móti, ad hvørr húsmadur eda húskona fái med húsinu byggt fódur og gras fyrir 1 kú eda 6 ær, og kálgardsstædi ásamt. Þó sýnir inngángur Tilskip. frá 19da Febr. 1783, ad úngu, ógvongudu fólki ecki leyfdist med þessu móti búdarseta, sem væri eintóm og óleyfileg lausamennska, þar mergum vinnudrengi yrdi hægt ad fá sèr grasnyt fyrir 6 ær, svo fáir fengjust þá framar í vistir. Þessvegna, og svo ad sjóplátz ecki undirokist af flóttamønnum, sem í hallærum flyckjast ad sjónum, ættu þessir ad verda þeirra ómagar eptir 20 ára húsmennsku, gètur 20 ára hreppurinn ecki nád til annars húsfólks framfæris, enn þess, sem í svo lánga tíd hafr hefir þessa grasnyt og kálgard, eda samtals verid vid búskap á jardarparti, gylda viñuvist og fyrrsagda grashúsmennsku 20 ár eda lengur, í sama hreppi g).

 6.)

g) Med því móti einn mega Grashúsmenn komast í búendra tølu, og ødlast þeirra rett. Sjálf

6.) Í No. 4. hefi eg nefnt þad, sem höfud-reglu einhverja vid ómaga framfærid, "ad "veikir og örvasa ómagar ecki hrektist láng-"ferdir burtu á þeirra Módurheimilis-"eda 20 ára-hrepp, hvörn heldur sem er, "eda hvar helst þeir hann ega, heldur "forsorgist þar, sem þeir seinast vóru gagn-"legir í 5 samfleytt ár eda lengur, og "þurfu sveitarstyrks vid sídan." Grund-völl til þessa tel eg þann, ad leggja ecki líf veikra, eda gamalmenna í háska, sem er ókristilegt, og ad flytja útslita-mann, gamlann og lasinn, t. d.: frá einu lands-horni á annad, frá Snæfells Jökli eda Vestfjördum til Múla Sýslna, hvar hans 20 ára-, eda til vissu, Módurheim-ilis-hreppur þó kann ad vera, heldur lítst mér hentugast: ad ómagar flytjist einúngis innan Amts á þann af þessum hreppum, sem þeir ega, en ecki yfir 2 þíngmannaleidir útfyrir Amtid, egi þeir í ödru Amti hrepp og framfæri, og þetta því ad eins, ad ecki séu heilsulasnir eda mjög örvasa, heldur ernir. Annars bidji Hreppstjóri Sýslumann sinn ad leita Amt-manns adstodar, med skjóta og vissa inn-köllun árlegs forlags-eyris af framandi Sýslu eda Amti, hvar hvörs ómaga fram-

fær-

---

Grágás telur til bús: þad er bú, er madur hefir málnytann smala. Heimilisf. IV. Kap.

færis hreppur er. Eg hefi sett fimm ára gagnlega, eda ad minnsta kosti, þýngslalausa løglega veru sídarst í sveitarfélagi, hvar jafnvel framandi þurfamenn egi ad forsorgast, í fjarlægd vid sinn framfærishrepp, og bæti nú vid þeirri meiníngu minni: ad Amta á milli, ættu ómagar aldrei lengra ad flytjast, enn á milli Húnavatns- og Stranda-, eda Dala- eda Mýra-Sýslu; Mýra og Borgarfjardar; eda á milli Sudur-múla- og Austur-skaptafells-Sýslu. Í sjálfri Danmørku, hvar vegir og ferdaløg eru miklu greidari og betri, og vedráttufarid mildara miklu, sýna þó Reglugjørdirnar, frá 5ta Júlii 1803 — sem og eru sendar Norvegi til eptirmyndar í líkum efnum — ad til meiri flutnínga ómaga á løghreppa er ecki ætlast, og ad í stad þess, ad eg sett hefi 5 ár hér, vegna vorra stopulu bjargrædisvega og tídra hardinda, sem um tíma flækja fátækum vída um kríng, ætla þær Reglugjørdir ecki meira enn 3gja ára veru þurfamannsins á sídasta stad, til þess ad gjøra hann þar sveitlægann, hvar regla ómøgulega fær stadist hjá oss, fyrrtaldra orsaka vegna, og þess ad sveitir jafnadarlega í hallærum tæmast af fólki, en fyllast vid sjó af fátækum um tíma, líka mundi þad verda vidleitni margra efnagódra, nískra náúnga, ágengra Hreppstjóra; og

 hús-

húsbænda, að reka útslitafólk, og þá, sem hrörna til heilsu, á fjarlæga hreppa, til að verda þar sveitlæga, og skjótast undan réttu framfæri, yrði það eins audveldt hér, sem í Danmörku, hvar betri faung þó gèfast víss og margfeld til framfæris, sjeldi efnagódra manna, og margar dýrmætustu ráðstafanir, um mikilvæga inntekta brunna fyri fátæka, sem hér eru svo fáir, sem engir til. Þessvegna læt eg ecki 3gja ára, heldur 5 ára sídustu veru duga til að útvega ómaganum aðsetur, til að eyða þar forlagsenri frá hans fjarlæga framfæris hreppi í ödru Amti; en innan Amts er það hvörs Amtmanns að úrskurða, hvört ómaginn, eptir ásigkomulagi, sé flytjandi Sýslna á milli, eða frá einum Amts enda til annars.

7.) Að miklu leiti er Móðurheimilis-hreppurinn sameginlega af Íslands Amta Yfirvöldum samþycktur, í Hreppstjórnar Instrúxins §. 22, en þó ecki fullgreinilega, að því leiti þar gètur einúngis um Fædíngar-hrepp barna, að eins gyldandi, hvar móðir þá á lögheimili, hvar hún fæðir, og eckert um fullorðinna framfæri; en þegar öll þessi Yfirvöld fallast á framantaldar ástæður upp héðan, sem eg í §. 22, játa heldur ógreinilegt, og gjert Móðurheimilis-hrepp gyldandi, hvar 20 ára hreppur ecki gèfst, yrði æskileg samstemma um vort híngað til marghefðaða

fátækra framfæri yfir allt landid fengin, og þá állt eg naudsynlegt, ad sérhvörjum húsbónda í öllu landinu væri uppálagt, innan 1 árs frests, ad hafa útvegad sér og hvörri manneskju í hans húsi, réttann Skírnar-sedil, med teiknudu, hvar Módir sérhvörs ætti Løgheimili, þegar hann (eda hún) fæddist, sem Skírnar-sedil fær, og þar Prestar ásamt ega ad hafa alla umsjón med fátækum, ad þeir, hvørr fyrir sína sókn, sendi Sýslumanni innan mánadar, eptir þad skipun hérum til þeirra útgengi, lista yfir alla í sóknunum, sem úr ødrum Sýslum vidþurfa Skírnarsedils, nefnin og aldurinn skrifud fyrir hvørja Sýslu útaf fyrir sig, en innansýslu beidist síns Prófasts fyriskipunar til Presta um, ad útgéfa hlutadegendum þessa. Sýslumadur sendi alla þá lista sínum Amtmanni, sem eptir fengna skipun frá Biskupi til Prófasta um sama, láti hlutadeganti Sýslumann' hjá Prófestum útvega naudsynleg skilríki hérum, hvørjum Amtmadur sídarmeir rádstafi til hlutadegenda, en þeßir láti þá Skírnarsedla jafnan fylgja sér sídan vandlega geymda, á ferdareisum eda þegar skipta um jardir og vistir. Framvegis ætti og sérhvørr Prestur, þegar hann skírt hefir nockurt barn, ad géfa því Skírnarsedil, og tilnefna í honum Løgheimili módurinnar (og í hvørjum hreppi þad

sé) þegar hún fæddi, hvørn sedil foreldrar barnsins eda fóstrar vandlega geymi. Ríkir og fátækir, háir og lágir ættu þenna sedil ad taka, því — hann er í fleiru enn einu tilliti gagnlegur, þegar aldur einhvørs, sem vitnis, myndugs, saka= eda þurfa=manns þarf ad sannast, en fátækt, heilsubrestur og ørvesi leggur jafnopt ad háum sem lágum, og margur er efnamadur í dag, en þurfamadur ad morgni. Fyri hvørn Skírnar-sedil ættu Prestar ad fá, ad minnsta kosti, sem fyrir vitnisburdi, 4 ß. eptir RS. 3—21—10; en annars hvad hvørr einn vill fúslega greida, en hvørr sem Sýslupassa tekur, ætti ad sýna Sýslumanni sinn Skírnarsedil, og eins húsbónda sínum, Hreppstjóra og Presti, þegar hann skiptir um sveit, sókn eda vistir.

8.) Loksins vil eg hér minnast á: í hvørju þessi fátækra framfæris regla taki ødrum, ad mér vyrdist, fram, þar eg tel hardtnær ómøgulegt ad finna þá, sem ad øllu leiti sé vandrædalaus, og undir eins sanngjarnari.

Óneitanlega hefir Fædlugar-hreppurinn af øllum hinum, bls. 93, framtøldu, ætíd verid hinn sanngjarnasti, og færstum vandrædum undirorpinn, en — þar hann vakid hefir mikid þras um framfæri barna, er lausakonur hafa í ødrum hreppum átt, og gefid tilefni til, ad óléttar konur, opt ómiskunsamlega, hafa verid hrakt-

hraktar úr einni sveit í adra og úr vistum, jafnvel giptar barnamanna og fátæklínga konur, frá bernum og heimilum, reknar þanninn í adra hreppa, ad Hreppstjóra ráti — því ecki er tilgétandi ad þetta sé skéd med vitund nockurra Presta — og þar ervidt hefir, vegna þessa Fædingarhrepps, gengid ad útvega barnamønnum jardnædi og inntøku í sveitir, og heilar ættir því mátt veslast upp í amlódaskap, einkum þar flestir, undarlega nóg, ásamt hafa haldid uppá Jónsbókar Uppfósturs-hrepp, til þess ásamt ad krefja tillag annara hreppa med ómøgum, eptir uppfósturs ára tølu, en þó sár-ervidt viljad veita þessa tiltølu ad sanna, og eptir henni tilleg til jafnadar ad innkalla, opt frá ýmsum hornum og Ømtum Lands; svo mætti nú allt þras og vandrædi, allur háski fyri blétta módur og hennar fóstur, øll ásælni, hrakníngur og hardneskja hér med verda fyrirbygd, øll mæda med flutníng ómaga á tiltølu-hrepp frá hrepp, Sýslu frá Sýslu, Amt frá Amti; allt hraknings og brevtilegs uppfósturs skadrædi umflúid. Búskapar- og Vinnu-hreppsins eins margbrevtilega óvissa í fjølda mørgum sveitum allopt, allt þras um ára-tiltølu og gagnlegheit á sérhverjum stad, og hvar hverreinn þurfamadur hafi hellst verid til gagnsmuna; vandrædin eins med innkøll-

un

un tillaga og tiltølu reiknings úr hverri sveit, og einkum, ad viþir hreppar í hallærum undirokudust, fyrir góðvild þeirra, þá ad líkna þurfamønnum, med því ad mega á eptir framfæra þessa, sem eginn rétta sveitar-ómaga, er hér med fyrirbygd, en vid Giptinga- og Getnadar-hreppsins grundvallarlausu ástædur, þarf eg ecki Módurheimilis- og 20 ára hreppinn saman ad bera. Loksins er hraknìngur veikra og ørvasa manna á rétta framfæris-hreppa, í mikilli fjarlægd, fyrirbygdur, med því ad unna þeim adsetur, á þeirra réttu framfæris-hreppa reikníng, hvar þeir seinustu 5 ár þýngslalaust, eda sem gagnsmenn, dvøldu í sveitar-félagi; en — jøfnudur ómaga-framfærisins, eptir Módur-heimilis-hreppnum, verdur þar hjá hinn sanngjarnasti fyrir allt landid, sem þarvid fær á hverjum hreppi og í hverri Sýslu til framfæris, einúngis þá, sem eptir tiltølu fólkefjøldans, lifna útaf sérhvørs hrepps og sérhvørrar Sýslu innbúum, og eptir 20 ára hreppnum auk þessa, eptir dugnadarfólks fjølda á hverjum stad, einúngis þá ad auki, sem med hefdarlaungu eda 20 ára løglegu sveitar-samfélagi, 20 eda fleiri ára búskap, vinnu og dugnadi, hafa slitid sér út til hreppsins þarfa, og ega því af

hon-

honum framfæri skilid í lasleika, fá-
tækt eda örvesi, jafnt þeirra bestu egin
hrepps-mönnum, og má þad hverrar
sveitar notagjald verda, hvörsu marga eda
fáa þvílíka dugnadar-menn hún telur.
Þanninn finnst mér medalveguriun, og til
þessa lands ástands helst heutugur geng-
inn, á medal Jónsbókar óvissu, eptir
mörgum uppfósturs- eda náúnga hrepp-
um, híngad og þángad um land, eda hins
skadvænlegasta umferdar flacks um alla
hreppa, og nýustu 'dönsku lagasetníngs-
anna, ad sá skuli þar sveitlægur, sem hann
um seinustu 3 ár dvalid hefir, sem hér
mundi ofrikis og þeirrar hardnesskju olla,
ad fátækt, útslitid fólk og gamalmenni
yrdu vída rekin úr vistum, frá búum, úr
hreppum og á sifeldann hrakníng, til ad
verda þar annara hreppa handbendi, hvar
þeim af miskun leyfdist 3gja ára dvöl,
sjúkdómur eda elli gjördi þá ecki lengur
hrakníngsfæra.

3.) Þridju Spurníngu, bls. 76, um For-
lags-eyris uppHæd af náúngum eda
utanhrepps-mönnum, hvörja þessi 22.
§. Instrúxius nefnir, er hér einnig mikill
vandi ad svara, eda fastsetja nockud vist um,
þvi bædi er sanngjarn Forlagseyrir undir
ómagans þörf, aldri, heilsufari, þjónustu og
gagnsmunum af nockurri eda engri vinnu

kom-

kominn, líka undir árferdi, matarverdi og ástandi í hvörri sveit, sumstadar ásamt undir venju og heppni þeirri eda framqvæmd, sérhvörr Hreppstjóri hefir til ad bera, ad koma ómegunum svo nidur á hentugustu stadi, med meiri eda minni medgjøf, eptir heimila ástandi, ad bædi sé ómaganum, og þeim, er hann heldur, haganlegt. Svo kann, t. d.: sá, er þarf únglings med til vika og léttirs, eda kérlingar til barnfósturs, karl til umsjónar um vertídir, vid tøluverdann péníng eda heimili sitt, ad taka sérhvad þetta í bærilegri tíd, fyrir litla þóknun, géti þad nockud til gagns unnid, en þó ecki fengid vist medgjafarlaust, þar sem annar, sem af þesshátttar fólki hefir fullnóg, er ecki íhaldinn med $\frac{1}{4}$, $\frac{1}{2}$ eda meiri hlut fulls Forlags-eyris, og sé bærilegt í ári og matbjørg næg, láta Hreppstjórar búendur leggja sjálfa tøluverdt til nockurrar medgjafar, sem þeir med hvørjum ómaga láta af hendi; en — þegar kémur til reiknings vid adra útífrá, vid framandi hreppa, vid náúnga og foreldra óekta barna, þá er Hreppstjórum um gløggvari reikníng ad gjøra, og þá verdur ástand ómagans og verulegt útsvar med honum hvar hann er, sanngjarnlega ad gjørast ad álitum. Hreppstjórum er því fyrilagt í §. 22, ad leita þarum þeirra Sýslumanns adqvæda, samqvæmt Kóngsbr. frá 11ta Apr. 1781, §. 6—7. Alkunnugt er annars, ad Jónsbókar

Frfb.

Frfb. I. kap. leggur, ad gømlu verdlagi, 3½ hundrad í fullann 1 árs Forlagseyri fyrir kárlmann, en 2½ hundr. fyrir konu, hvørt sem eru úng eda gømul, og svo reiknar Hospítals Tilskip. af 27da Maji 1746, § 14, 1 árs forlagseyrir, sem fylgja egi hvørjum ómaga á Hospítalid frá hreppi hans, því, ad 10aurar, sem Erfdat. XXII. kap. tilnefnir, heiti fullur forlagseyrir, fær hvørgi stadist. Venjulegt hefir þó verid, ad gjalda 1 hndr. í óframfærdum mat eda gyldum útgengilegum landaurum, í fullt árs forlag fullþúngs ómaga, úngbarns og ørvasa, edur handbjargar ómaga, t. d.: 12 fjórd. smjørs, tólgar eda ullar, 6 vættir fiska, eda þessa ígyldi, sem eptir landsplátzum, árferdi og hæckandi eda læckandi vøruverdi, verdur misjafnt frá 12 til 24rd. nú vídast h). Hitt er víst, ad eptir því verdi, sem geugt er í hvørju plátzi, verdur í sérhvørt sinn ad breyta, eda eptir Kapítulataxta þeim, sem Yfirvøld máské sídarmeir árlega setji um Sýslur á ymislega landaura, rétt eins reiknad og gefa mætti med vidlíkum sveitar-ómaga á hvørjum stad.

Þad

h) Svo fæst ær í medal- eda gódu ári allvída fyrir ardli hvør, ad vorlagi, og eru þá 6 í 1 hundr., en 12 rdlr. í peníngum þeirra ígyldi, þegar sá er prísinn; sama er um smjør og fisk, þegar fiskavætt selst á 2 rdli, en stundum stígur þetta miklu hærra.

Þad mætti vyrdast mjøg svo ómanneskjuslegt, ef lausar persónur legdust í lopta saman, en vørpudu sídan allri barna þeirra uppfóstrurs og framfæris byrdi af egin herdum, á hverjum náttúrau sjálf, eptir ádursøgdu, bls. 77—78, býdur þó ad hún øllu fremur hvíli, á fátækra hreppsbúa, sem fyrir nógum skyldu- og sveitar-ómøgum ødrum berjast mega. Eins og allra foreldra skylda, er þó ektabarna foreldris skyldan jøfn, ad klekja vel upp afqvæmi sínu; Tilskip. frá 14da Oktobr. 1763, nefnir hana náttúru-skyldu, og Cancelliebr. af 8da Sept. 1798 segir: ad náttúrunnar eilífa bodord og Konúngsins réttlátu løg, krefji hennar fyllingu. Þad vyrdist því optastnær óllðandi, ad ekta børn, medan hraustir og vinnufærir foreldrar ega ecki nema fyrir einu ad sjnda, nockurntíma auki Módurheimilis hrepp þess þýngsli í uppvextinum. Módurinni ætla løgin ad sønnu uppfósturs mædøuna, og gefa henni þarámót erfdarétt eptir lausaleiks barn, ásamt foreldris makt inni yfir því á medan, og Tilskipan þann 30ta Maji 1794, þarhjá rétt til ad halda sínu ekta barni hjá sér til fósturs, en skyldar fødurinn til ad gjalda henni forlagseyri þess í peníngum, býdur og, ad þó hann bjódist til ad taka þetta sitt barn til sín, og sjá fyrir uppfóstri þess, skuli þvilíku í engu gégna, þar margur sé nógu tilfinníngarlaus, til ad loka eyrunum vid náttúrunnar rødd, og bjódi

því

því þetta, sem hyllibod, til ad komast hjá út-svars skyldunni, en Tilskip. þann 14da Októbr. 1763 fyrileggur, ad sérhvørr óekta barns fadir, sem þó ecki nær arfi eptir bættleidt laus-saleiks, og aldrei eptir hörgetid barn sitt, nema med leyfi Konúngs, leggi þvi, ad minnsta kosti, helsing til uppfóstturs og forsorgunar, eptir efnum og ástandi, uns þad er fullra 10 ára. Þeßi ord: ad minnsta kosti helf-ing, gefa til kynna, ad engin ørbyrgd geti fri-ad Fødur frá fullum helsingi, því Tilskipan-in býdur og, ad Fødur-tillagid sé (þar fram-yfir) eptir efnum og ástandi. Almennast er hvørttveggja betra hjá fedrum, ad því leiti náttúran lénti þeim meiri krapta og atorku til ad ávinna med ervidi miklu meira enn qvenn-fólki; jafnvel óvalinn vinnumadur, tekur meir enn tvøfaldt kaup; til lands og sjóar eru hans atburdir tvøfaldir eda meiri; því hefir venja og sannsýni jafnast, hér í landi, gjørt þeim tvøfaldt útsvar vid Mædur, til óekta barna framfæris; en þó ad ørbyrgd, sunnur ómegd, eda annad afsaki einstakann fødur frá meiru enn helsingi, afsakar hann samt eckert frá hálfu tillagi, því Tilskip. þann 14da Októbr. 1763, býdur Yfirvøldum þetta fortakslaust af eigum eda kaupi hans ad úttaka, og Canc-celliebr. þann 2ann Maji 1789, og 30ta Maji 1795, ad þetta tillag skuli med adfør út-leggjast, og kostnadur sá, sem gengur til ad straffa þeßháttar fedur, standast af sakafallskass-

H anum,

enum, egi þeir sjálfir eckert til. Tilskip. þann 10da Dec. 1790 býdur: ad fedur óekta barna, sem ecki betala — hvert sem er af mótþróa eda efnaleysi, er sama — það uppfóstrurs tillag, sem Yfirvaldid — Sýslumadur fødursins nefnilega — eptir Kóngsbr. þann 11ta Apr. 1781, §. 6—7— metur sanngjarnt, eptir Tilskip. af 14da Okt. 1763, skuli af Yfirvaldinu setjast til ervidis i Tukt- eda Lagfæringar-húsinu, eins lengi og Tilskip. þann 6ta Dec. 1743, í § 14, tiltekur um þá, er ecki megna ad gjalda idæmdar bætur. Yfirvaldid, sem þenna ervidistíma fyrir þetta og allskonar bætur fastsetur, er hlutadegandi Amtmadur, eptir Cancelliebr. þann 1ta Októbr. 1796, med úrskurdi enn ecki dómi, og fødurskyldan med útsvarid er sem í øllu tilliti, eptir Cancelliebr. þann 21ta Apr. 1798, þó módirin giptist, uns barnid er 10 ára.

Mædur óekta barna, eda Hreppstjórar þeirra vegna, ega því ad beidast Yfirvaldsins áqvørdunar og innkøllunar af fedranna tilløgum, og hafa rétt til ad fá þetta útlagt án dóms, eptir þess úrskurdi, fyrir seinasta árid, ádur enn þær beiddust Yfirvaldsins adstodar þar med, og sídan sjálfsagt medan á því stendur og framvegis, eptir Cancelliebr. þann 23ja Júlii 1796, en sé það innistandandi fyrir lengri tíma, hafa þær einúngis persónulegt réttar tiltal til fedranna, fyrir hvád eldra er, eptir Kóngsbodi, auglýstu í Cancellie Plak. þ. 28da Okt.

Okt. 1805. Þó ber Yfirvaldinu fyrst, eptir Cancellie boðum þann 26ta Apr. og 26ta Júlii 1800, áður að reyna hvert forlíkun um útsvarið verði ecki ákomið — því þeßháttar málefni ega til Sættanefnda fyrst að leggjast — og þar að setja mædrunum svaramenn. Tilsk. þann 12ta Júlii 1799, umbreytti með hennar 1 og 7 §§., Tukthúß-erviðinu í anka-erviði við Festíngar, járnalaust, og áttu 15 ß. að reiknast þar koma á hvers dags erviði, þaraf 8 ß. fyrir fæði, en 7 ß. uppí bætur eða vantandi tillag, en — þar sú Tilskipan er fyrir Norveg en ecki Ísland, og Kóngsbr. þann 21ta Júlii 1808, í §. 9, tiltekur, að hér skuli bætur og tilløg, eptir Sýslumannsins fyrisögn, þá annað brestur til útsvars, vinnast af með opinberri hentugri vinnu, eða fyrir aðra, sem þeir sekufinnast hæfir til, en Amtmaður faststetji þeirra saungjørnu daglaun, sem nú vissulega um bjargræðistíma ecki verða minni hér, enn 2 eða 3 mørk daglega, fyrir gagnlega vinnu, hvaraf helsíngur sé fyrir fæðið, en hinn reiknist uppí bæturnar eða tillegin, svo er nú þetta løgmál fyrst um sinn hér gyldandi um þeßi tilløg og bætur.

Eg hefi enn einni athugasemd að bæta hér við, nefnilega: áðurtalin (bls. 112) hér gyldandi Tilskipan frá 30ta Maji 1794, um rétt mædranna að uppfóstra børnin, og hennar boðorð, ecki að gégna feðranna tilboði, að taka þau til sín til forsorgunar, vill opt

aukå hêr vandrædi stór î eptirbrêytni, þvî marg-reynt er, ad lausakonur med børnum fâ trauda-lega vist, og mørg þvílík módir er opt ecki meir enn matvinníngur; fedur, sem gagnlegri menn, og sem taka meir enn tvøfaldt kaup, fâ þad þó heldur sumstadar, kunna og optar ad vera vid bú og gêta barn sitt tekid, hvad er þá hêr til râda? Mêr virdist ad þessa lands âsigkomulag opt gjøri hêr undantekníngu nauda-synlega, þegar Prestur og Hreppstjóri gjørla sjá, ad barninu, uppá uppfóstur, sê eins vel borgid hjá fødur og módur, og hón vart edur ecki fær þad sjálf vel eda for-svaranlega uppfóstrad; en alla þâ tíd, sem nockur útsjón er til, ad hún sjálf gêti þad, og hjá sêr sjálfri haft, ættu menn ad minn-ast, ad eckert fóstur jafnast vid gódrar mód-ur nâqvæmni og âst til sins afqvæmis, sem reynslan sýnir af nâttúrunni inngêfid mønn-um og mállevsíngjum, hvarsvegna børn mega ecki frá mædrum á medan takast, heldur fedranna tilløg innkallast og afhendast þeim til barnsins forsorgunar. Á þessari saun-færíngu og sjálfri náttúrunni, er þvî Løggjaf-arans ahuefnt bodord byggt, samqvæmt NL. 3—19—17, sem álltur børn á únga aldri, til fullra 7 ára, ecki mega módur-hjúkrun-ar án vera, eda ad þessum smælíngjum fyrr sê frá mædrum færandi.

Ad lyktum vil eg, î tilliti til nidurlags þessa 22 §. Instrúxins, um vinnukonur, sem

ólettar koma í vist, og haldast samt viku lengur eptir þad þetta er vitanlegt, gèta þess: ad eins og þad í raun rèttri flýtur af þeim samníngi, sem húsbændur og hjú sín á milli gjøra, um þessara dyggva og dugleþa þjónustu, hinum til gagns, fyrir venjulegt kaup og kost, ad hjúid sè þá vel vinnufært, svo hefir sú vinnukona sjálfviljuglega látid sig galla og gjøra lítt vinnu- og vistar-færa, sem kémur ólètt í vist, hafi hún leynt sína tilkomanda húsbónda þessum galla, og dregid þar med ad honum svik, hvørsvegna hann ecki vyrdist skyldugur ad fylla sitt loford vid þad hjú, sem hefir þanninn táldregid hann, og er ecki fært um, vegna sjálfskapar víta, ad fylla skyldu sína med vinnu, eda ødru, vid hann. Auk þessa gjørir Plakat um vinnuhjú, þann 3ja Dec. 1755, í §. 16 og 22, ràd fyrir: ad qvennfólk, þeßháttar galla og veikleika vegna, verdi rekid úr vistum, en vill ad húsbændur tilkynni Yfirvaldinu, nær þeir finni sig orsakada til, ad vísa hjúum burt úr vist, vegna ódygdar, illdilegheita, ofdryckju, hortugheita, eda annara grófra yfirsjóna, hvar med NL. 3 — 21 — 1 ecki er ósamqvæmur; en til burtvísunar ólèttra qvenna úr hrepp, hvar þeirra løgheimili eru, hafa Hreppstjórar aldrei neina laga stydlu, enn sídur rètt. Svo ad nú húsbændur ecki nýti sèr þessara qvenna vinnu, medan verkfærar eru, um bestu bjargrædistíd, og vísi þeim sídan undir eda um vet-

ut burt á hreppa forlagslaust, skyldast þeir, sem vita þenna galla viku lengur, og vísa vinnukonum ecki fyrir það frá, ad halda þær til reglulegs hjúaskildaga, og álítast med vísvitandi haldi ólèttra qvenna í vist viku eda lengur, ad hafa affalad sèr rèttinn ad reka þær úr vist, vegna þeßháttar galla.

## §. 23. Vsf. 18 — 19.

Vegna þess, ad efnamenn og adrir búendur hjá hvörjum ómagar eru nidursettir, flytja opt bygd sína í Fardøgum, en nýir koma aptur, og nýir ómagar kunna ad bætast, hvar vid ómagahald og nidurseta breytist vor og haust, er rètt og þénanlegt, ad Prestar og Hreppstjórar setji ecki ómaga lengur nidur í senn, enn frá Veturnóttum til Fardaga á haustin, ad lidinni Hreppastefnu, og í Fardøgum aptur, frá þeim til Veturnótta, og haldi þar til hentugar Samkomur; þar med fyribyggist og, ad ómagaforlag hjá óspilsømum eda þurfandi búendum, eydist gjørvallt í ótíma, ef afhendtur væri allt í einu á haustum heill ársfordi. Ské mætti og, ad í bærilegu ári yrdi hreppunum ómagá forlags útsvarid ecki svo dýrt med sèrhvørjum, um sumar- sem um vetrar-tímann; en — ad Hreppstjórar á haustum þó taki út og geymi- sèrhvørs árs tillag., medan byrgdir manna eru beztar, held eg fyrir þad rádlegast. Innihald tilvísadra Lagagreina, set eg hèr

ad

ad nedan i). Eg hefi ádur, bls. 32, 35, og 115—16, bendt til þess, ad einúngis í vand-

H 4 ræd-

i) Húsaga Tilskip. af 3ja Júnii 1746, býdur í §. 6: ad bæir, sem liggja mjøg fjærri kirkju, svo ad vatnsføll eda vetrar hardindi banni fólki þadan hana opt ad sækja, byggist ødrum framar læsum og fullvedja mønnum, og ad Prestur og Hreppstjóri ali ønn fyrir, ad læs madur se tekinn í vist þángad, hvar enginn er læs. §. 9.) Eins og børn'ega strax í'úngdæmi ad leidast til naudsynlegrar þeckíngar í kristinndómi, til Guds ótta, dygda og sidgædis, ega þau ad venjast á vaxandi ervidisvinnu, med vaxandi orku og áratølu; ecki alast upp í leti, sjálfrædi og íllu einu, heldur nema ærlegt handverk, sem tidkast í landinu, ser til fósturs og forsorgunar. Leggi foreldrar (eda húsbændur) ecki alúd á þessa skyldurækt vid børn, eptir áminníngu af Presti og Hreppstjóra, taki Hreppstjórar børn frá þeim foreldrum, þá 10 eda 12 ára gømul eru, og setji um árstíma eda lengur til rádvands og starfsams bónda í sókninni, sem haldi þeim til ad læra vinnu, en Hreppstjórinn á ad láta foreldrana borga þeim sama uppeldid á medan, eai þeir nockud til, annars gjaldist þad af Sveitarkassanum, en foreldrar, sem þanninn tjá sig Presti og Hreppstjóra þverbrotna, straffist ad auki med Gapastocki, eda enn þýngra straffi (nú er þad Hýding, eptir Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, §. 7.). Børnum og hjúum

mega

rædum sín børn takandi frá foreldrum, og setjandi nidur annarstadar, hér hefi eg nú til- fært

mega foreldrar og húsbændur enganvegium lída, ad mótmæla verkum, eda eptir egin høfdi og þótta ad framqvæma nockurn hlut; mót þeirra yfirbodara vilja, heldur halda þeim til strax ad hlýda því sem bodid er, og eins og þeim er fyrilagt, en láti þau sæta straffi ella. §. 14.) Forakti børn eda hjú foreldra eda yfirbodara áminningar, og haldi fram í leti eda þvermódsku, klagi Hreppstjóri þau fyrir Sýslumanni, sem eptir málavøxtum dæmir seka í Gapastock (nú ad hýdast) eda Tukthús, og børn jafnvel arflaus.

Tilskipan þann 27da Maji 1746, um Húsvitjun, býdur í §. 17.: Prestarinn haldi foreldrum og húsbændum til ad kenna børnum kristinndóm, hvarfrá engin affakan med vinnuþorfum má heyrast; og útvegi þeir, er efni tilhafa, þeim kennslu fyrir betaling, ef eckí siálfir kiennt gieta, en Sýslumadur og Hreppstjóri umanníst hid sama á vrega og sveitarómaga tilliti, og hafi ásamt Presti og Medhjálpurum, tillit med allra únglínga uppfrædingu. Secktast hyrdulausir og í þessu þverbrotnir foreldrar og húsbændur um 4 mørk dønsk (68 ß., þar kúrant myndt var þá ecki geng hier) til sveitar, (en Yfirvøld, sem draga ad innkrefja þær bætur, eda siá ígegnum fingur vid þá seku, sektast 2 rdli til sveitar hvørn mánnd fyrsta árid,

annad

fært Húsaga Tilskip. §. 9, sem ecki vill þad sé gjørt medan þau eru mjøg úng, og mega ecki



annad árid tvøfaldt, þridja sinni vardar þad afsetníngu frá embætti, eptir §. 22). Se bóklæst vinnuhjú svo íllviljad, ecki ad vilja daglegann húslestur lesa, eda fyrir børnum, áminnist þad af Prestinum í áheyrn Medhjálpara, og gagni þad ecki, láti Hreppstjóri þad í Gapastock setja (þad er nú hýda eptir dómi). Tregdist barn vid ad læra, og akti ecki aga eda áminníngu, eda foreldrar (og húsbændur) forsómi þetta, ávitist þeir sku alvarlega af Prestinum í áheyrn Medhjálpara.

Kóngsbr. þann 2ann Júlii 1790, skipar í §. 2.: Forsómi foreldrar (eda húsbændur, eptir §. 3. og 6.) ad byrja med lestrarkennslu á børnum, ádur þau seu fullra 5 ára, áminnist þeir þarum nockrumsinnum af Prestinum; en vanrækist þad, uns þau eru 7 vetra, sektar Sýslumadur þá med fiebótum til sømu sveitar. §. 4.) Hvørt barn skal byrja ad læra (Lærdómsbókina) ádur enn þad fer á 10da ár. Foreldrar og húsbændur, sem þá kennslu forsóma, sektist 4 mørkum til sømu sveitar. §. 6.) Forsómi foreldrar eda húsbændur uppfrædíng barna, takist þau frá þeim, þó ecki (nema í einstøkum og serlegum tilfellum) án sambyckis foreldra, og setjist á betri stadi til kennslu, en þeir, sem uppfrædíngu þeirra forsómad hafa, gjaldi, auk fyrrtjedra bóta, kennslu

eptir N8. 3 — 19 — 17, Móður-hjálpar án vera, það er: til 7 ára alders, líka Köngsbr. þann 2ann Júlii 1790, §. 6, sem vottar hid sama, og ad í samburdi vid hennar §. 2, yngra barn enn 7 vetra, ef fóstur og þrifn: ad ecki því meira ábrestur, sjaldan frá foreldrum takandi, því þegar kénnsla úr því vanrækist, vill sú grein fyrst áleggja bætur, og hin 6ta, ad børn þá takist burt, þó hellst med foreldra sámþycki, og varla nema í stórvandrædum. Þeßi 23dji §. Instrúxins leggur Hreppstjórum annars fyrir athugaverdustu reglur um hald ómaga og stadi hentuga, er þeim veljast þurfa til nidursetu, eptir þørfum og ástandi, en æ er þeim radlegast, medan naudsyn ecki

kostnadinn. §. 8.) Forsómi Prestar skyldu sína vid (umsjón um) þetta, bæti eptir málavøxtum og Biskupsins fyrisøgn, frá 64 ß. til 2 rdla, til fátækra Presta eckna. §. 9.) Sømuleidis bætir Prestur í 1ta sinni 2 rdl, 2ru sinni tvøfoldu, 3ja sinni þrefoldu til fátækra Presta eckna, en 4da sinni løgsækist til Prófasts Rettar til Embættis tjóns, stadfesti (konfirmeri) hann nockurt ólæst eda illa stantandi barn, án Biskups leyfis. En nægilegur lestur heitir þad, geti barnid vandrædalaust og skilmerkilega lesid hvørja prentada lestrabók á landsins túngu, þó ecki sen erviduslu klausur þeirra tilteknar, er olla mega fullordnum almúgamønnum vandræda (sjá framar bls. 32, 35, og 115-16).

ecki annad krefur, ad halda foreldrum og börnum saman. en barni úngu, hvört heldur ekta edur óékta, sem lengst verdur hjá módur. Þad eru Náttúrunnar heilrædi og Lag-anna vilji, sem reynslan sýnir vídast affarabest. Reglugjörd þann 17da Júlii 1782, býdur i §. 6: ad Prestar fái hellst þau börn i nidursetur, sem uppfrædíngar vidþurfi, þar þeir ecki géti frlast vid sveitarómaga hald, sem leg þó um Ríkin annarstadar skjaldan ætla Embættismönnum, heldur frívilјugt útsvar i peníngum (sjá bls. 74—75), sem þó ecki gjörist þeimhærra enn 10 rdlr, verdi frívilјugt tillag þeirra: óþockalegra efnum eda ástandi.

Sú útleggíng, sem seinni hluti þessarar 23 greinar gjörir, um brúkun hrossakjöts til ómaga framfæris í sveitum, eptir Kóngsleyfi, þann 21ta Júlii 1808, er bygd á sannsýni og gemlum og nýum reksemdum. Sannsgjarnt er þad, ad menn láti munadarleysíngjann og þurfamanninn, sem eptir samfélagsskyldunni er tekinn til forsorgunar med oss, vegna þess hann ecki orkar ad forsorga sig sjálfur, njóta alls góds og venjulegs uppeldis og adbúnadar, med edru verka- og heimilis-fólki, og lifa annadhvört vid algenga góda, eda vid þá somu fædu, sem annad almúgafólk þar á bæ, eptir efnum og ástandi bjargast vid, því önnur medferd á nidursetnum er ómannleg og ósæmandi, og eins ad bjóda hrossakjöt í ómaga forlagseyrir, þá önnur björg eda úrrædi eru,

en

en ad skamta þá fædu forsvarslausum ómögum einum, sem adrir á bænum fyrirlíta, er jafn fúlmannlegt. Hvad hrossakjøts át yfir høfud ad segja áhrærir, þá var þad í heidni algeng fæda á búi, en þó hellst medal fátækari almúga, og í hallærum og húngri. Þad hafa hálærdir menn á undan mér sýnt k), og ad

k) Sjá Biskups Doctr. Hannesar Finnssonar Rit, um Mannfækkun af hallærum, í ens konúngl. ísl. Lærdóms. Fel. Rit. XIV. B. bls. 125, nótu 224, hvar hrossakjøts átsins søgu ágrip hiedan frá landi finnst ad nockru leiti: Hrossakjøt var, eptir því, almennt etid í heidni, og þókti gott búsílag, en eptir þad kristni tókst, og eins eptir Sidaskiptin, þókti þess át megnt Kristnispell, og var hardlega straffad eptir Kristinnrétti forna og nýa. Árid 1596 var gjørd Alþíngis Samþyckt, ad 3gja merka sekt og húdlát skyldi liggja vid naudsynjalausu hrossakjøts áti. 1646 þ. 27da Agúst, hieldt Biskup Mag. Brynjólfur Sveinsson Prestastefnu um þad, á Melum í Borgarfirdi, ad Olafur Prestur Bødvarsson á Saurbæ á Hvalfjardarstrønd fór med hrossakjøt til agns á dýraboga, og lá honum vid Embættis tjóni þar fyrir. Jafnadarlegast var hrossakjøts át straffad seinna med opinberri leysingu, og burtvísun úr kórsætum. Biskup Dr. Finnur Jóns-

ád svo ágætt og leyfilegt frelsis medal sem þád sé, til þá ad fyrirbyggja mannfall og horðauda, svo varengdarsamlega sé annars til þess almennu brúkunar til fædis ad þarfkausu, eda í gódum og

Jónsson ljet útgánga Synodal Samþyckt 1760, ad þess át væri óhæfa í kristilegri kirkju, og ætti, þegar naudsynjalaust væri, ad straffast med opinberri áminníngu, sídan med Gapastockt vid messugjørd, en hjálpadi þad ecki, tilkynnast veraldlegu valdi, eptir Tilskip. af 3ja Maji 1650. Í útkomnu Riti 1807, sæmdu med ens konúngl. danska Vísinda Fjelags Sylfur Minnispeníngi (Medallíu) í verdlaun, hefir Doctr. og Sekreteri Werlauff, undir Titlinum: Historiske Efterretninger om Hestekjøds Brug til Menneske Føde i Norden, i ældre og nyere Tider, sýnt, ad hrossakjøts áts er í søgunum lítid getid sídan kristni tóksi hjer á landi, og færir til þess hálærda Jústitzráds Thorlacii meiníngu, bls. 9, „ad hrossakjøt hafi einúngis hjer á landi etid „verid af fátækum almúga, og í hungurs„naud, því í greinilegum fråsøgnum stórveitslna „Islendinga, sem opt fyrirkomi í Søgum, se „þad aldrei á nafn nefnt, eda med rettum talid." Af Eyrbyggja og Vígaskútu Søgum, Kap. XVIII, leidir Dr. Werlauff og røk til þess, ad fá-

og bærilegum árum hvetjandi. Hafi nú hrossa-kjöt ecki verid etid í heidni, nema af þeim fá-tækari almúga, og helst í hallærum, en aldrej án þessara etnir brúkunar klárar, og enn sídur mögur, sjálfdaud eda horfallin hesta-hræ, heldur ad eins úng og fæl stodu-hross; hafi hrossakjöts át, sídan kristnibodid, verid í forakti og vidbjód, og sé þad vída enn; hafi þad annarstadar um Nordurálfuna einúngis í húngurstíd verid til matar haft, og sé þad nú hér um Ríkin einkanlega af hallæri og dýrtíd, sem þúngbært strid nú af sér leidir, vegna tepptra adflutnínga, valid sem ófyrirlítandi og opt naudsynlegt frelsis-medal fátækra, og þó vidhöfd sú varúd utanlands, ad vitrir og greindir menn, jafnvel Dýralæknar, séu ádur látnir granskoda og audkénna sérhvört slátur-hross, og állta hvört kjöt þess muni óhollt til fædis, ádur enn seljast megi eda til matar hafa, t. d. í Kaupmannahöfn, hvar Konúngur vor, vegna dýrtídar og báginda fátæks fólks nú, á medan stríd-id stendur, þann 20ta Maji og 1ta Sept. 1808, eins og hér á landi af sömu orsök, þann 21ta Júlii sama ár, leyfdi hrossakjöts brúkun fá-tækum almúga, og fyrir bjargþrotamenn og saka-

fátækir hafi hellst brúkad þad, og einúngis slátrad stódhrossum, en aldrei brúkunar eda púlshestum nema í megnri húngurs naud. (Sjá Olafs Sögu Tryggvasonar II. P. bls. 234. prentada í Skálholti.)

sakafólk, eins og þar segir: í núverandi Erfingaumstæðum, hvørjar Instrúxið, í §. 23, greinilega útleggur bls. 19, og telur til þess stríð og ræppta aðfluttninga, sem ætíð eru hér óttaleg tilfelli fyrir lif manna, eða megn hallæri nú og síðar, í hvørjum skyldt er að viðhafa øll frelsis meðøl, sem ætileg eru — þá held eg af øllu þessu auðráðið, að ómagar einir ecki egi að fæðast á hrossakjøti, heldur ásamt øðru heimilisfólki, hvar bjargarskortur er, en það ecki bjóðust í sveita tilløg, nema ecki sé ønnur matbjørg til, og þá vyrðist sanngjarnast, að sá, sem því þarf otar fram, taki sjálfur ómaga á þetta tillag, brúki hann hrossakjøt til heimilis forsorgunar, enn egi, sem fyrr segir, ecki að fæða niðursetning sinn einann þar með. Með þessu er samqvæm Stipts Auglýsing frá 18da Sept. 1809 hérum, sem bendir til þessa meðals, sem að sønnu jafnan saklauss, en í harðindum einka dýrmæts bjargar meðals, sem þá ecki megi fyrirlíta, "þar fyrsta skylda manneins "sé, að bjarga egin og annara lífi, með øllu "leyfilegu og góðu móti. en ecki að deya úr"ræðalaus í ómennsku og sinnuleysi." Eins og þar segir: "þá neyð aðrekur, nauðsyn eða "ástand býður eða leyfir," og eins og Instrúxins §. 24 fyrirmælir, í sérlegum uppáfallandi sveitar-vandræðum, eða þá almennt hallæri og óár yfirgánga; ega þá Hreppstjórar að áhýsa fátæklinga til, að nýta sparsamlega og þrifalega þetta, þá einkum dýrmæta og

góða

góda freistsmedal fyrir heimili sín, og ásamt þeim fyrir sveitar-ómaga, en ecki ella, og þarvid, eptir megulegleikum, tilsjá, ad þurfamenn ecki leggi sér sjálfdaud, veik eda horfallin hross og þeirra hræ, eda þetta kjøt úldid og gamalt mjøg eda illa verkad, til fædis, hvaraf leida mætti Sóttir í bygdum, heldur hvar sallt og slát, sem vídarst er, bresta til þess vardveitslu, stundi, ad bodi Konúngs, ad verka og þurka hvad geymast þarf sem best á Færeyínga hátt, sem nýlega er á prenti sýndur, eda á vetrum, þá þessa hellst vidþarf, grafa þad nidur djúpt í snjóskafla, í hverjum þad hálf missiri má óskemmt vardveita. Reykíngu hrossakjøts til vardveitslu, tel eg litlu hollari, enn ad eta þad úldid. Frekar ad mæla fram med hrossakjøts áti, álít eg ísjárverdt, vegna reyndrar óhóffsemis, sódahattar og ómennsku fleiri manna enn færri, sem í þad leggjast, og ótta fyrir ófridhelgi þessara, oss til adrátta, ómissanlegu vinnudýra, hverjum óframsýni og grædgi margra annars mundi, til markverdari bjargræda hneckirs, ofmjøg brádlega fæcka, ofaná þad, sem venjuleg vanhøld og þúngir vetrar fella þau opt og margvíða.

Ad hrossakjøts át í sjálfu sér sé eldúngis saklaust, og kristinndómi alls eckert gagnstædt, er befandi l), en ad þess naudsynjalaust át almennt

---

l) Í áminnstu Riti bríxlar Dr. Werlauff þó Geistlegum þúnglega, bls. 14-16, fyrir fordóma þeirra

mennt og frekt, sjárverdum afleidíngum undirorpid, er mín trú, bygd á reynslu.

§. 24. Bls. 19—20.

Eg hefi, í Utskríngu þeirra 12, 13 og 14 §§., getid þess mest árídandi um þeirra innihald, og vil þad hér ecki aptur itreka, heldur vísa til hennar, einkum bls. 29—32, og í tilliti til födurlausra peníngs, til bls. 39—41. Í útskíríngu §. 21, hefi eg undir bókstafnum c) bls. 73. sýnt, hvørsu Løg ætli til ad Prestar, sem ásamt Hreppstjórum, eru fátækra Forstjórar, leggi alúd á ad samverka þessum, til ad afletta sveitar vandrædum, en hér er nú sýnt, ad þetta megi ecki gjørast med Betlibréfum, hvørki af Presti né Hreppstjóra, þó eg, bls. 73—75, sýnt hafi, ad af Prédikunarstólum og ødruvísi egi Prestar, til hjálpræðis ødrum, ad uppørfa og áminna fólk ydduglega, og læt eg nú nægja, vid grein þessa, ad setja innihald tilvísadra Laga hér ad nedan m).

I §. 25.

---

mót hrossakjøts áti, og forbodum jafnvel í hallærum, þá fólk hafi dáid (sem var óheyrilegt), og færir til Eggerts Fyrilsgmanns og Bjarna Landslæknis Ferdasøgu, bls. 701, og Magnúsar Sýslumanns Ketilssonar og Gunnars Prófasts Pálssonar strid um þetta, med fl.

m) Tilskip. um Húsaga, þann 3ja Júníi 1746, bjódur í §. 32; Hvar bjargarskortur er framar í einhvørri-

§. 25. Blſ. 20—21.

Samqvæmt Tilſkip. þann 22aun Apr. 1772, §. 5, hefir Konúngur, þann 29da Aug. 1798, hvad

ſveit enn annari, ranſaki Hreppſtjóri vor og hauſt, og ſvo opt honum gefſt færi á, hvört orſökin er ecki bændanna eda hjúanna leti og hyrduleyſi vid ródur, ſlátt eda annad, og áminni ſídan þá ſeku til umbótar. Hann ſe og í útvegum um ull, ljósmeti og annad naudſynlegt hjá þeim efnugri, fyrir vinnu eda ſanngjarnt verd, handa fátækum, ſem eckert hafa á vetrum ad vinna. Hlydi þvílikir fátækir bændur, og konur þeirra, ecki Hreppſtjórans áminníngu góðviljuglega, eda ſóni þeim vinnu ſina og heimilisfaung, átti Hreppſtjóri ákjærulauſt ad opna hús þeirra og hyrdſlur (en nú varla, ſídan Tilſkipan 27da Decemb. 1799 útkom, ſjá nótu blſ. 63), en þeir ſeku áttu ad ſtraffaſt fyrir þrjótſku, ſá fátæki med Gapaſtocki (nú med Hýdíngu, eptir Kóngs br. af 25ta Júlii 1808), en betur megandi áttu í hvört ſinn þeir forøktudu og mótviljuglega forſmádu Hreppſtjóra løglegar ſkipanir, ad bæta hálfri mørk, eda 1 rdl ſpecie, ⅔ þaraf til ſveitar, en ⅓ á Hreppſtjórinn.

Kóngsbr. þann 10da Martii 1784 ſegir: Sá 34 Art. í Tilſkip. af 3ja Júnii 1746, ſkal vera aftekinn, og enginn Paßi eda vitnisburdur hjereptir mega útgefaſt af Hreppſtjórum, betlurum eda

hvad auglýst er með Cancellie Plakati af 14da Sept. s. á., heitið fimm dønskum Dúkøtum (10 rdlm), eða, ef nockurr það heldur gyrnist,

J 2 jafn-

ödrum, heldur einúngis af Sýslumanni og Presti, eptir Kóngsbr. þann 11ta Apr. 1781. Hittist Betlari með Hreppstjóra Attest og Passa, álítist það, í betlarans tilliti, sem óskráð og marklaust, en Attestið takist frá honum, af hvörjum sem það sjer, og færist næsta Yfirvaldi, sem tafarlaust sendi það Amtmanni, hvörr strax skipi Sýslumanni Hrepp-stjórans að sekta þenna, án frekari lögsóknar, um 3 mörk til sveitar þar, sem Attestið er tekið, og þau að úttaka; en með betlarann skal höndla að Løgum (sjá §. 47).

N. 2 — 11 — 4 segir: Prestar mega eckert (bref um) hjálp fyrir eldsvoða eða betlibref útgefa nockrum, heldur að eins frásckírslu til Yfirvaldsins, um þörf þeirra og bágindi. Annars segja Tilskip. þann 2ann Dec. 1741, kap. 6. §. 7, og 5ta Maji 1786, kap. 5. §. 8, Prestum, sem í betlibrefum mæla fram með nockrum við Sókn, arfólk, 4rdla sekt á hendur í hvört sinn; og Tilskipan fyrir Island, um Skriftastól og Altarisgaungu, frá 27da Maji 1746, í §. 5,: Enginn Prestur má hjer eptir dyrfast betlibref að útgefa eða uppáskrifa.

Kóngs-

jafndhrum Minnispeníngi til verdlauna, frelsi nockurr þann, sem drucknadur vyrdist, eda líf hans úr háska med hjálp sinni. Þó hér eginlega sé tilnefnd drucknan, er þó konúngleg mildi von ad gefa sømu eda vidlík, og á stundum stærri verdlaun fyrir bjørgun fólks, úr annars óumflyanlegum lífsháska, einninn í ødrum tilfellum.

Skipbrotsmenn, hvørt heldur innlendir eda framandi, vinir eda óvinir, kresja, eptir mannedlisins rétti, allra sidadra þjóda sérlega miskun og adstod. Varla má verra nídíngsog svídíngs-hjarta finna, enn þeirra, sem vid naud þvílíkra eru tilfinníngarlausir, sem steinar. Sjálf legin leggja lánghardast straff vid þjófnad, áseilni og miskunarleysi vid þessar volndu mann-

---

Kóngsbr. um Passa, þann 11ta Apr. 1781, býdur: Enginn Prestur má gefa nockurri karlmanns- eda qvenn-persónu nockurn vitnisburd, nema Sýslumadur fyrst hafi undir hendi sinni og signeti gefid þeirri sømu fararleyfi, med tilefni þess, og þar med skriflega ósk Sóknarprestsins vitnisburdar, sem þá teiknist undir þessa hendi og signeti strax nedanvid og á sama pappír. Gefi nockurr Prestur út vitnisburd án Sýslumanns vitundar, bæti fyrir þad 1 rdl til nærsta Hospítals. Sama skilyrdi og sekt er vidløgd, skrifi Prestur uppá vitnisburd þess, er víkur til baka eptir nockra dvøl í sókn hans, hafi Sýslumadur ecki fyrst uppáskrifad.

manneskjur. Veri því skip ad landi og sé í háska-stadt, stórt eda smátt, bát eda hafskip, á Hreppstjóri þeirrar sveitar ad þeckja þad skyldu sína og sóma, ad vera þá duglegur Forgaungumadur, því og þess mennum til frelsis, því og þess farmi til bjørgunar og vardveitslu. Þad er beint eptir bodum hér auglýstrar og gyldandi Tilskipúnar frá 21ta Marts 1705 n),

J 3 sem

n) §. 14.) Svo ad áráfir, rán og þjofnadur frá Skipbrotsmønnum því heldur fyrirbyggist, og þeßir vesælingar fái jøfnud fyrir hvad þeir missa med svo óløglegu móti, skulu Amtmenn, etc. Fógetar (Sýslumenn), Reka-forpaktarar, Hreppstjórar vid sjó og allir adrir, sem vid sjóarsídu ega nockud ad sýsla, og hvørr jardegandi í Kóngsins Løndum og Ríkjum, sem ega med jardir eda reka vid sjó, stráungt og alvarlega bjóda bændum sínum og þjónum, ad halda sér frá øllu, sem gagnstædt er þessari Tilskipun, undir straff eptir henni, og þarmed hafa skarpa tilsjón; því verdi nockurr-skipbrotsmadur rændur eigum, eda illa medfarinn, og þad dyljist svo, ad illrædismennirnir ecki strax opinberist, skal hans bevísanlegi skadi þarvid og ill medferd, af Yfirvøldunum skiptast til jafnadar bóta á alla þá, sem þar í sveit búa, hvørt heldur í kaupstad eda ecki, hvar þvílík spivyrda framser, og enginn bóndi eda þjón, hærri eda lægri

undan-

sem segir þad samqvæmt Guds, Náttúrunnar og Konúngsins Løgum.

Þess

umdaustkiljast í 2gja mílna vídáttu hvørn veginn við strandada skipid, og 1 mílu á land upp, en þeßir sæki aptur rett og adgáng sinn løglega til hlutadegenda, sem þeir best vita og kunna. §. 17.) Enginn, sem Embættis vegna hefir ad fyrirskipa, má hafa hlutdeild í þvílíks Reka forpaktningum, eda kaupi á strøndudu skipi og góßi, helldur skipast honum, ad audsýna skipbrotsmønnum alla møguliga hjálp og adstod, vísa þeim á hentugt pláß og læst geymsluhús, til vel ad vardveita þad, sem bjargast, og mega nálæg kirknalopt þartil brúkast. Hvørr Bóndi, sem af skipbrotsmanni (Skipherra) verdur advaradur um strøndunina, eda sjálfur verdur vid sama var, skal, án þess ad bjóda løglega afbøtun, eda fyribera forføll, hvør hellst sem eru, undir búslódar mißir, eda hardt líkamlegt straff, strax auglýsa skipbrotid fyrir þeim nærsta Konúnglegum Embættis-manni eda Lódarinnar eganda, hvørt sem hann á þar reka eda ecki, hvørr konúnglegur Embættismadur eda Lódaregandi þá, skal strax láta setja svo gylda vaktara nótt og dag med sjónum, hvar skipid er fyrir framan, af sóknarbændum, án mannamuns, sem hann vill fyrisvara, og safni auk þessa nálægra sókna mønnum saman, af hvørjum Farmadur (Skipherrann)

velji

Þess er þó samt ad gjæta fyrir Hrepp-stjóra og adra hlutadegendur, ad á stridstímum kann máské fyrirbodid vera, undir lífs eda annad stórkostlegt straff, ad leggja út til óvina skipa, eda leida þau inn á hafnir, og verdur þá Tilskipan þann 5ta Júlii 1808, hér ásamt



---

velji svo marga hann heldur vidþurfa til ad bjarga góßinu. Þeir fái bjarglaun, eptir samkomulagi vid Skipherrann, en ef þeir krefja ósanngjarnt og ecfert verdur samid fyrirfram, bjargi þeir samt, en Yfirvaldid skal sídan ágvarda bjarglaunin, eptir hættu og erfidismunum. Fyrir skip og báta til flutnínga og bjorgunar, betalist ad auki sanngjarnlega. Med þeßháttar bjorgun hafi Hreppstjórar góda tilsjón, ad allt fari loglega og kristilega fram. (Hvad framar hier til hlýdir, tilkynnir hlutadegandi Yfirvald, og sektir, en þessar bjorgunar reglur, vórn þær fyrstu, sem Hreppstjóra fyrirfram er árídandi og í brád ad vita.) §. 21.) Annars skulu allir þegnar Konúngs yfir höfud ad segja, sem búa vid sjó, ecki einúngis vid þvílík ógæfu tilfelli, siálfir hjálpa skipbrotsmonnum, og tjá þeim alla mogulega adstod og velvild, heldur og alvarlega halda bændum og hjúum sínum til ens sama, án þess ad útkúga af hinum, eda heimta neitt af neinum, framyfir þad, sem log leyfa þeim í sanngjorn bjarglaun.]

reglan o), ad því leiti hún verdur hér heimfærd, og med tilliti til vors varnarleysis, og meiri

o) Hún fyrirsegir hvørsu breyta skuli, þegar Fjandmanna skip stranda, og med bjørgun þeirra skipa, sem yfirgefast eda landsetjast, til þess ad komast úr herskøndum. Hún býdur í §. 1.) Sjóarbændur, hvar þetta skedur, hjálpist ad med bátum þeirra, ad koma þessum adrekandi eda landsettu skipum og gózi undan óvina valdi, og njóti til verdlauna sanngjarns hluta af verdi þess, sem biargast. §. 5.) Hvørr sem verdur var vid því líkt skip í hafsnaud, eda óvina háska, á strax ad gefa þad bygdarinnar Formanni (Hreppstjóra) til kynna, svo þessi fái tóm ad yfirvega, hvad eptir ásigkomulagi se til bragds takandi, eda hvørt fleiri bygda menn þurfi ad tilkallast. §. 6.) Se skipi siglt á grynníngar, og þad yfirgefid af fólki, eda reki þad mannalaust ad landi, og sjá megi þad se ádur ofurselt þess egin forløgum, ali Hreppstjóri enn fyrir, ad øllum bátum og skipum, sem mounud verda, sem skjótast se á sjó hrundid, til þess ad bjarga því til lands úr skipinu, sem verdur, og seu Fjandmenn í náud, fordast ad nockud af skipi eda gózi falli í þeirra hendur. §. 7.) Se fólk um bord, og þad reynist vinsamlegra þjóda eda Konúngs þegna skip, skal því tafarlaust hjálpa sem

meiri eda minni megnlegleika eda skyldu, eptir åsigkomulagi og Yfirvaldsins fyriskipun, ad



sem best verdur, og skal skipsfólkid, á medan á björguninni stendur, öldúngis haga ser eptir bjargvætta Formannsins fyrisögn. §. 8.) Reynist þad Fjandmanna skip, — og þad svo nálægt landi komid, ad koll úr landi eda af útsendum båtum heyrist, se skipsfólkinu alvarlega tilhaldid, ad yfirgefa skipid, og koma vopnlaust í land, vilji þad ecki, eptir strångasta Strídsretti verda medhöndlad. §. 9.) Formadurinn láti ser annast um, ad ná Skipsskjölunum og bókum, sem í vardveitslu finnast, og ad greuslast eptir nafni þess, áqvördun, ferdasögu, og hvar þad heima egi. §. 10.) Finnist nockurr sjúkur eda sár um bord, sjái Formadurinn um ad hann flytjist til lands og vaktist, uns honum, eptir ransókudu ástandi, verdur adhlynnt. Eins fari hann ad, hafi nockurr skipverja annars vegna eptir ordid, þegar hinir yfirgáfu skipid. §. 11.) Hann sjái um, ad björgunin framfari í öllu med ordu; ad því markverdasta, ef verdur, se fyrst bjargad; ad eckert skemmist, sem vareygdar vidþarf, og ad batar hladist ecki med þad, sem varpa má fyri bord, og láta sjóinn bera til lands, eda hvad sídan má uppslæda. §. 12.) Se mogulegt ad frelsa skipid frá Fjandmonnum,

láta fjandskap í ljósi í litlu, þegar ecki verdur í meiru, eda egin vorn sýnd, og skér þá Yfirvald.

segi Formadur hvad til ráda se, og reyni til ad koma því og farmi undan á óhulta legu— en sen ecki líkleghet ad frelsa skipid frá Fiandmønnum, skal eld í þad setja, (hvad þó sialdnar mun hier í varnarlausu landi formandi). §. 13.) Alls eckert af því bjargada má burtu flytia, uns Yfirvaldid leyfir, en allt skal nágvæmlega vakta, og hvar ecki má úti liggja, látast inn (ef verdur). Med þad, og adra ordn hjer vid, se nágvæmlega breytt eptir Tilskipun þann 21ta Martzi 1705. §. 14.) Formadurinn (Hreppstjórinn) skal, þegar hann gjørt hefir þá rádstøfun, sem hann fyrstu augnablikin finnur naudsynlega, tilkynna Sýslumanni hvad vid hefir borid. Þessi á strax ad koma og taka ransókn um allt, skrifa upp báta-egenda og sjóarbænda nøfn þar, sem bjargvættir urdu, og þad bjargada góts, fyriskipa vardveitslu þess, umsjón og voktun framvegis, og adgæta, ad rádstafanir mót næmum sóttum, sem Tilskipan þann 8da Febr. 1805 fyrileggur, se þær ad óttast, haldist, en sídan strax tilkynna Amtmanni allt þetta. §. 16 — 17.) Ætlast til, ad egi Fiandmenn skip og góts, eda hvorr sem þad á, reki skip mannalaust ad landi, gángi helfingur verds, ad frádregnum kostnadi, til bjarglauna, en se þad Vors Konúngs þegna eda vinsamlegra þjóda, þá, ad sama kosti, þridjúngur. Bjarglaun þessi skiptast í eins marga

hluti

vald sérhvers stadar úr, hvad ráðlegast vyrdist; en þar þeßi úrskurdur úr fjærlægd sæst optast offeint vid þvillik tækifæri, er Hreppstjóra ráðlegast, ecki óskipad neina fjandsemi ad sýna med tvær hendur tómar, heldur med gætinni greind og fylgi, ad láta framqvæmd sína í ljósi mest og best vid bjergun á fólki og góþi, hværtveggja, þegar hann er viss um, hværskonar skip adber, eda, þá fjandlegt finnst, þegar þad eptir vedri og stødu þess er svo nærri grynningum og landi komid, ad ecki kémst á burt þadan aptur med hjálp landsfólksins, sem til bjørgunar útkjæmi, og sem þá hertakast kynni; hværsvegna og er vissast, eptir þessari Tilskip. 1808, §. 8, ad láta óvinafólk fyrst halda til lands.

## §. 26. Bls. 21 — 22.

Hérnefnt Kóngsbr. fra 14da Dec. 1808, um Sparsemi og innanlands handydnir, og Stiptamts Auglýsing þann 18da Septembr. 1809, er á íslendsku prentad, og eptir Yfirvalda fyrirskipun almenningi byrt; veit eg þad er í margra høndum, og allra Hreppstjóra Embættisskjala safni á þad ad fylgja, svo eg ordlengi ecki um þess innihald.

Bod

---

hluti og bjargvættir og bátar vóru, en Formanni bjargvætta allra til samans 2 hlutir. Í fyrra tilfellinu eignast Konúngur hinn helfínginn, en í seinna egendur af skipi og góþi þá 2 þridjúnga.

Boð og heilræði þessarar 26tu greinar, eru annars svo auðskilin almenníngi og þörf, að eg sje óþarfa meiru við að bæta, nema að minna Hreppstjóra á, að eckert af þessu ega þeir með valdi að skipa almenníngi, heldur að eins áminna hér um, yduglega hvetja fólk til þess, og með skynsemd og góðsemd leiða því egið gagn þess þarvið fyrir sjónir, undir eins og forsómun manna í svo dýrmætra lífs-meðala hagnýtíngu, til þessa tíma. Svo vildi vor mildasti Landsfaðir láta þetta gjöra, er hann, þann 21ta Júlii 1808, bauð Yfirvöld-um þanninn að brýna skyldu þessa fyrir al-múga, og hvetja hann til betri atorku, en ecki skipaði hann, ecki vildi hann láta skipa sínu frjálsa fólki, nær og hvörsu það leita skyldi frjáls bjargræðis síns; svo var og gjört að boði Hans með auglýsíngum, þann 15da Maji og 18da Sept. 1809, svo eigá Hreppstjórar og að breyta, ráða, sannfæra, hvetja með góð-semd meðbræður til góðs, hvörra Formyndar-ar þeir ecki eru, heldur Leiðtogar og vinir, án yfirdrottnunar, er skérði manna borgaralegt og bjargræða frelsi, eða eigna umráð. Svo breytti vor nádugi háfæli Kónúngur Kristján enn VII. í þessum efnum, 1782 og 1786 p), og fram-

p) Kóngsbr. þann 8da Apr. 1782 skipaði, að tilkynna misþóknun Hans, yfir íslendsks almúga ófram-sýnu sölu innanlands bjargræða í kaupstaði, hvörra

framþýſir þetta, ber Hreppſtjórum aldrei með valdi eda ſkipun ad fara. Streffin, ſem eldri Tilſkipanir álögdu 1781 og 1783, fyrir ſvall og oflæti vid brúdkaup, aftók Hann, þann 27da Dec. 1799. og áminnti almúga til ſómaſamlegrar Sparſemdar þvíngunarlauſt q).

Hans

hvorra hann vidþyrfti til egin vidurlífis, og ad Yfirvöld og Embættismenn í landinu ecki ad eins ſkyldu, ſem beſt henta þækti, leida almuga ſkadlegar afleidíngar þeirrar óforſjálnis fyrir ſjónir, heldur med alvörugefni umſjá, ad framvegis yrdi á þeſſu bót rádin.

Plakat þann 19da Apr. 1786, §. 3, ſegir: Vjer viljum med ſerlegri velþócknun álíta, ad Íslands innbúar leggi beſtu orku fram, til ad hagnýta med koſtgæfni og gódri reglu, ſem beſt, þau bjargrædis medöl, ſem landid ſjálft frambýdur, og taka upp aptur búnadarhátta forfedra þeirra, med hvörjum þeir mættu heldur án vera útlendra matvæla, þeir ſjálfir verda færir um, eptir Konúngsins óſk og vilja, ad efla egin hagſæld þeirra, og hæfir til ad njóta betri heilſu og hagsmuna.

q) Tilſkipan þann 27da Dec. 1799 ſegir: Þó Konúngur vilji, ad ſkadlegt óhóf afleggiſt, hefir Hann ſamt upphafid ſtraff-lögin (um óhóf vid brúdkaup, etc., gefin þann 9da Aug. 1781 og 12ta Mart. 1783), vegna þeſs, ad ecki verdur almúga ódruvíſi haldid til ad breyta eptir þeim, en med

hús-

Hans hér að neðan nefndu föðurlegu áminningu, ætti sérhverr ráðvandur og vitur maður að hugfesta; hverr einn þeckja sitt egið gagn þarvið, en heimsku eina og óráð öldruvísi að breyta, hvað flestir hyggnir menn nú hafa fallist á og viðkannast. Hreppstjórar einkum og Yfirvöld læri þaraf eptirbreytnisverðustu aðferð, að leiða almúga með góðu til þeßháttar skyldurækt, án yfirdrottnunar, frekju og skerðingar borgaralegs frelsis manna, hvar til enginn réttur er, og þvílíkt ósæmandi í þeßháttar efnum.

§. 27.

hús-ransóknum, sem eru Kongi ógeðfeldar (sjá nótu bls. 63). Þarámót væntir Hann, að sérhvørr ráðvandur og skynsamur maður meðal þegna Hans í bóndastjett, muni að sínu leiti jafnfús verða til að fylla Hans landsföðurlegu ósk, og sjálfur sjá, að sómasamleg sparsemd, sameinuð kostgæfni og atorku, er visst meðal til varanlegrar velgengnis og verðskuldaðrar vyrðíngar. Þarhjá skipast konúnglegum Embættis-mønnum, einkum Prestum, hvørjum tiltrúað er, að kenna trúarbragða og siðalærdóminn, að þeir, svo opt, sem hentugt tækifæri býðst þeim til að ræða um þetta efni, leitist við að sannfæra almúga um, að sú hjer gefna føðurlega áminning, í staðinn nú aftekinna þvíngunar laga, miðar, eins og sérhvørt boðorð Konúngsins, einúngis til að efla þegna Hans egin heillir.

§. 27. Bls. 22—23.

Mestallt, sem vidvíkur þessari grein, er talið vid nærstundangengna, og innihald Húsaga Tilskip. §. 32, í nóta bls. 129—30, en ymis-legt vidvíkjandi grafa- og sølva-tekju, sallt-abla, kjøtþurkun, laxaveidum í stórsljótum á nyann hátt, etc. er ad finna í Hugvekju minni til gódra Innbúa á Islandi, prentad-ri á Konúngs kostnad 1808, og hèr um land gèfins útbýttri; líka í Münsters Rilíngi um Salltabla af þángi, sømuleidis gèfins útbýttum.

Í tilliti til peningsræktar og landyrk-ju, má eg ecki undanfella ad minna Hrepp-stjóra á Fyrirskipanir Konúngs og Háyfirvalda, prentadar í Løgþíngisbókum 1776 —77 og vídar, svo sem: Tilskip. þann 12ta Maji 1772 um fjárskurdinn, §. 4., ad fjárhús byggist há og rúmgód, og konúngleg skipun, þann 24da Apr. 1777, sem stadfestir General-Toll-kammersins fyrisøgn, þann 2ann Mart. 1776, um sama, og ad ull bætist og aukist hèr med klippíngu saudfjár, í stad rúníngs; um val og umskipti á hrútum frá ødrum, af gódu skøpnlagi og ullargædum, og ad þeir brúkist ecki yngri enn á 2ann vetur eda ílla litir, en haldist vel, og Stiptamtmanns skipun, þann 26ta Júlii 1777, til áburdar auka, ad blanda sjóarþara (og þó hellst marhálmi), fiskislori, mómold og allskonar daudum hræum í stock-jum innan um mykjuhauga til rotnunar; einn-

inn

inn ad safna heyfræi á vetrum, og sá því í flög og rótleysur túna. Konúngleg skipan frá 20ta Febr. 1754, baud og ad brúka þáng eda para til vallar áburdar vid sjó, en bannadi tadi ad brenna, vildi og ad selstødur, eptir løgum og landsvana, væru framvegis notadar.

Bædi ad hvetja almúga til þeßháttar og annarar landyrkju og peníngsræktar betrunar, eptir því sem reynsla og rád viturra manna og útvalin landbúnadar rit kénna og sanna gagnlegt, og komandi í verk af almúga, er æ Hreppstjórans skylda, og ad því leiti efni hans eda heimilis ástand leyfa, ad verda sjálfur ecki annara eptirbátur, heldur gód fyrirmynd í nytsømum tilraunum, sem hér mega margar luckast, og verda almennilgi til mikilla nota, mætti þar ecki hleypi- og for-dóma mótstødu letíngja og sérvitrínga, og er þad í øllum þvílíkum tilfellum Hreppstjórans skylda, ad nidurþagga óviturleik heimskra manna, og ráda þeim varlega ad dæma og fordæma, hvad þeir ecki þeckja eda bera skyn á, og ecki er enn reglulega reynt af þeim hygnari mønnum.

Hvad annars áhrærir framantalin efni, þá er hér ecki stadur né rúm til ad meta nákvæmlega gagnsemi þar géfinna heilræda, eda ad hværju leiti þeim sé framfylgjandi; þad verdur annars ecki med fám ordum sagt, hværsu herfileg landyrkju-synd þad sé, ad brenna tadi eda mykju, hvar nockurt annad eldsneyti gefst. Sá tilnefndi áburdar-auki og heyfræs-safn

til

til ákfáningá, er vafalaust gott og verdt því ad framfylgja; einninn rúmgódri og hærri fjár-húsa byggíngu, þar sem efni leyfa, hvad trjá-vidar ekla og örbyrgd vída og opt affkamtar ríkum og fátækum, hvörs vegna sá 1 rdls sekt til sveitar fyrir hann, er byggdi minna fjár-hús enn 10 álna lángt, 6 álna breidt, og med $2\frac{1}{2}$ álnar háum veggjum handa 20 saudkind-um, en fyrir 40 kindur, 20 álna lángt, 6 ál-na breidt, og á veggi 2 til 3gja álna hátt, med 2 opna glugga á mænir, og opi litlu í báda gafla, verdur ecki framar nefnandi. Ad klippa fé, eykur efalaust bædi ullarvöxt og gædi, og þarf ecki ad olla útigángsfé megurd-ar, sé þad ecki klippt mjøg nærri skinni, og ecki nema á vorum, undir þad ullin tekur fyrst ad losna. Líka mætti klippíngu þá sleppa eda draga, þá bág vor og heyleysi tilfalla, og fé er vesælt, uns lengra framm á lídur. Hvad áhrærir hrúta aldur og ætta umskipti, þá er enn vafi á, hvert gamlir hrútar gési betri burd, enn útvaldir lambhrútar, hitt er víst, ad því eldri hrúturinn verdur, þess grófulladri verdur hann og eins afqvæmi hans. Í tilnefndri fyrirskip-un var ecki tilætlad ad fá til útlenda hrúta, heldur af annara sveitúnga, eda fjærliggjandi sveita fjárbragdi, því lengst af hefir þad ver-id trú margra þjóda, sem er ad lesa í þeirra nafnkéndustu búmanna ritum, ad vor húsdýr, — eg meina þarmed saudfé, naut og hesta — gengu æ til rírnunar, og mistu marga gérfilegs

ſkapnulags, mjólkur nota og ullarlags góda eginlegleika í sømu óbreyttum ættum, hvers vegna margbreytt ættamót og samblønd væru einka rádið, til að vidhalda útveldu Nauta og og Hesta kyni og gødu fjárbragdi manna, en— ſá enſki Bakewell gjørdi nafn ſitt ódaudlegt nýlega um alla Nordurálfuna, med því ad ſýna og ſanna med mørgum og laungum órækum tilraunum, einkum med Naut, Saudfé og Svín, ad þetta væri einber heimſka, og uppól af þeſſum dýrum ſtofu, hvers vertur einkum yfirgéck allt hvad England og Nordurálfan þángad til ſied hafdi hjá ſér. Sama gjørdu hans Eptirfylgjarar, og nú eru vídar um lønd, ſamkynja tilraunir, med meſtu líkindum og von, nýbyrjadar, hvørjar eg nockrar heſi ſjálfur granſkodad, en um hvad, og mína eigin nýbyrjudu tilraun, med ſpanſk-engelſk-kynjada fjárfjøldgun, og betrun vors íslendſka fjárbragds med því, ſídar máſké fæſt hentugra tækifæri framar ad fráſkira, unni Forſjónin mér lífs og tómſtunda. Þeſs vil eg einúngis fyrifram géta hér til hugvekju, ad ein af Bakewells adalreglum var, aldrei ad blanda annara ættum ſaman, heldur hafda einúngis vid ſína egin dýra ætt, og af þeſſari ad velja þad vænſta ad ſkapnadi, gérſi og ødrum gædum til ſtofns, einkum Hann-kynid, og fann hann ad afqvæmid vard lángbeſt, ef hvørt kyn kom ſaman í upp- og nidur-ſtígandi línum, en ecki ſídulínum, þeßvegna, t. d. dótt-

ir

ir med fødur, afa eda lángafa, og s. fr., sonur med módur, ømmu, lángømmu, etc. betra, enn ad systkynum, systkynabørnum eda fjær í sídulinum væri saman bleypt, og hafdi hann því margar ættar-línur, hværja útaf fyrir sig, og hañ-dýr fyrir hværja í upp eda nidurstígandi ræd.

Hvar gagn sé ad, eda skadlaust ad brúka Selstødur, og hvar fólk, áhøld og gripir séu til þess, má hværr bóndi best vita, hværs vegna Hreppstjórar ecki ættu þarl ad blanda sér.

Hvad í nidurlagi 27 §. er fyrilagt um áminníngar til meira fylgis med handydnir, innivinnu, tóskap og vefnad, ættu Hreppstjórar ad láta sér ecki síst hugfast í þeim mørgu sveitum, hvar fátt fólk, sem skapraun er ad, kann eda nennir, vegna ómennsku, ad vinna sér sock eda brók, eda adrar slíkur á kroppinn til skýlis, og má annadhvørt nakid gánga, hafi þad ecki efni til ad kaupa, eda betla og pauta þvílíkt úr ødrum sveitum, og nøtrandi af kulda og klædleysi bidja þessar audmjúklegast og kaupmenn úr útløndum ad kasta á nekt sína spjør, fyrir egid og soltins barnahóps bjargrædi og bestu aura, sem sjálft þad mátti þó kostnadarlítid hafa allteins vel unnid sér sjálfu og sínum, sem ydjusamari hønður annara, í voru landi.

## §. 28, 29 og 30. Bls. 23—26.

Landsl. b. XLVI Kap., vill ad menn reki Fé sitt í midjann Afrétt, og eru Landsløgin eins

um þad stádfest, med því hér tilvísada Kóngs-bodi, 1754. Þeßir Artikular Instrúxins mida eginlega til Pólitie eda Almúga-stjórnar útréttínga, ad því leiti Hreppstjóra um þeßi efni viðkémur, og eru ad mørgu lagadir eptir Jónsb Llb. XLVI. L. Kap., en annann innbyrdis rétt manna, innihalda Landslogin sjálf. Þad er sjálfsagt, ad allir Embættis-menn, sem fé eiga til þeß, eru undir því almenna skilyrdi um Geldfjár-rekstur, Fjallgaungur, Grenjaleitir og Dýratoll, med því tilliti, ad þeir þá ásamt eru Bændur, og ega ad gjøra lagaskil med fénad sinn, en ad Hreppstjórinn einn er gefinn frí fyrir fjallgaungum og Dýratolli, eptir §. 55, er vegna þeß, ad þetta er látid vera sem litilfjørleg þóknun til hans, fyrir alla forgaungu og rádstøfun um fjallskil, refaveidar og fyriskipun í Saudaréttum, m. fl. þaradlútandi. Hvad skrásetningu marka áhrærir, þá gjørir Llb. XLVII. Kap rád fyrir henni, og eins þínglýsingu marka r).

Hvad Instrúxins §. 28 býdur um medferd óskilafjár, er ad sönnu ecki øldúngis samqvæmt Llb. XLIX. og L. Kap., sem vyrdast vilja, ad þriggja ára hefdarhald gefi ødrum eignarrétt yfir því óskilafé, sem egandi ecki leidir sig ad,

r) Ef madur færir búnad sinn hreppa á medal, þá skal hann segja til einkunnar sinnar í þeim hreppi, er hann hefir bú sitt í fært, og láta skrá med Einkunnum þeirra manna, er þar búa ádur fyrir.

ad, en NB. 5 — 9 — 8, ad því sé lýst 3svar vid kirkju, og héradsþing einusinni, en ad egandi hafi því tapad, komi hann ecki fram med skilríki um eign sína innan árs og dags, frá því fénu var seinast vid kirkju lýst; en athugi menn, hvørsu ósanngjarnt hér er ad ofþýngja þeim, er finnur fé, med annarlegum fódrarfénadi, eda skylda hann til ad drepa sinn eginn frá þessum, og undir eins, bædi ad fundarmadurinn opt kann ad vera búlaus, og annara hjá, og þarhjá ad sama Lb. XLIX Kap. leyfir Réttarbónda strax vid sídustu sandarétt, ad sýna grønnum sínum þar óskila dylka, sem ær ecki helga sér, leggja sitt mark strax á þá og eignast, og svo upp þadan hvørjum manni í sínu landi á ómarkada dylka, eldra ómarkad fé, og þad fé annad, sem engi telst til, nema egandi hafi ecki gétad markad; leyfir ad skéra óthýnda markada hrúta eda hafra ad Veturnóttum, eda leggja sitt mark á, ef grannar hans ecki vita hvørr á, og eignist, fyrir áqvedid verd, strax ad Allraheilagra messu, þá sjest af øllu þessu, ad Auktion fjárins er hin réttasta, og best hentuga rádstafan þess, fyrst á komanda ári, eptir þad Marka-sedill hefir í freka 3 mánudi umborist og verid lýstur, og Marka-tabla til samburdar, er fyrir alla Sýsluna hjá sérhvørjum Hreppstjóra og Sýslumanni ad finna, og fyrir nærstu Sýslu, hjá Hreppstjóranum í nærsta hrepp hennar. Hvørs vegna sanngjarnt vyrdist, ad helfingur verds, ef ecki framkémur

 egan-

egandi med gyld skilríki ad lidnu fullu eda rúmu 1 ári frá Sauda-rèttum, nefnilega: fyrir Michaels messu, falli til sveitar fátækra s), en hinn gángi í fódur- og hyrdíngar-kaup, Auktions- og Hreppstjórans- umstángs- og lýsíngakaup. Annars ætti hvørr Sýslumadur ad ásgvarda hvad hyrdíngar-kaup sanngiarnt vera ætti fyrir óskila sauckindur, eptir tímalengd, uns egandi, innan Nýárs, vi-r þeirra, og eptir sveitar og árferdis ásigkomulagi géti hlutadegendur ecki þarum sjálfir forlíkast. Því Jónsbókar álygtan um þad, í Lb L. Kap., vyrdist nú mjøg svo ósannsýn, en strax um Veturnætur ætti ad senda nærstu Sýslumønnum útskrift af markasedlum óskilafjár, svo egendur þessa fjár, ecki þyrftu lengra enn til síns Sýslumanns, til ad sjá, hvar þeßi eign þeirra er niðurkomin. Undireins mundi ecki óþénanlegt, ad Amtmanni sendust líkar útskriftir, til vissu um, ad þeirri rádstøfun sé árlega fullnægt. Markatablan, sem §. 30. fyriskipar, er annars eirhvør hin naudsynlegasta rádstafan, sem um þeßi efni verdur audveldlega gjørd, og vyrdist, sem mælt, verid hafa tilætlan vorra Landslaga.

§ 31,

s) Fátækra mála Reglugjørd fyrir Danmørk, þann 5ta Júlii 1803, tileinkar fátækum, í §. 46, No. 5, þad sem fæst fyrir sølu fundins eda uppnæms lifandi pénings, komi egandi ecki fram innan fyrilagds tíma.

§. 31, 32, 33. Blf. 27—29.

Vid þessa Artikula finn eg mjög lítils vidþurfa til útskýríngar, en minnist ad eins á, vid §. 31, ad einúngis þeir, sem hafa 6 fullordnar saudkindur í eign eda umrádum, ega til grenjaleita ad leggja til mann, en med fullordnum saudkindum teljast þó ecki framgengnir gémlíngar, þá 7 vikur eru af sumri, eptir §. 33.

Finnist gren nockurt í landareign einstaks fjallbœar, eda annarar jardar, sem á land til ad ljá til fjárupprekstrs á sumrum fyrir betalíng eda Lambatoll, og sé þetta land leigt til upprekstrs, ber jardarábúanda eda þeim, sem upprekstrs og lambatolla notin hefir, vafalaust allteins ad hreinsá þetta leigda land frá bitvergum og refum á vor, og allann kostnad þar til ad standa, eins og í þessari grein segir um Afréttar bónda, er selur heilum sveitum fjárupprekstur, bædi af því, ad grundvöllurinn er allur hinn sami, ljái hann svo mörgum upprekstur, ad Lambatollar svari vel tvøføldum kostnadi til ad vinna gren í því landi ár hvert, líka er hverjum, sem afrétt selur á leigu, eptir allri sannsýni, skyldt ad kosta til þess, ad fjendur fjárins egi ecki fastann bústad í því landi hann legir, fénu til framfara, hvar þad og ætti, sem óhultast verdur, ad fá lifad. En, þad heitir Afréttur, segir Jónsbókar Landsleigub. XLVI. Kap., sem 2 menn eda fleiri egu saman.

Héraf hygg eg ljóst, ad þegar Dýratollr eptir §. 33, skal nidurskipta á sveitar-búendur eda adra í sveitinni, sem 6 fullordnar sauðkindur, gemlingum eldri, hafa í eign eda ábyrgd, ega þeir menn, sem svo mikid sé taka til upprekstrs, ad lambatollar nemi þar tvøfølldum kostnadi fyri því, sem gren ad vinna í þeirra afréttarlendum þad árid útheimti, ad undanskiljast þeirri nidurjefnun, og kostnadurinn þarámót ad vinna gren í þeirra lendum, ad lenda á þeim einsømlum, þó svo, ad þeir, ad minnsta kosti, hafi annad eins býkerdt í leigu eptir landid, og kostnadurinn á g. einn hljóp, því sé þad ecki, bæri Dýratolli, eptir tiltølu, ad jafna nidur á þá sem adra.

Andskiid er, ad í þenna jafnadar-reikning ecki geta únglømb talist, þar reikníngurinn vissast grundvallast á ófergudu og framgengnu fé í Fardøgum, en þá eru mørg lømb óborin, og øll í ýmsu tilliti mesti vonar-peníngur, en ad gemlingum eins er úrsleppt frá nidurjøfnunar-reiknínginum, er bædi af þeirri orsøk, ad allur fjøldi þeirra er og optast vonarpeníngur í Fardøgum, líka ardlaus og kostnadarsamur fyrsta árid, þar sem lélegar og optengar ullarreitur af gemsum ecki fá lambsfódrid borgad. Jónsbókar Landabr. IV. Kap. vill ecki heldur reikna kálfa eda foløld med itølu búfjár í haga.

Eké má, ad einhverjum Hreppstjórnarmanna veiti erdugt, ad jafna réttilega nidur

Dýra-

Dýratollinum, eptir fiármegni sveitarmanna, en þetta er þó miøg svo audveldt. Þared dýratollur er fyrst krafinn á haustum, og þá eru líka samdar Landbúskapar- og fjár-tøblurnar, eptir §. 18, er best, ad ljúka þessum fyrst af, og sídan í þeim ad leggja saman tøluna á øllu eldra fé enn veturgømlu, nefnilega: ám og saudum, sem í hreppnum finnast; leggja svo saman í adra summu kostnadinn uppá gren og skyttu, og gjøra hann allann ad skildingum, skipta sídan fyrrgreindri fjársummu allri med skildínga tølunni, og finnst þá: fyrir hvørsu margar fullordnar saudkindur gjalda egi 1 ß. í Dýratoll, líta sídan eptir í tøblunni, hvørsu margar fullordnar kindur hvørreinn egi, og hvad honum þareptir beri ad gjalda; t. d.: Hvad á Þórólfur á Stød ad gjalda í dýratoll af sínu fullordna fé, sem er 95 tals? fullordid fé í hrepp hans er ad tølu 2835, en kostnadurinn uppá skyttu og greni í hreppnum, var nú í vor 8 rdlr. 37 ß., eda 805 ß. Nú skipti eg fjártølunni 2835 med skildíngatølunni 805, og set $\frac{2835}{805} = 3\frac{84}{161}$, og finn svo þarmed, ad hérum af $3\frac{1}{2}$ fullordinni kind hvørri ber honum ad gjalda 1 ß., af hverjum 7 kindum 2 ß. og af 95 kindum 27 ß. í Dýratoll.

Af Instrúxins blſ. 16 og 29 er ljóst: ad eckert annad enn kostnad uppá ad vinna Tóugren, eda meira enn hann, ber í Dýra-

tolls nafni ad kreſja, og þeßvegna engann Dýra-toll, þegar eckert gren finnſt eda er uppá-koſt-ad. Eg heſi ad ſönnu í Gamans og Alvöru 1ta Heſti, blſ. 126, minnſt á Stiptamts úr-ſkurd, þann 6ta Maji 1777, ad ſá ſkuli Dýra-tolls-frí, ſem á ſáma ári veidir 2 fullordna melracka, en ſú rádſtaſan, ſem Inſtrúxins blſ. 29 nú gjörir um 1 fullordinn, eda 2 únga melracka, er meir ſamqvæm lángri landsvenju, og jafnvel fornum lögum t). Annars víſa eg framar, Dýratollinum vidvíkjandi, til blſ. 67 —68 og 70 hér ad framan u).

§. 34.

t) Sjá Grelnir úr þeim gömlu lögum, ſamanſkrif-adar úr ýmſum bókum og ſögum, af Jóni Rúg-mann, Uppſölum, 1667, blſ. 22. Þar ſegir: „Sá madur, er hann á 6 ſandi ad vetri í ſinni „ábyrgd, ſkal taka einn melracka gamlann, edur „tvo únga á 12 mánudum hvörjum."

u) Veit eg ad Hreppſtjórar hafa í viſſum hjerødum kraſiſt Dýratolls til fátækra, þó eckert gren væri uppákoſtad eda unnid, en ſú innteckt fátækra er, eptir tollsins náttúru og uppruna, ótilhlýdileg, nú og öldúngis óþörf, þar allt hid naudſynlega, eptir §. 20, innkallaſt med aukatillaginu; þarhjá meina eg hana ólögtekna, því þó Jónsbókar Þfb. VI. Kap. ſegi: „ad um melrackaveidar ſkuli ſtanda, ſem Lögrettumenn ſkipa," er þarvid adgjætandi: 1.) ad Lögrettu vald til ad ſemja Lög, kann ecki

§. 34. Blſ. 29.

Þad er víſt, ad ſú konúnglega Tilſkip. þann 13da Maji 1776, um Túngarda-hledſlu og Þúfna-ſléttun ennþá er óapturkølluđ, og þeß-vegna enn ad álíta í gyldi, líka og, ad óſk-andi væri, ad ſem fleſtir gætu og ſem beſt hlýdn-

framar í þeſſu enn øllu ødru ad álítaſt nú ad hafa nockurt gyldi, allra ſíſt ſídan Ríkjanna Einvalds-ſtjórn og þeirrá Grundvallar-løg, tilſkildu þad Konúngdóminum einum. 2.) ad eckert løg-gyldt ſkilríki finnſt fyrir, ad þeßháttar løg hafi fyrir Ein-valdsſtjórnar tímann 1660, verid af Løgrettumøn-um ſamin, því øll átyllan er: ad Løgrettan 1680, hafi ſamþyckt þaradlútandi einſtakann dóm Sýſlu-manns Einars Þorſteinsſonar, genginn ad Kleyfum undir Fjalli, þann 20ta Maji 1679, en þetta var einúngis ſtadfeſting einſtaks dóms, ſem engann ſkuldbatt, nema þá fáu, ſem hann á-hrærdi, en alls ecki landid, ſem løg, auk þeſs ad hann, ſem hvílíkur aldrei er byrtur nje ſídan ſtad-feſtur og løgtekinn, ſem þo vard ad vera um dóm, ſem undir Einvaldsſtjórninni álítaſt kynni nock-urn ſkuldbindandi annann enn þá, ſem hann á-hrærdi. Ecki gat heldur Sýſlumadur Einar Þorſteinsſon 1679 verid Íslands Løggjafari, heldur enn Løgrettan 1680. Hvar mundi nú ann-ars løggyld ſkilríki um báda dóma, og þeirra óyggjandi afſkrift ad fá?

blýdnast henni, hvgraf mikid gott leida mætti fyrir vorn vissasta og besta bjargrædisveg, Landyrkjuna og vora búsæld, samt sem ádur hefir reynslan kennt, ad opt má undantekning frá þarf fyrilegdum skyldiwerkum vyrdast jafnsaunsýn og naudsynleg. Ecki allstadar hefir ný gétur þúfna-sléttan komid ad haldi, ecki allstadar túngardar fundid fastann og varanlegann grundvöll, né gott hledsln-efni til þeirra, nema med fátæklingum og einyrkjum ofdýrum og þúngbærum ervidismunum og vinnumißir frá ödrum, enn brádar adkallandi, bjargarútvegum og heimilis-störfum. Fátækur einyrki og barnamadur er opt sá í sveit — opt ásamt heilsutæpur — sem á vorum neydist til ad liggja vid sjó til messna, til fiskiabla fyrir heimili sitt, og á þeirri 1 eda 2 vikum upp þadan til sláttar, þarf hann ad draga ad sér bjargrædi og adrar naudsynjar frá sjó og úr kaupstad, koma lömbum og géldfénadi á fjall, rista og þurka torf, abla kola til ljáarengsln og smída undir sláttinn, grasa af fjöllum, og hýsa árlega eitthvad af bæ sínum. Vid sláttinn stendur hann í lengstu lög, og fær eptir hann allopt naumlega tóm til ad færa áburd á völl, leita upp óheimtar saudkindur sínar, byggja eda dytta hid bumflýhanlegasta ad peningshúsum sínum, ádur enn frost og snjór taka fyrir téluverd útiverk hans, nema í einstökum árum, og þá býdur opt ný ablavon honum enn ad leita sér bjargar af sjó um tíma á haustin. Auk þessa er landslag vort allvída

svo,

svo, ad þetta mædusama verk, ennþótt eptir efni og ástandi sæmilega vandad í fyrstu, seckur í mýrarfen eda hrynur og klofnar í sundur ad fárra ára fresti, og er þá sem ógjört.

Þessa vegna hafa æđstu Yfirvöld og jafnvel sjálft Rentukammerid á seinni árunum, fundid ísjárverdt, mjøg svo stránglega ad láta gánga eptir bótum, eptir hærstnefndri Tilskipun, fyrir brest á skylduverkum, sem hún býdur, en þar gardahledslan þó er ýfrid gaguleg og góđ fyri hvørn búandi mann, bædi til ad auka ávøxt á túnum, vegna skjóls, er gardar gefa, og til ad verja hann ágángi egin og annara sképna, er þad Hreppstjóranna skylda, ávallt ad áminna og sterklega áfýsa fólk til túngardahledslu, allstadar hvar færi er á og þénanlegt er, sem ecki er allstadar á sandfoks-jørdum, en farà, vegna fyrrtaldra ástædna, ásamt varlega ad útteckum bóta fyrir þad, sem ábresta kann fyriskipud skylduverk, eptir fyrrnefndri lagasetníngu, og jafnvel aldrei byrja þær, án þeirra Sýslumanns útþryckilegu skipunar um sérhvørn. Svo ad þeir samt viti, hvad þessi Tilskipan býdur í þeim tilnefndu Artikulum, læt eg hér fylgja innihald þeirra nedanverdt x).

Eins

x) §. 8.) Þad se skylda Hreppstjóra, þó med tilsjón Sýslumanns, ad adgæta, ad Túngardar verdi árlega svo lángt og forsvaranlega hladnir, sem fyriskipad er (sjá 1. §. 1. Steingardarnir beinir,

Eins og betrun bjargrædis útvega er med hærstnefndri Tilskipun fyrir augum hefd, svo er og betri verkan fisks vid sjó til kauphøndlunar og

2gja álna háir, og svo, ad vaxinn madur fái gengid eptir gardinum fram og aptur, án þess ad nockurr steinn úrhrynji, en í §. 2, Torfgardar $2\frac{1}{2}$ alin á þyckt ad nedan, steinalausir milli laga, nema nedsta lagid, ávalir og mjóir ofan, med grasrót út á alla vegu, og fullsígnir $2\frac{1}{2}$ alin á hæd; í §. 5 skipast árlega ad hlada 6 fadma af Grjótgardi eda 8 fadma af Torfgardi fyrir ábúandann, og eins mikid fyrir hvørn verkfærann vinnumann hans), og þeim sídan, sem ber, vidhaldid, hvørs vegna þeir skipti hreppunum med ser (þá fleiri eru) med rádi síns Sýslumanns, og líka í tilsettann tíma líti eptir, hvørt og hvørnin sú skipada gardahledsla og þeirra vidhald se framqvæmt. Finni þeir þá einhvørn brest þar á, gjaldi hinn seki, fyri hvørn vantandi eda ófor svaranlega hladinn fadm gards, gegn þessari Tilskipun, ellegar ílla vidhaldinn, 10 ß. til sveitarkassans, sem Hreppstjórinn strax út, taki hjá honum, og se hinn seki samt skyldur ad hlada upp hvad ábrast, auk þess, sem honum annars ber ad hlada. Vanti þá enn nockud á, bæti fyri það allt, sem fyrr segir. En finnist hann ad sama sekur í 3 samfeld ár, bæti sømu bót, um, og skal honum þaradauki byggja út af jørd-

og fædis tilgánguriun med Instrúxíus bodord í 34 § um fiskigarda og hjalla vid sjó, og vardveitslu tilraun betri med kjøt á Færeyinga

jørdunni fyrir óhlýdni hans, og leti, se hann leigulidi, svo ad duglegri ábúandi verdi til jardarinnar fenginn. Sitji hann á egin eign, gjaldi hann tvøfaldar bætur fyri hvørn vantandi fadm, eda illa hladinn og vidhaldinn, og haldi hann sama fram í 3 ár, og forsómi hvad hjer um er bodid, hafi Hreppstjóri myndugleika til, med rádi Sýslumanns, ad kaupa til menn ad gjøra verkid á kostnad ens seka, sem úttakist án lagasóknar úr búi hans, tregdist hann gódmótlega ad gjalda. §. 9.) Setji nockurr, hvørt heldur hann er bóndi eda konúnglegur Embættismadur, geistlegur eda verdslegur, sig á móti Hreppstjóra eda annara Yfirvalda rádstøfun um gardahledslur eda hindri þá, sem Hreppstjórar setja til ad fullkomna hvad verk þetta ábreslur á kostnad enna seku, ega Hreppstjórar strax, án minnstu tafar, uppihalds eda fyrislättar, ad stefna þeim seka med Pólitie-stefnu fyrir Sýslumann, sem strax skjeri úr málinu, og finni hañ þá, ad nockurr hafi med virkilegu forbodi eda líkamlegri mótstødu hindrad eda aptrad þeirri gardahledslu, sem annadhvørt er af Hreppstjórum eda ødrum Yfirvøldum áskipud, og annadhvørt eptir þessari Tilskipun eda ødrum løgum bodin,

þá

fnga hátt tilbeädt, enn med skémmdúm þess vid eldhúss-bengingu í reyk mißirum saman; hann hefi eg sýnt á prenti med Hugvekju til gódra Innbúa á Islandi, hér á Kongúngs kostnad gefins útbýttri.

§. 35.

þá skal hinn seki, se hann bóndi, bæta 2 rdlm til sveitarkassans, en se hann verdslegur Embættismadur, 3 rdlm. og jafnmiklu til Islands Júsiitskassa, en geistlegir bæti 3 rdlm til sveitar og jafnmiklu til fátækra Presta-ekkna. Sama sekt liggur og vid fyrir þá, sem setja sig á móti úttekt bóta, er þeir falla í fyrir yfirsjónir mót þessari Tilskipun. Allar bætur, sem eptir henni bera sveitarkassanum, skulu annars skiptast jafnt med fátækum og Hreppstjórum í sveitinni, fyrir ómak þeirra vid þessa rádstøfun, og megu þeir, sem med serlegri kostgæfni votta sig hjer ødrum fremri, vona frekari verdlauna, eptir ástandi, en þeir, sem vanrækja skyldur sínar hjer vid, ega ad sæta ákjærum Sýslumanns og appellslaust ad dæmast til, bóta til sveitar fátækra, eptir efna ástandi og fundinni yfirsjón þeirra. §. 10.) Þúfur eru landyrkjunni til baga, því ega þær árlega ad sljettast úr túnum, 6 fadma lángt á hvørn veg af 4, fyrir ábúandann, og jafnmikid fyrir hvørn verkfæraun karlmann, sem hann heldur til vinnu. §. 16.) Hreppstjórar hafi, med umsjón Sýslumanns, náqvæma adgætslu um Þúfnasljettun. Somu bætur, sem í undangángandi §. 8 og 9, eru lagdar vid gardahledslu forsómun, skulu og í øllum atridum gylda um vanrækt vid Þúfna-sljettun.

§. 35. Vsſ. 30.

Lengi hefir þad verid trú medal margra útlendra þjóda, ad enginn þrífiſt ſá, eda héldi heilſu og burdum, ſem engann jardar ávøxt hefdi til fædis, en heimſkíngjum hér og hjátrúarfullum fóru þarámót ord um munn, ad óvyrda væri ad eta gras med vinnudýrum, og lögdu því rírd á kályrkju. Þeim féllu ſamt dável fjallagrøs og næpur og kálróur og jardepli einkum, og jafnvel kál, ſem adrir enn þeir høfdu varid ervidi og ſveita ſínum til ad afla. Lítid þecktu þeir hvørſu dýrmætt heilſu vidurhald jardar ávextir, kál, rætur og grøs þó eru med hardæti og rírdar-koſti manna allvída hér um land, ecki ſíſt med ſjófaungum, og ecki mundu þeir né vildu hyggja Skaparans vìſa og gódgjarna bodord til vorra fyrſtu foreldra, ad hagnýta jurtir og ávexti af trjám þeim til fædis, 1 Moſ. b. 1, 29. 2, 9. 16. En ſérhvør medal þjóda dróttnandi hjátrú almúgans hefir átt lengi í ad yfirbugaſt, en mørg þó ordid þad um ſídir. Jardepli færdi Hawkins fyrſt árid 1565, og 20 árum ſeinna Frans Drake til Stórbretalands frá Ameriku; 1743 komuſt þau fyrſt til Danmerkur; 1758 hafdi Próſaſtur Atke á Hardángri í Norvegi plantad þau til gamans í kálgard ſinn, og gaf þá Preſtinum — ſídan nafnfrægum Próſaſti — Pétri Harboe Hertzberg, Preſti til Findáſs í Bjørgvínar-ſtipti, ad eins fullaun hatt af þeim, af hvørjum fleſtøll í øllu því Stipti

eru skrottin. Í hans prentudu Æfisögu getur þess, (blf. 31—33, ad Prófastur þessi, hvers minníng og nafn er um Norveg og vída í heidri, fyrir framqvæmd hans, med útbreidslu jardepla-ræktunar, átti sár ervidt med ad fá nockurn bónda til ad gjøra tilraun med þau, eda ad leggja þau sér til munns. Einn rédist þó til ad eta 1 hrátt, og sagdi: eti þau ecki mig, mun eg ecki eta þau. Prestur sagdi honum ad sjóda, og reyna svo, og þá mælti bóndi; nú mun eg leggja ad fleirum. Þegar þau svo komust þar í brúkun medal folks, kénndu bændur þeim um, ad þeim sjeldgudu of-ódt børn, en 1802 telur sonur hans, Niels Prestur Hartberg, sem æfina reit, ad þar í einu Fógetadæmi (eda Sýslu), se ablad hérum 16000 tunna af jardeplum, sem hánn reiknar á 25000 rdli, er þá tunnan ad eins vyrdt á 1 rdl 54 ß., sem gott þætti hér til fædis. Minn óglеymanlegi vinur og velgjørari, Jústitzrád og General-Tollinspekteur Lassen í Bjørgvín gaf mer lista yfir innflutt jardepli til Bjørgvínar stadar, úr nockrum Sýslum sama Stiptis um nockur ár. Arid 1804 vóru þad 8874 tunnur, 1805 hérum 13000, en 1808 um 14000 tunnur, sem seldust frá $1\frac{1}{2}$ rdl til 2 rdla hvør þar, eda allar ad minnsta kosti fyrir 21000 rd. og þó telur Prestur Hertzberg, ad bóndinn selji ecki $\frac{1}{3}$ abla síns, þar hverr madur nú brúkar þau í flestar máltídir árid um kríng, og med því, sem hann selur, borgar þar nær-

fellt

fellt alla skatta, skuldir og útsvar sitt. Svo ardsamur er þeßi dýrmæti ávöxtur á fáum árum nú ordinn þar, og svo mikilvægt og áreidanlegt bjargar-medal í hallærum, sem þar ecki lengur bregdst. Þegar eg nú minnist, ad jardepla mergd mikil ablast í Norvegi, jafnvel lángtum nordar enn Island liggur, svosem í Nordløndum hans og sjálfri Finnmørku, hvar stutt sumur og mikla hardari vetrar falla, ablast jafnvel á moldarlitlum klettum, í fúnu þángi, sem á, þá er uppborid, hvar jørd brestur, en látid fyrst rigna og lengi fúna; minnist, ad þau nú eru haldin jafn-kjærkomin og almenn fæda fyrir Konúnga, Herrafólk og húsgángsmenn vídast um alla Norðurálfu; minnist þeß, er nýnefnd Tilskipan, þ. 13da Maji 1776, í §. 18, eptir gjørdar tilraunir hér, býdur y); minnist, ad Prestur Herzberg telur

 þad

y) §. 18.) Jardepli hafa flutt verid til Sudurlands og suðnstadar á Vesturland, til reynslu, á nærstlidnum árum, og gjøf heitid fyrir þeirra abla. — Og þared reynt er, ad þeßi ávöxtur luckast þar á landinu, eins og annarstadar, í allskonar jørdu, nema í leirjørdu og á votum stødum, jafnvel og í gamalli øsku, sem nóg er af á mørgum bænum, í hvørri yrkjan þaradauki er hæg, og þarf ecki nema mjøg litid ómak; svo væntum Vjer allranádugast, eins og Vjer hjermed bjódum, ad Innbygg-

þad Fódur síns reynslu', ad frá því jardeplá ræktan og brúkun í sóknum hans stórum vór, hafi holdsveikja, sem þar var geng, eins stórum rénad, þá verdur ecki nógu opt brýnt fyrir Hreppstjórum, ad votta framqvæmd þeirra í því, ad koma á gáng jardepla-rækt, hvar verdur, med øllu gódu móti, og þartil hagnýta þá vegleidslu, sem Trojels hingad á land gëfna ágæta Rit, 1772, um Jardepla-rækt, og Magnúsar Sýslumanns Ketilsonar Tilraun med Sádtegundir og Plöntur, útgëfin 1779, og nú seinast Faktor H. W. Levers stutta Avísan til Jardepla ræktunar, fyrir almúga, prentud 1810, gëfa mega. Enn vissari er samt, vegna offárra og vesælla tilrauna vídar um land med jardepli, og vanþeckíngar á þeirri réttri ræktun, kál- og róta-abli, sem því nær allstadar má heppnast med gódri uppáþessun.

## §. 36, 37. Bls. 30—31.

Þad hellsta hëradlútandi af tilvísudum lagagreinum, sem Hreppstjóri hafa þyrfti sër vid hønd

byggjararnir láti sër vera med alúd umhugad, ad abla þessa jardar ávaxtar, sem er svo drjúgur í búi, þar þeim bædi býdst svo gott tækifæri þartil og gagnsemd af, og þeir þannin ásamt fá breytt ad Vorum allranádugasta vilja og velþóknun-

hønd, set eg hér ad nedan z). En ad leggja hald á hross eda farángur ferdamanna, sem

L 3 veita

z) Kóngsbref frá 29da Apr. 1776, innibindur þad hellsta nú gyldandi um þetta efni, og er þess stutta innihald þetta: Oss er allraundirgefnast skírt frá veganna slæma ástandi og vegabóta vondri forsómun á Islandi, sem gjøri allar landferdir og flutnínga vandrædafulla og sárervida, því — bjódum og skipum Vjer: 1.) Sýslumenn skulu, eptir Jsl. L. Lsb. XLIV. Kap. og Yfirvaldanna seinni Fyriskipunum, alvarlega umsjá, ad ecki einúngis vegir um bygdir, heldur og litlir fjallvegir milli þeirra, einkum þeir, sem ecki eru 5 mílum lengri, verdi, ad því leiti fært er, árlega ruddir og þeim vidhaldid, líka breidkadir svo, ad 2 klyfjahestar mætst geti á veginum farartálmalaust, hvartil þurfa ad minnsta kosti 6 álnir. Þar sem verdur, gjørist þeir og svo beinir, sem fært er, þared óþarfa krókar lýta þá bædi, lengja og gjøra mædusamari. 2.) Þegar vegir rydjast, skal fleygja eda velta øllu smáu og stórn lausagrjóti, sem á vegum verda má rídandi fólki eda klyfjudum hestum til farartálma, svo lángt út úr, ad þad ecki fái oltid á ný inn á veginn nema því einu sem vidþarf til ad fylla upp med á vegum. Hvar fastagrjót er, sem nád verdur upp, skal þad grafa og brjóta upp med járnkøllum, eda sprengjast med púdri, til hvørs innkaups sveitin

leggi

veita bændum ofrkkis-fullann ýfirgång, med því, ad ríða eda reka ýfir ófredin tún þeir-



leggi saman, þó ecki framýfir 3 rdli árlega, hvörju Sýslumadur jafni nidur á alla bændur þar, eptir þeirra ástandi, og útvegar sídan púdrid. Þó skal sprengíng med púdri fyrst um sinn bída, nema hvar nockurr er til, sem ber rett skynbragd á þad verk, svo ad enginn skadi af verdi. 3.) Til og fra ser, hvörjum bæ ega vidkomandi egendur og ábúendur kappkosta ad leggia reglulegann veg gegnum tún þeirra, med forsvaranlegum tradargordum á bádar sídur, svo ad ferdamenn ecki, sem nú, til mesta skada uppá grasvoxt og heyskap, fái tækifæri ad ríða og reka hross ýfir þau þver og endilaung. 4.) Ýfir mýrar og veitur skal einkum þanninn vegi leggja, ad vatni, sem á þeim stendur, veitist fyrst svo vel af þeim med hentugum skurdum, sem verdur, og sen þeir skurdir svo lagadir, ad vatnid nái afrás frá veginum. Stúngunni úr skurdunum skal fyrst snara á veginn, honum til hæckunar, og sídan fylla hann upp stórri steinmøl, hvar hún er til, annars leggist þar brú af torfi og grjóti, og haldist sídan árlega vid. 5.) Ýfir litlar ár og læki skal, til fararbeina ferdafólks, leggja trjebrúr, hvar plátsid og annad ástand þad leyfir, þar reynslan kennir, ad ýfir þau er um vetur og vor allopt ófært med hesta. 6.) Ferjur, sem híngad til hafa almennt brúkadar verid ýfir

ra eda engi, uns lagabótum fyrirsvara, er
L 4 grund-

stór vatnsföll og vötn, ega ecki einúngis eptir Isl. Løgbókar Llb. XLV. Kap. og rádstøfuninni (um þær) á serhvørjum stad, vidhaldast sem ber, heldur fleiri þvílíkar útvegast, hvar vidkomandi Sýslumadur, med rádi bestu almúgamanna, finnur nauðsyn á, og ferjutollur áqvedast á hvørjum stad, eins og venja er til og sanngjarnt, hvareptir vidkomanda Amtmanns samþycki, bædi um ferjuna og tollinn, skal útvega, og sídan vera regla. Ferjum þessum tilskyldast hlutadegandi egendur þeirra, sem njóta betalíngs fyrir brúkun þeirra, undanskotslaust ætíd ad halda í fullkomnu standi, til hvørs Sýslumadur og skal alvarlega halda þeim, og árlega hafa bestu umsjón med, ad þeir gjøri þad sem ber, en bresti þará, gefa þeim, eptir ástandi, ávítur þar fyrir. 7.) A øllum stórum fjallvegum, hvar reglulegir vegir ecki verda lagdir, ber þó ad minnsta kosti, til nockurs vegvísirs fyrir ferdafólk, einkum í kafaldi og þoku, vørdur ad reisa upp af stórum steinum, svo háar og náuar saman, ad 2 þeirra sjáist í einu, eins í dimmvidri; sømuleidis ber og bádumegin í nánd vid þvílíka fjallvegu, hvar lángt er ad bygdum bænum, eptir rádstøfun vidkomandi Sýslumanns og rádi bestu manna á hvørjum stad, Sæluhús nockur ad byggja, eda køfa, sem vegfarendur á vetrum geti í neyd notad, og hús þessi ad tilbúa

frá

grundvallad á Norsku Laga 6tu Bókar 15da Kapi-

frá nánustu bygdum, med heyi nockru og eldividi, hvarámót þeir, sem tilleggja þessar naudsynjar, fái af serhvörjum, sem ferdast (þar hjá) á þeim tíma árs, ad þeirra vidþurfi, litla þyngnun, eptir fyrisögn Amtmannsins, sem og skal áqveda, um hvörja mánudi hún gjaldast skal, hvar og hvörjum, og allt hvad þar um þarf frekar ad fyrirskipa, eptir atvikum og ástandi á hvörjum stad. 8.) Bædi framantalid, og allt hvad framar vyrdist naudsynlegt til vegabóta, skal serilagi vidkoma Sýslumonnum, serhvörjum í sinni Sýslu, ad láta Almúgann setja svo í verk, sem ber. Þessvegna skulu þeir á Manntalsþingum á vorin, ecki ad eins yfir-höfud áminna bændur og innbúa hvörrar sveitar, um vegarudninga og endurbót, heldur og árlega áuafna serhvörjum hreppi þad plátz, sem hann þad ár skal hafa fullgjört, sem þó verdur svo vægilega ad tiltaka, ad vidkomendur fái því aflokid, án þess ad forsóma med því önnur þeirra naudsynja verk. Allt hvílikt nýtt starf vid vegi á annars, til þess meiri ljettirs hlutadegendum, ad framqvæmast med samvinnu, annadhvört allrar sveitarinnar, eda nockurra bæa-manna, eins og ásigkomulagid sýnir naudsyn til, og nefnir Sýslumadur 3 eda 4 af skírustu og merkustu mönnum í sveitinni til forgaungu verksins og umsjónar fyrir þess bestu framqvæmd. Þessir skulu og hafa naudsynlega

synlega umsión med árlegu vidhaldi vega, sem einusinni eru fullrudðir. Loksins ber Sýslumønnum, til þess betri reglu, ad tiltaka vissa daga, annadhvørt á vorin, á milli mids Maji og mids Júnii mánada, eda á annari ársins tíd, sem hagfeld vyrdist, til þanninn ad ryðja og umbæta vegu, allt eptirástandi og bjargrædis útvegum hvørs bygdarlags. 9.) Sýni nockurr af Almúganum sig þverbrotinn, og vilji ecki mæta til vegabóta, þegar hann af Sýslumanni eda þeim, sem hann til umsiónar þarvid útnefnt hefir, er tilqvaddur, skal sá ecki einúngis bæta 2 lódum sylfurs (1 rd' kúrant), sem gángi til vegabóta, heldur og þaradanki betala fyrir þad forsómada verk, sem annar í stad þess, er lætur sig vanta, leigist til ad fullgjøra, hvørjar bætur og borgun, ef ecki greidast góðmótlega, þá óskad er, mega, án undangángandi málssóknar, úttakast úr búi ens seka. Undir sómu bótum skulu þeir og vera, sem annadhvort hindra vegabætur og nytsama brúabyggíngu í landi þeirra eda ecki vilja fylgja þjódgøtu, heldur í hennar stad stana yfir tún og engi manna, til vidkomandi eganda skada. Dirfist nockurr af íllvilja ad skemma fullgjørda vegu eda brúr, sektast hann tvøfoldum bótum, og bæti, auk þessa, skadann ad fullu, eda, bresti hann efni til þess, straffist á kropp-

innm

April 1776, og Cancellie bréfi frá 3ja Mart. 1798 a).

## §. 38. Bls. 31—32.

Innihald þeirra í þessari grein tilvísudu laga-greina, set eg hér ad nedan b); en hvad vid-víkur

inum eptir úrskurdi vidkomanda Yfirvalds. 10.) Bædi allt fyrrtalid, og eins hvad framar í þess krapti vyrdast má naudsynlegt til vega, brúa og ferje umbótar og vidurhalds, er hier med á hendur falid Stiptamtmanni og (hvorjum) Amtmanni í þeirra Ömtum ad láta útretta, o. s. frv.

a) NL. 6—15—23 segir: Sá er ecki ránsmadur, sem bannar ödrum eda hindrar hann frá ad aka eda rída yfir akur sinn eda engi, hvar ecki á vegur yfir ad vera, þó hinn skilji þar eptir eitt-hvad af því hann medferdis hefir.

Kóngsbref þann 20da Apr. 1776, hier næst fyrir framan, hljódir í 9da Art. hier uppá; en

Cancelliebref (til Stiptamtmanns í Akurhúss Stipti) þann 3ja Martii 1798, segir honum med Plakati ad auglýsa: ad einn og serhvörr egi ad fordast ad keyra yfir annara akra eda engi, þegar jørd se snjó- eda frost-laus, annars standi egandanum frítt fyrir, samqvæmt NL. 6—15—23, ad taka þá fasta, sem þanninn misbjái sig, og ad løgsækja þá fyrir Pólitie retti.

b) Tilskipan þann 18da Júnii 1784, bjódur í §. 5.) Sýslumønnum sendast þessir jústeradir mælirar og vigt:

vigt: 1 kornskeppa, 1 heill og 1 hálfkútur, skaptlausir til þurravöru, 1 heill og 1 hálfkútur med skoptum til ad mæla lösi, 1 potts og 1 hálfpotts mælir, og 1 heills og 1 hálfpela mælir af tini, 1 álnarqvardi af járni, og 1 2gja lispunda reidsla, sem allt se til brúkunar, þegar skiera þarf úr misklidum um vigt eda mælir medal innbyggjaranna, eda í kaupstödum, og til eptirgiördar fyrir almúgann, vid þá mælira og vigtir, sem hann siálfur smidar ser til egin brúkunar. §. 6.) Eptir þessum mælir leyfist Sýslumönnum ad júsiera skeppur, heil- og hálf-kúta, heila- og hálf-potta, heila- og hálf-pela, og álnar-qvarda, sem fólk vidþarf til heimabrúkunnar, en ecki reidslur eda nockurn mælir til brúkunar vid kauphöndlun, eda fyrir siálfa þá, sem uppruna mælir; þar allt þvínumlíkt fortakslaust verdur ad útvega frá Kaupmannahafnar Júster-Kammeri. Enginn má heldur á Islandi dirfast ad júsiera mælira edur qvarda, sem hann tilbýr til heimabrúkunar, eda fá þá ödrum, fyrr enn þeir eru af Sýslumanni jústeradir og brenndir, annars fyrirgiörir sá, sem brúkar þvílíka ójústerada mælira, bædi þeim og því hann kaupverdslar í hvört sinn, til þess, er kemur því upp, og auk þessa til sveitarinnar fátækra jafnmiklu til verdaura í fyrsta sinni, en í ödru

bréf þann 16da Septembr. 1797, hér á landi fyrirbýdur, eins og Plakat þann 15da Maji 1807,

ødru sinni tvøfoldu. §. 8.) Alla gamla mælira og vigtir skal afleggja, og enga adra enn þá hjer tilskipudu brúka; því má hvørr Sýslumadur hiereptir hafa vald og rett til ad gjøra upptækar allar óløglegar vigtir og mælira, sem hann finnur í brúkun í Sýslunni. §. 16.) Pad, sem í einn má vega og mæla, skal ecki í smám pørtum vega eda mæla. Kóngsúrskurdur af 29da Sept. 1797, skyldar og kauphøndlendur til ad vega allt ad 10 lispundum í einu, þá óskad er, og tregdulaust mjøl í ilátum. §. 17.) Reyniſt nockurr innbúa eda kauphøndlenda ad gefa sínum kaupanaut minni mælir og vigt, enn rett er og løglegt, bæti hann kaupanda skadann og þarhjá til sveitar fátækra í fyrsta og annad sinn 2 rdlm, sen vorurnar minni enn 1 rdls vyrdi, en þrefoldu verdi þeirra, nemi þær meiru (enn 1 rd); en verdi nockurr optar kunnur ad þvílumlíkri yfirsjón, straffist í mesta máta, eptir málavøxtum, sem fyrir ásett svik; undir somu sekt skal og strengilega fyrirbodid vera, ad krefja eda taka nockra yfirvigt á blautum eda þurrum fiski, tólg eda ødru, sem vegid er, eda yfirmælir á lýsi eda ødru, sem mælist. §. 19.) En reyniſt nockurr med ásettu rádi ad hafa umbreytt, eda ødruvísi svikſamlega medhøndlad mælir og vigt, hvørju nafni sem heita, þá hegniſt þeim sem falsſvikara eptir Norſkuløgum (6—18—4) bædi þeim, sem gjørdi eda ljet

þad

1807, ødrum útsølu þess hallifka lœknismeð-
als, og jafnvel þessum vissa aðra lœknisdóma,
án

---

þad gjøra, og þeim, sem vitandi brúka falska mæl-
ira eda vigt. §. 20.) Brúki nockurr vigt eda
mælir, sem af slitum, elli eda ødrum tilfellum er
aflagad, þá skal hann, se þetta angljóst, eda hafi
yfir því ádur verid qvartad; auk skadabóta, hafa
þeim mælir og vigt fyrigjørt, og þarhjá í fyrsta
sinni bæta frá 1 rdl. til 4 rdla eptir málavoxtum,
en hendi þad optar, straffist hann fyrir falsvik.
§. 23.) Bætur þær, sem nockurr vegna fyrrtaldra
yfirsjóna, verdur sektadur um, skal vidkomandi
Amtmadur láta Sýslumann innkrefja, og útbýta
þeim med sveitar fátækum þar, sem misgjørt var.

Plakøt frá 1ta Júnii 1792 og 23ja Aprilis
1793, bjóda: ad enginn megi taka Bónda eda
annann, sem ecki er rettur Borgari, búsettur í
Kaupstødum, til ad verdsla fyrir sig; enginn
Bóndi verdsla á bæ sínum (med innfærslu-varn-
íng), eda nockurr senda hann út um land til
sølu eda prángs, undir missir $\frac{1}{4}$ af því selda og
keypta, og 5 til 10 rdla bóta fyrir hvørn Íslending
eda búanda, er ljæst til þessa, en 20 rdla fyrir
Skipara edur Stýrimann, er þad hefir í frammi.
Svo sektast og Kaupphøndlendur, sem í fjørdum og
víkum verdsla, hvar ecki er regluleg kaupshøndlan
leyfd, en liggi nockurr Frí- eda Spekúlations-
handlari med verdslun (af skipum) fram yfir 4
vikur vid kaupstadi eda leyfd høndlunar plátz, bæti
sá,

án sérlegrar varúdar og réttra Lækníra for-skrifta, m. fl., siest vid nærsta §. 39. Þar hér

sá, er fyrir henni stendur, hvørt heldur er Skípari, Stýri- eda Far-manna nockurr, 4 rdlm fyri hvørn dag, þeir sannast lengur ad stadnæmast þar. Af þessum bótum ollum fær Jústitzkassinn $\frac{1}{4}$, Tukthús kassinn $\frac{1}{4}$, sá sem frá segir $\frac{1}{4}$, og sveitin $\frac{1}{4}$, sen bæturnar 10 rdlm minni, en allt hjeradid (sveitar $\frac{3}{4}$ partinn) sen þær meiri.

Rentukammerbr. þann 10da Mart. 1792, bannar og ad gefa ødrum Kaupmanna fullmektug-um Borgara-bref, enn þeim, sem halda dúk og disk í kaupstødum, þeirra Kaupmanna vegna, sem búa í Danmørku, Norvegi eda Hertoga-dæmunum, og líka fyrirbýdur, undir uppnám varníngsins, ad fara til verdslunar med skip, skútur eda báta til einstakra bæa, hvar leysdur kauphøndlunar stadur ecki er.

Tilskipan frá 13da Júnii 1787, (af henni og hjeradlútandi, sjá nóturnar i) og k) blf. 13-15) hennar II. Kap. §. 2. býdur: hvørjum sem ecki hefir fengid Borgara-rett til kauphøndlunar, er-ødúngis fyrirbodid ad hafa nockra verdslun med innfærslu varning. Sekir ř þessu, missi varn-ínginn, sem þeir høndludu med, eins og Kóngsbr. þann 14da Mart. 1758 býdur. Verdsli þeir einkum med brennuvín eda tóbak, þá skal þvílíkt bannad landprang straffast eptir Tilskip. þann

3ja

þer er tilnefndur II Kap., §. 2 og 15 í Tilskipun frá 13da Júnii 1787, finn eg nauðsyn-

3ja Júnii 1746, eins og hvorttveggja er auglýst á ný med

Plakati þann 13da Júnii 1787; þar segir: §. 1.) Enginn, sem ecki hefir rett til kaupverdslunar á Íslandi, eptir Tilskipun þann sama dag, má, eptir Kóngsbr. frá 3ja Júnii 1746, kaupa brennuvín eda tóbak, til ad pránga út aptur, eda meira, enn hann til heimilis brúkunar vidþarf, og sídan dýrra selja ødrum, enn ad algengu sølulagi. Finnist nockurr hjereptir ad fremja svo ófæmilegt landprang, hafi hann fyrigjørt því øllu, sem hann þanninn verdslar, ⅔ til þess, er frásegir og ⅓ til jafnra skipta med Hospítalinu og sveitar fátækum, hvar misbrotid er, og standi málskostnad ad auki. En Prestur eda Yfirvalds-madur, sem svo verdslar, løgsækist þaradauki til embættis tøpunar. §. 2.) Eptir Kóngsbr. frá 14da Mart. 1758, má enginn á Íslandi ødruvísi kaupverdsla, enn Tilsk. þann 13da Júnii 1787 býdur. Hvørr þar á móti brýtur, missi þær útprangudu vorur eda verd þeirra, og standi málskostnad ad auki, og sæti þarhjá ødru straffi, eptir málavøxtum, se hann embættislaus, en se hann geist-

sýnlegt ad géta þess hér: ad þeßi Citatia ö-vart hefir komid heldur snemma innt Textann, sem

geistlegur eda verdslegur embættismadur, mißir hann bædi vorur og verd þeirra, og logsækiſt til embættis tjóns. Bæturnar skiptaſt, sem segir í §. 1. hjer ad ofan.

Tilskipan þann 19da Febr. 1783, segir í inngángi hennar: ad lausamenn flacki um landid, og útsjúgi almúgann med óþørfum varnings kaupum, og eydi ad mestu leiti tíd sinni í ydjuleysi og óqvongadir, hvar med fólks fjølgan hindrist, og þeir verdi í ellinni byrdi lands og fátækra fjár, sem fyribodid er undir Tukthúß straff (nú Hýdíngu, eptir Kóngsbr. af 25ta Júlii 1808), í hennar 2, 3 og 5 Art.

Tilskipan þ. 13da Júnii 1787, Kap. 1. §. 2. fyribýdur framandi þjódum alla verdslun vid innbúa og allann kaupskap. §. 3. Neydist framandi þjóda skip til í neyd ad sækja ser hafn, og fá ser vatn eda vistir, áqvardi Yfirvaldid hvørsu mikid af þessum, eptir ástandi, má þeim veitast, en þar framyfir má ecki fara, og se skipid á medan undir adgætslu 2gja bestu manna, sem þar nærst búa, er þad kom vid land. §. 4. Framandi þjódir, sem dirfast ad fiska undir landinu, eda neyd-

sem skilmerkilegari verdur þanninn: "hvert
"skémmdar matvørur eru seldar, eda brekun-
M "vsn

neydarlaust sigla inn á flóa, firdi og hafnir þess, eda verka fisk sinn á landi, eda undirliggjandi eyjum og klettum (sjá §. 2) eda kaupverdsla vid innbúa, hafi fyrirgjørt skipi og vørum, sem upptækt skal, eptir dómi. Finnist vid ransókn, ad rádstøfun Yfirvalda eda bón Kaupmanna í landi, ad þvílíkt skip hafi innbyrdis fyrir meira enn 200 rdli af íslendskum varníngi, eda 100 rdlm meira, enn því var leyft (í §. 3.) ad kaupa sér til neydarforda, se sama straff vidlagt, og eins þegar vid ransókn finnst, ad skipid hefir af tóbaki, brennuvíni eda ødrum framandi kaupmanns varníngi svo mikid, ad nemi meir enn 100 rdlm, framyfir þad, sem líklegur skipsfordi má vyrdast, eptir ferdarlengd og mannfjølda, eda framyfir sáttmál þarum, svo fullar líkur seu til, ad skipid ásamt se útgjørt til verdslunar. Dómarinn tilkynni Skipherranum vid dóms uppsøgn, ad hann stefna megi, ef girnist, til Yfiradmiralitets rettar, og fá þángad ókeypis stefnu hjá Amtmanni. §. 5. Finnist íslendskar vørur, svo sem: fiskur, lýsi, sokkar, m. fl. í framandi þjóda skipi fyrir minna enn 200 rdli, eda 100 rdlm minna framyfir leyfdann neydarforda, og geti þetta ecki álitist ad vera ablad af skipverjum sjálfum eda ad heiman flutt, en þó líklegt ad vidkoma þeim, en

ecki

» vinr ferdafólki og ødrum í skaupatali, eink»
» an»

ecki Reidara skipsins, þá skulu þær framandi vørur, sem ecki geta álitist ad vera áqvardadar þeim til fædis eda brúkunar þeirra og skipsins, og þær íslendsku vørur, sem þeir keypt hafa, vera uppnæmar eptir dómi, og auk þessa borgást jafnmikid verdi þeirra til fjárhyrdslu Konúngs. Skipari þess skips, á hvørju þvílíkt afbrot er framid, bæti 50 rdlm, sem, ásamt fyrrtjedum bótum, hann og skipverjar, einn fyrir alla og allir fyrir einn skulu afgreida strax, og gjeti þeir þad ecki, útleggist af skipsabla edur farmi jafnmikid, skal þá reikna hvørja tunnu af søltudum fiski á 7 rdli, og annad eptir gángverdi þess. §. 6. Undir sama skilordi gjaldi Skipari og skipverjar sameginlega og med sama móti jafnmikid í bætur, sem vøruverd er, þegar þeim er varpad fyri bord vid tilkomu danskra herskipa, eda annara, til framandi skipa ransóknar, og skulu vørur þessar uppnæmar, sem strax eptir verdur nád. Auk þessa lúki Skiparinn 50 rdlm í bætur, þá þvílíkt løglega sannad verdur. Bætur þessar innkrefjast med sama hætti. §. 7. Strengilega se innbúum Íslands og þess Eya, ásamt skipsfólks á danskra skipum, fyribodin øll kaupverdslan vid framandi, neydar tilfelli ein undantekast. Dirfist nockurr hjerámót ad gjora, skal hann, ef embætti hefir á hendi, løgsækjast til þess tjóns, og fjárbóta ad auki, eptir málavøxtum, hvørt sem hann sjálfur fremur þvílíka verdslun,

eda

eda brúkar adra til þess. Gjori Kaupmenn í landinu þvínmlíkt, eda Skipherrar og Faktórar, sem þángad koma, skal hinn seki í 1ta sinni hafa fyrigjört ollu því hann keypti, og auk þessa tvenu verdi þess, hvør sekt, eptir ástandi, hækkast, se optar svo misbrotid. Hendi þetta almúgañ, eda skipverja á skipum danskra þegna, skulu allar íslendskar vørur, sem þeir eru á leid med til framandi þjóda, og vorur keyptar af þessum, og sem hjá þeim eda í húsum þeirra hittast, uppnæmar, auk þessa liggja hjer fjárbætur adrar vid, eptir varníngsins verdi og málavøxtum. En skorti gjald þeirra, áfyláníst þær med straffi á kroppinum, eptir úrskurdi vidkomanda Yfirvalds. §. 8. Allir í landinu og skipverjar á (dønskum) skipum, er koma til þess, skulu tilkynna nærsta Yfirvaldi, og med allri uppþenkjanlegri kostgæfni, uppgøtva allt hvad verdur um kaupverdslun vid framandi þjódir. Einkum ber þetta þeim konúnglegu Embættis-mønnum. Gjori nockurr þeirra ecki fullnustu Konúngsins skipun hjer um, med hradaun rettargáng í þeim málum, og sanníst, ecki ad hafa gjort þá sekn uppvísa, þó hann vissi þeirra óløglegn breytni, løgsækist hann til fjárbóta, eptir málavøxtum, og auk þess hafi fyrigjort embætti, eptir §. 7. Í ollum þeim málum á Aukarett ad halda, og Prócess sem styttstann ad gjora, eptir Gestarettar formi. §. 9. Þeir, sem bevísanlega koma þvílíku afbroti

„af 13da Júnii 1787, Kap. II. §. 2, 15, hvar „med honum," etc. c).

Ad-

upp, sái hlut í þeim bótum, sem §. 2 — 8 áqvarda, hvørjir sem eru, allteins Yfirvaldsmenn, auk borgunar fyrir størf þeirra, jafnt ødrum, er gefa þetta til kynna. Ec skip og góz gjørt upptækt, eptir §. 2., skal sølwerd beggja, ad rettargángs og ødrum af skipsins tekt leidandi kostnadi frádregnum, skiptast jafnt milli Konúngsins og Sakaráberans, en þessi skal einn ega vørurnar og ⅔ bóta, hvar vørur, eptir §. 3 — 8, verda uppnæmar og sektir vidleggjast ad auki, þó ad frádregnum kostnadi fyrir verk Yfirvalda þarvid og solulaunum, vilji sakaráberi láta þær selja, en ⅓ bótanna skiptist jafnt med Hospitali þess Landsfjórdúngs og Sátækum þeirrar sveitar, hvar misbrotid var. Þegar eptir §. 7da og 8da einúngis fjárbætur gjaldast af seknum eptir dómi, skiptast bæturnar allteins, en hinn seki standi sjálfur málskostnadinn.

c) Tilskip. þ. 13da Júnii 1787, Kap. II. §. 2. þessa Artikula innihald er ádur tilfært í nótu i) bls 13, 14 hjer ad framan. §. 15. Ef fornvørn skemdir finnast þanninn, ad þær álítist skadnæmar heilsu manna, þá skal Yfirvaldid hafa myndugleika til ad fyrirbjóda þeirra útsølu, en sá, sem engu ad sídur selur nockud af þvílíku korni, skal gjalda 100 rdla sekt, sem skiptist jafnt milli þess, er þvi kemur upp, og sveitar fátækra hvar þetta skjedi.

Adgætandi vid listann yfir jafnast gáng-verd inn- og út-lends varnings hvert sumar, sem Háyfirvøld krefja af Prófestum og Sýslu-mønnum árlega, er: ad hann á ad lagast eptir því, sem hæst hefir stad í vidskiptum sérhverrar sveitar manna vid adra.

## §. 39. Bls. 32—33.

Hellsta innihald Tilskipana frá 17da Apr. 1782 og 27da Maji 1808, er ad sønnu almúga kunn-ugt, svo sem hér á prent útgéfid á íslendsku þ. 10da Okt. 1809, og uppfest á allar Kirkjur og Þíngbús, og sem skjal, er fylgja á Hreppstjóra embættinu; þó set eg stuttsta høfud ágrip hellstu atrida, sem oss einkum vidkoma, hér ad nedan d), svo



d) Tilskip. 17da Apr. 1782 §. 1. Þegar skjædar og næmar sóttir, sem dreifa sér út í húsum, uppkoma, svo sem: blódsótt, flekkusótt, eda ønnur hættuleg sótt, gefi húsbóndinn, fólk hans eda grannar þad strax Prestinum til kynna. §. 5. Þeir, sem sjúk-um þjóna, gæti þess med alúd, ad læknis medøl brúkist reglulega eptir forskriftum Lækna, og má enginn óvidkomandi koma til þeirra sjúku. Hvar sóttin vidheldst, seu sorgar og almúga samkomur á medan fyribodnar. §. 6. Þeir, sem deyá af þesshàttar skjædum sóttum, jardist innan fullra 4 dægra þareptir, í sama fatnadi, sem þeir deydu í, 4 álna djúpt, í innantil bikudum líkkistum. Engin

svo það ecki øldúngis vanti í bók þessa, heldur að ágrip af flestu, Hreppstjórum og ødrum mark-

Engin líkfylgd með þeim leyfist ønnur, enn þeirra, sem nauðsynlega þurfa til að bera þá og jarða, (ecki heldur erfisdrykkjur, bætir Tilskip. þann 3ja Apr. 1810 við í §. 18). §. 7. Fái þetta allt þó ecki hindrað útdreifíngu skæðra sótta, má, þegar Landlæknirinn álitur það øldúngis nauðsynlegt, láta sóttar bæina með mønnum umsitja, eptir ráðstøfun Amtmanns, til að verja allra samgaungu þaðan og þángað.

Tilskip. 27da Maji 1808 býður: §. 1. Hvørr húsfaðir og húsmóðir tilkynni Presti eða Hreppstjóra sínum, en þeir aptur Sýslumanni og Læknir, án tafar, þegar við barnabólu verður vart í þeirra húsum, undir 8 daga fángelsi við einbert vatn og brauð, inntil 3gja mánaða Tukthúss erviðis, eptir málavøxtum og dómi, (svo býður nú og Tilskipan þ. 3ja Apr. 1810 §. 15). §. 2. Læknar og Prestar, sem um þetta fá vitneskju, gefi það strax til kynna Yfirvaldinu, með hvørs styrk þeir leitist við að lækna þá sjúku, og fyribyggja að bólan dreifist út. §. 3. Allir í þeim húsum, hvar vart verður við bólu, skulu strax láta setja sér kúabólu, se ecki vissa um, að þeir áður enga bólu, setta bólu eða kúabólu fengið hafi. §. 4. Varúðar reglur, sem Tilskip. þ 17da Apr. 1782 (hjer nærst á undan nefnd) fyrileggur, um skæðar landfarsóttir, skulu og gylda um bólusótt. §. 5. Og þeir,

markverdu, úr legum, sem Instrúxid áhræra, hafist hér vid hend e). Til hugvekju Hrepp-
M 4 stjór-

þeir, sem forsóma ad tilkynna uppkomu þeirra (sem §. 1. þeirrar Tilskipunar býdur) straffist eptir §. 1. Tilskip. þ. 27da Maji 1808 (það er þessarar)

e) Þann 3ja April. 1810, er fyrir Danmørk og Norveg útgengin Tilskipan á ný, um kúabólusetningu, hvarí Konúngur segir hana ad vera fullreynt og óhult vørnunar medal gegn bólusótt, og þeßvegna býdur og skipar medal annars í §. 3.: Ad Pólitiþjónar (hier því Hreppstjórar) á serhverjum stad, strengilega vaki yfir, ad Konúngsins bodord um kúabólu-setníngu og vørnun bólusóttar, sen haldin, Læknа forskriftir um hána náqvæmlega fylltar, og afbrot þar á mót skyndilega strøffud. §. 7. Forstandarar og Fyrirrádendur kennslustiptana allra og skóla, sem ecki teljast med lægstu Almúgaskólum, sen ansvarlegir, ad enginn, sem ecki sannar, ad honum hafi kýrbóla sett verid, eda ad hann hafi náttúrlega bólu fengid, se til kjennslu tekinn eda uppeldis í þá skóla. §. 10. Hafi Konfirmations børn ecki kúabólu eda náttúrlega bólu fengid, ega Prestar ad áminna þau um, strax eda undir eins og þau geta, ad nota þetta, lífi þeirra og heilsu markverda, vørnunar medal mót bólusótt, sem kýrbólu-setníngin gefur. Og frá 1ta Jan. 1811, má enginn Prestur gefa nockurn í hjónaband, nema bædi brúdgumi og brúdir sanni, ad þeim hafi kýrbóla sett verid, eda þau fengid náttúrlega bólu.

§. 11.

um og ödrum hlutadegendum, gét eg þess hér, ad enn þótt þessar Tilskipanir, þann 27da Maji 1808,

§. 11. Þegar náttúrleg eda barnabóla´ stíngur sér nidur nockursstadar á landinu í Konúngsins Ríkjum, ega allar manneskjur á þeim bæum, hvar bólan kom, og sem ecki bevísanlega hafa bólu eda kúabólu fengid, án undanskots strax ad leggjast undir kýrbólu-setníngu. §. 12. Í kaupstødunum allir eins í bólusóttar húsum. §. 14. Þared náttúrlega bólu opt er bágt ad þeckja frá annari húdveikju, þá skal álíta, serhvørn útslátt, sem inniheldur smábólur, og sem votta sig strax ofan á siúkdóm, sem er meir eda minna þeckjanlegur, sem grunsaman um bólusótt, og þessvegna tilkyña hañ, eptir fyrirmælum §. 15 og 16, undir þar ávedin straff, ef mót er brotid, reyniſt sóttin eptirá ad vera bólusótt. §. 15. (Innihald þessa §. ad því leiti hier eginlega snertir, er sem §. 1. í Tilsk. þ. 27da Maji 1808, bls. 182). §. 16. Í kaupstødnum grenslist hverr húsrádandi í húsi sínu eptir um þennann siúkdóm, og tilkynni hann án tafar Læknirnum, en viti hann af sótt þeirri, og forsómi þad, bæti 10 til 100rdala eptir málavøxtum. §. 18. er sem §. 4 í Tilsk. þ. 27da Maji 1808, og §. 5. og 6. í Tilskip. þ. 17da Apr. 1782 (sjá bls. 181—182). §. 19. Komi skip nockurstadar vid í Ríkjunum, sem hefir bólusjúka eda brúkunarføt

þeirra

1808, 1 §. 1., og þ. 3ja Apr. 1810, í §. 15, eins og sum fleiri eldri løg, leggi vid þessum og ødrum yfirsjónum, fángelsi eda setu vid vatn og braud f), og þó einstakir Dómendur eda Yfir-



þeirra um bord, leggist þad í Qvarantaine (eda afsídishald frá øllu samqvæmi vid landsfólk), uns búid er ad sækja þá sjúku, reykja og hreinsa føt þeirra, sem ber, um bord, og plátz þad, er sjúkir í vóru. §, 20. Svo ad bólusótt haldist ecki vid, eda háskasemd útdreifist á ný vid hennar setníngu, fyribýdst strengilegast øll setníng náttúrlegrar eda barnabólu. Dirfist samt nockurr Læknir ad setja hana, skal honum framar fyribodid vera ad æfa lækníngar nockursstadar í Konúngsins Løndum og Ríkjum, og hann þarhjá missa embættid, hafi hann nockurt. Sømuleidis skal og serhvørr, sem annadhvørt sjálfum ser eda børnum sínum og ødrum lætur setja náttúrlega bólu, sektast fyrir ásett brefabrot med afsetníngu frá embætti, se hann Embættismadur, en annars fjársektum, eda med ødru straffi, eptir málavøxtum.

f) Lærdir menn og nafnfrægir Læknar hafa annars ádur leidt fyrir sjónir opinberlega og skorinordt, ad straff med vatns og brauds vidurværi eitt, se upprunalegt Múnkastraff, og straff, sem eckert annad egi ser líkt, því þad eydileggi manneskjur innvortis, þeirra heilsu, lífskrapta og líf, varandi ad mikilli mælíngu vid dag hvørn; straff, sem jafn allra svari til tilgángsins med þad, og sje því

opt

veld hafi leyft sér ad dæma eda úrskurda seka í smáþjófnadi og honum vidridna til þessa straffs, er þad nú og framvegis, G. s. l., ølddúngis fyribodid hér á landi med Kóngsbréfi þ. 25ta Júlii 1808, §. 9., en opinber vinna í stad vantandi sektagjalds — hvert þó vyrdist í hins straffsins stad nú hellst tilhlýda — fyriskipud þeim seka, ad úrskurdi Sýslumanns, fyri sanngjørn daglaun, sem Amtmadur samþycki, hvørra helst reikníst uppí sektina, en hitt þeim seka til fædis, líka á sú vinna ad veljast til, sem þeir seku metast hæfir til, og hentug árstíd til þvílíkrar vinnu. Sjá bls. 115, og Tukth. Fúndatz. 3ja Mart. 1784, II. Kap. §. 8.

Hlaupalækna straff, áqvedur Tilskip. 5ta Sept. 1794, §. 5. g); en hennar §. 1. ætlar og Em-

opt margvíslega misbrúkad til ad gjøra gis ad Rettlætisins hegníngum; straff, sem se, næst lífsstraffum, já, vari þad lengi, þeßum hardast, miskunarlaust, qvalafullt og háskalegt, móti hvørjn þeßvegna er flestum fremur mælt af mørgum vitrum manni, ecki ad nefna, ad braud er vorn landi ecki náttúrleg, eda ætíd og allstadar andfengin, fæda. Sjá Professor Dr. Joh. C. Todes Sundheds Raad, 1te Hefte 1795. Side 198, 217.

g) Tilskip. 5ta Sept. 1794, §. 5. Taki Hlaupalæknar nockura sjúkann ad ser til lækníngá, og þanninn leidi hann í háska, straffist hann í fyrsta sinni med 20 rdla fjárbótum til sveitar, eda, ef skotsyrir brestur, setjist í vardhald vid einbert vatn og braud í 8ta

Embættismonnum, einkum Prestum, ad iñrætaalmúga þad, sem Instrúxins bls. 33 tilnefnir, allt til ad varna uppkomu skjædra landfarsótta og þeirra útdreifingu (sjá og nótuna q) bls. 28 — 29 hér ad framan). Þarad lýtur og Plakat frá 18da Maji 1787, í bólu og mislínga eda fleckusóttar tilliti h). Bædi í sama tilgángi og til

í 8ta daga. Hendi hann þad optar, vardar þad 6 mánada Tukthúß ervidi, hvort straff sídan tvøfaldast hvort sinn úr því.

h) Plakat frá 18da Maji 1787 býdur (álíkt og Rentukammer, þann 15da Júnii 1773, ádur hafdi rádstøfun um gjørt, og Stiptamtmadur Thodal, 16da Júlii s. á., gefid Prestum og Hreppstjórum vald ad framqvæma, sjá Løgþíngisbók 1773 bls. 28): §. 4. Komi nockurr Skipherra til Islands, án þess ad hafa eidfest skilríki med ser (um þad, ad hann engann skipverja hafi innanbords, sem í 6 vikur nærstlidnar haft hafi bólu eda mislínga, eda fatnad af þeßháttar sjúklíngum), áteiknud af Yfirvøldum og Tollheimtumonnum, og innsiglud þar, sem hann kom frá seinast, skal hann bæta 5 rdlu til sveitar fátækra þar á Islandi, sem hann hafdi ferd heitid, eda hljódi paßi hans uppá fiskiveidar einar, þá þar til sveitar, er hann kemur fyrst vid land, hvar hann og sýna á skjøl sín. Finnist vid nákvæma ransókn, er Sýslumadur þá strax skal halda, og

til ad varna vidurstygd manna og meiri óhollustu í sambúd holdsveikra, er Hreppstjórum því og bod-

og í eid þar um taka Skipherra, Stýrimann og skipverja, hvört nockurr skipverja eda ferdamadur hafi verid med þeim og komid hier út, nýlega siúkur af bólu eda mislíngum, eda sótt þvílikra flutt um bord, og finnist þar innsend til lands, ad einhvörr treystist ecki til hann ad vinna, eda nockud af framburdi þeirra gefi grunsemd um framda yfirsjón í því tilliti, se ransókninni skarpt framhaldid, og finnist vísvitandi yfirsjón mót því fyriskipada framin, bæti Skipherrann til fyrrnefndra fátækra 10 rdlm, auk ádursagdra 5 rdla, og reynist þá rúmfatnadur um bord, sem bólu- eda mislinga-siúkir ádur láu vid, skal sá sami strax, í náveru Sýslumannsins, vefjast saman og sockvast í haf nidur. §. 5. Verdi nockurr á leidinni bólu- eda mislíngasiúkur, gefi Skipherrann þad strax, er hann kemur hier til lands, til kynna, svo oll varúd verdi vidhøfd til ad varna sóttum. §. 6. A landi skal alvarlegustu rádstøfun giøra þá, ad enginn komi um bord þadan á þvílikt skip, í hvörju bóla eda mislíngar fundust, og sæki nockurt inn- eda út-lendskt skip hier høfn í neyd, gefi Skipherrann, strax sem skipinn er í høfn biargad, til vitundar, hvört hann nýlega haft hefir bólu eda mislínga innanbords, til somu varúdar. Forsómi hann þad, bæti hann 100 rdlm

til

bodid ad sæta færi med ad koma heim á Hos- spital, hvar til Tilskipan um Hospitøl, hann 27da

til sveitar fátækra, hvar hann fyrst kom vid land.
§. 7. Deyi nockurr af hessum sóttum um bord, skal likid, med iveru- og rúm-fatnadi ens dána, leggjast í kistu og sockvast í haf nidur.

Rikjanna løggjøf hefir ecki uppálagt Sóknar-fógetum í Dannmørku eda Ljensmønnum í Norvegi, afskipti af Qvarantaine rádstøfunum (edur afsídishaldi skipa og manna um 40 daga, ef grunsemd er á, ad med heim flytjast kynnu næmar sóttir frá sóttar-plázum) hvørs vegna heirra ecki heldur er minnst í Instrúxins §. 39, med hví hær og eru ímørgu helst of vandhæfar fyrir Hreppstjóra, og hessvegna einúngis Yfirvølda medfæri hjer, eptir Tilskipun h. 8da Febr. 1805, vidvíkjandi vørnum næmra sótta af skipum, er koma frá sóttnæmum stødum, etc. med haradlútandi Instrúxi fyrir Løgþa, h. 1ta Mart. og Plak. h. 15da Maji 1805, um adgætslu reglur fyrir skip, er koma frá Nordur-Ameriku, í tilliti til Qvarantaine rádstafana. En ad hví leiti gódri Póliti-stjórn hó vidkemur, ad varna útdreifíngu næmra sótta, og had opt henda kann, bædi í neydar tilfellum og annars, ad útlend skip komi hjer vid land, fjærri bústødum Sýslumanna, ber Hreppstjóra har ad fyribjóda alla samgaungu af landi vid há skipverja, og eins hessara komu til lands, einkum komi skipid frá Vestindíum, Ameriku eda Midjardarhafinu, eda hafi á leidinni fyrirhitt víkínga, eda skip frá Levante eda Afriku (hvad eg hjer tilnefni eptir Tilsk. 14da Nóv. 1800, í §. 2., har hjer á landi sjaldan er kunnugt um há framandi stadi, í hvørjum næmar

27da Maji 1746, í §. 3, 5, 13 og 18, og N.L. 2—19—3, 6, gefur leyfi og ætlast, (sjá

næmar sóttir geysa, og sem §. 8. Tilskip. 8da Febr. 1805 að eins. tilnefnir), uns Sýslumanns frekari ráðstafan hjer um fæst, hvorrar hinn í þeßháttar tilfellum strax ætti að leita.

Það er þó athugandi: að svo má opt standa á, að sjúkir menn af bólu eða næmum sóttum, við skipreika, verði að koma á land, eða beiðist hjúkrunar og lækningar í landi, ef til hvorugs væri saung um borð. En, þá er það samqvæmt boði ens konúnglega Cancellíis, þann 26ta Sept. 1807, til Yfirvalda í báðum Ríkjunum, eptir undirlagi Heilbrygdis Collegii í Kaupmannah., að í þeßháttar tilfellum fái sjúklíngar, með næmum sóttum, að sonnu landgaungu, en leggist strax inn á Hospítal, hvar nockurt er í nánd, en annars í afsíðis hús, og skuli þá hús það, hvar þvílíkur sjúklíngur er í lagður, til vörnunar sóttnæmis fyrir aðra, þó umsitjast með vakt, er hindri aðara samgaungu, en þeirra, sem til þjónustu eða lækninga nauðsynlega viðþurfa í húsinu.

Þess má eg og geta fyri þá, sem til sjúklínga koma verða í næmum sóttum, eða þeim að hjúkra: að nafnfrægustu Læknar, og meðal þeirra Geheimeráð Dr. Húfeland, fyriskipa stöðuga aðgætslu um, að viðhalda jafnan hreinu og frísku lopti, en ecki inniteppta eða stíbbu, hjá sjúklíngum, og mögulegasta þrifnaði í öllu, á þeim sjálfum og í húsinu; ecki að geyma þar inni mat eða dryck, eða augnabliki lengur, hvað náttúran tæmir út hjá sjúkum, svo sem: þvag, saurindi, spýur, hósta-spýtur eða annað, og tjá, jafnvel að bólan sjálf, verði þá ecki öðrum sótt-

(sjá framar þar um nærstfylgjandi 40. §), og á adgreinda sámenna stadi, einninn ad halda þeim frá almennum samkomum. Dunnr Ríkjanna Løg i) hafa álitid sjón hryllilega veikra háskalega ólettum konum, og bædi þess og almenns vidbjóds vegna, fyribodid þeim umferd og betl, eda ad sýna fólki útvortis veikindi sín. Hèr er því ástædan sem í þessari fyriskipun. Hreppstjóranna skyldu ad hindra giptingar holdsveikra og þeirra, sem til spítelsku vyrdast líklegir, hefi eg nefnt og sýnt vid §. 14., bls. 42—43, 46—48, ásamt innihaldi þess tilnefnda Kóngsbréfs frá 1776, um holdsveika, og Kóngsbod þann 29da Sept. 1808, um andstyggilegann kláda, einkum bls. 47; en hvad vidvíkur betrun vatnsbóla, einkum í sjóplátzum, er sýnt bls. 28

sóttnæm enn þeim, er snertir hinn sjúka eda søt hans, eda kemur rett nálægt honum, hvar andardráttur hans hafi loptid eitrad. Ecki ad koma fastandi eda svángur til sjúkra, og engu hjá þeim ad renna nidur, heldur spýta munnvatni út, segja þeir og ad verji sóttnæmi.

i) Tilskip. þann 24da Sept. 1708 býdur í §. 12.: Þeir sem í andliti eda annarsstadar á kroppinum eru med sárum eda útbrotum illa útlítandi eda og med útvortis veikleika vera kunna fólki, einkum ólettum konum, til hrædslu og vidurstygdar, mega ecki láta sig siá á gøtum, þjódvegum eda ødrum opinberum stødum, og enn sídur sýna eda opinbera þau veikindi þeirra (þar).

28 (vötu q), og um lækníssdóma sölu sjest ágrip þaradlútandi lagagreina hèr fyri nedan k).

Hvad

k) Cancelliebref þ. 16da Sept. 1797 bjódur: ad selji nockurr á Íslandi læknismedöl, nema rettir Apothekarar, hafi hann þeim fyrigjört, og sektist ad auki paßlega, samqvæmt Kóngsbrefi fyri Norveg, útgefnu 17da Janúari 1783, sem tiltekur frá 10 til 20 rdla.

Plakat frá 15da Maji 1807, fyribýdur öllum, nema Apothekurum og Materialistinum, ad selja þad læknismedal, sem árid 1753 var leyst Munadarleysingja-húsinu í Halle, ad láta einn og serhvörn selja í Danaveldi, undir nafninu: hallißkt Læknismedal.

Kóngs Urskurdur þ. 15da, og Plakat þ. 31ta Maji 1798, fyrirbýdur Apothekurum ad selja uppsölumedöl, blódhreinsandi dropa, eda önnur drastisk eda sterk púrgermedöl, nema rètts Læknis forskrift fylgi, dagsett og med áteiknudu sjúklingsins nafni, hvörjum þau medöl ætlast þá, þegar forskriftin var ritud. Hvörr hier á móti brýtur, sektast í fyrsta sinni 20 rdlm til sveitar fátækra, en tvöföldu hvört sinn upp þadan.

Tilskip. 4da Dec. 1672 (hier birt) býdur í §. 30.: ad landhlauparar, sem leynt eda opinberlega gjöri föl einföld eda samansett medöl, sem heyri til Apothekum, skuli hafa þeim fyrigjört, og bæta

þar

Hvad um Yfirsetu-qvenna kunnáttu í ment þeirra lídur, vita ad sönnu allfáir Hreppstjórar, sem von er, réttilega ad dæma, en adgjætt gæta þeir, hvørt fáſa alúd og vidleitni alla, án alls mannamuns, eda ósanngirni, auds sýna; hvørnin þeim heppnast; hvørn ordróm þær fá; hvørt skadi nockurr verdur ad, og, ef svo vill til, grenslast eptir, hvørsu þá á stód; hvørt þær heppilega hafa úr nockrum vandrædum greidt, eda þvert á mót hytdulegsi sýnt; hvørt hneigdar eru til ofdryckju; hvørt heilsa þeirra eda aldur gjörir þær framar færar til svo árídanda verks, edur ecki, og — þá medþarf, vera med Sóknarprestinum í rádi med ad velja og útvega adra, til hvørs Tilskipan um hjónabandssakir, þ. 3ja Júnii 1746, í §. 15., ad sönnu nefnir Medhjálpara, en ad Hreppstjórar séu þar til engu sídur fallnir, mun hvørt og



þarhjá 100 rdlm í sekt, ⅓ Konúngi, ⅓ Stadar-yfirvaldi, hvar þetta skedur, og ⅓ Apothekaranum, sem þar á útsölu, svo þarmed fyribyggist háski og skadleg misbrúkan á medala sölu.

Plakat 9da Júnii 1807 fyrirbýdur, vegna háskasemdar fyrir heilsu manna, undir 2gja til 10 rdla bætur, blýblandada fórtinun, sem sett er á med harpixi, á öllum ílátum, sem brúkast til matreidslu, eda til ad geyma í matvæli eda dryck. En — hvør hellst fortinan íláta se vid þau hofd, er ecki Hreppstjóra, heldur ædra í kunnáttu þeirri, rett ad ýbgreina.

og einu finna. Þeßi Tilſkipan bÿdur þar og, ad Ljósmædur takiſt í eid af Hreppſtjórum, í vidurviſt Preſts og Medhjálpara, en Ritúall-inn, blſ. 116, felur þad Amtmønnum á hend-ur; þeßir eru alloptaſt fjarlægir, en Hreppſtjór-um þó hardaſt bentugt, ad taka eida af mønn-um, þvi ſetur Inſtrúxid, ſem líklegaſta, Sÿslu-menn til þeſs, þó ad bodi og ſamþycki Amt-manns 1). En hvad má búendum í hvørri ſveit,

1) Ad ſønnu er Tilſkip. þ. 30ta Nóv. 1714 um Ljós-mædur, ſem þó, gyldir vídaſt um Danmørku og Norveg, ecki enn hjer løgleidd, þó gjøra ſømu á-ſtædur morg hennar bodord hjer alltéins gyld og hentug, t. d.: §. 6. Þær ſkulu ecki hneigdar til of-dryckju, og halda ſer frá øllum áfengum dryck, bædi á undan og eptir barnburd. §. 8. Hjálpa fátæk-um eins vel og ríkum, og ecki ſkitins ávinnings vegna, án markverdra orſaka, yfirgefa fátækar kon-ur, ſem þær fyrſt eru kalladar til. §. 9. Mæti þeim vandrædi vid fædinguna, rádgiſt í tíma vid ſkírar yfirſetukonur, og, eptir áſtandi, láti Læknir tilkalla. §. 10. Gefi engri giptri eda ógiptri qven-perſónu medøl eda annad, ſem fóſtur í módurlífi ſkada megi, tilbúi ecki þvílík medøl, eda víſi ødrum á þau, undir tøpun embættis, æru, eigna, já, lífs, eptir málavøxtum. §. 11. Gefi engum fædíngu flýtandi medøl inn, en rádgiſt heldur vid Læknir. §. 12. Bannar ljósmædrum ad lækna qvennfólk, ſængurkonur, úngbørn eda adra, nema konur og úngbørn ſeu í miklum háſka, og Læknir ſe ófáan-legur, þá megi þær gefa þeim einfaldt læknismedal frá Apothekum. Bidji þær nockurr um ſkadleg rád, ber þeim eptir §. 13. Náqvæmlega ad grenſlaſt eptir

sveit, egin og besta náúnga lífs og eptirkomaranna velferdunar vegna, vera meir annt um, enn um góda mentun Ljósmædra, til hværrar sérhværrar ærlegur madur ætti fús mikid ad vilja leggja.

## §. 40. Bls. 34.

Innihald tilnefndra laga-greina finnst hér ad nedan, eins þeirra héradlútandi, sem á bladf. 191 var hér tilvísad m).



eptir øllu ásigkomulagi, og tilkynna þetta Yfirvaldinu til vørnunar ílliræda.

Plakat þann 29da Apr. 1791, fastsetur kaup yfirheyrdra Ljósmædra í Danmørku þanninn: af bóndakonu 3 mk., húsmannskonu 2 mk. og einhleypíngi 1 mk, en segir í §. 3., ad neiti Ljósmódir ókeflud annarstadar, og óhindrud af veikleika, nockurri í umdæmi hennar adstod í barnsneyd, sektist hún til sveitar um tvøfaldt vid þad, sem henni bar í kaup. Rítúalliun af 25ta Júlii 1685, skyldar þær til ad hjálpa þeim, sem ecki geta betalad, Guds vegna.

m) NL. 2—19—3. Sen nockrir spítelskir til, skulu þeir leggjast í hentugt hús, uppbyggt vid Hospítalid, hvar þeir hafi naudsynlegt uppheldi og ánægjanlega þjónustu.

NL. 2—19—6. Enginn má takast á Hospítal vegna gunstar, gjafar, vildar eda vináttu, heldur ad eins þeir, sem þess stórum vidþurfa.

Tilskipan þ. 27da Maji 1746, bódur í §. 3.: Vid Hospítølin skulu hentug hús vera handa þeim veiku og spítelsku manneskjum, sem þángad verda inntecknar. Hreppstjórar þeirrar sveitar, hvar Hospí-

## §. 41. Blſ. 34—35.

### Þær í þessum Artikula Instrúxins áviſuðu Laga:

Hoſpitel liggja, haſt tilſjón með Hoſpítalsjarð-anna og undirliggiandi hjáleigna byggíngu og viðhaldi. Finniſt Hoſpítalshaldarar við það hyrdulauſir, geſi Hreppſtjórar Sýſlumanni það til kynna, ſem ſtrax láti ſkoða hvað ábreſtur og gjøra álag fyrir það, og ſetja Hoſpítalshaldar-anum viſſann tíma fyrir til endurbótar, undir að-ſør. §. 5. Hoſpitalshaldarar ſkulu móttøku veita ſvo mørgum ſpitelſkum mønnum, ſem Umſjónarmennirnir áſamt þeim, halda að for-ſorgaſt megi á Hoſpítalinu, eptir jarðar áſig-komulagi og Hoſpítalsins efnum. §. 13. Enginn ſkal á Hoſpítøl takaſt, á þeirra koſtnað, ſem ecki er ſpitelſkur, fátækur og vinalaus, og ſýnt getur vitnisburð Preſts ſíns og Hreppſtjóra um ſitt kriſtilega líferni. §. 18. Vilji nockurr, ſem að løgum á að forſorga ſpítelſka manneſkju, koma henni á Hoſpital, og þar árlega betala með henni fullann Forlags-eyrir — hvørs upphæð, eptir hennar §. 14., er ſýnd, blſ. 111, en 2 Kóngsbréf, þ. 25ta Sept. 1801 og 17da Maji 1805, leyfa nú Hoſpitalshaldaranum eins vel að kreſja 30 rd. í peníngum í árs forlag karlmanns, og 24 rdli fyrir konu — þá má ecki neita honum þarum, þó ſvo, að það verði ecki fátækum til þreyngsla, heldur með vilja og vitund Umſjónarmannanna. §. 19. Allir, ſem fara með ſkip til ſjóar, ſkulu einuſinni á ári ſkipta Hoſpítalinu hlut af øllu því fiſkifángi, hvørju nafni ſem heitir, ſem Guð geſur þeim. Hindriſt fólk að ſækja ſjó þá hjer tiltekn daga (í ſerhvørju landsplátzi) eða ſvo líti fiſkiſt,

fiskist, að ecki sen 5 fiskar í hvörn hlut, gefist Hospítalinu hlutur nærsta dag þar eptir, þá 5 fiskar eru í hlut eða meira. Af fuglum gefist því, hvað á einum áqveðnum degi veiðist, í Vestmannaeyum, Drángey, eða annarstaðar, hvar fugltekja er brúkuð, og svo að hjer með se þess frómlegar farið, svik og leynilegur afdráttur fyrirbygð, tilsetji Sýslumenn ráðvanda dánumenn kríngum allt landið, hvar útróðrarskip eða bátar finnast, sem taki á móti Hospítalshlutum af fyrrtjeðum fiski, þurki hann og verki, og standi Sýslumönnum síðan góð skil á; njóta þeir í ómakslaun fyri það, þorskhöfða, kúlna og rasks af þeim fiski, en skili lýsinu (nú eru það eptir Instrúxins §. 40. Hreppstjórar). Reynist þessir menn hyrðulausir með verkun fiskjarins eins vel og veðurátt leyfir, sitji þeir sjálfir með hann, en borgi andvyrðið til Hospítalsins. Sömuleiðis gefi Hreppstjórar úr hvörjum hreppi Sýslumanni skriflega undirvísun um, hvörsu mörg skip eða bátar árlega gánga til sjóar í hvörri veiðistöðu, svo Sýslumenn sjái þaraf, hvört hlutur er Hospítalinu skiptur af öllum skipum og bátum. Reynist nockurr að hafa ránglega skipt eða vísvitandi rírt Hospítalshlut, straffist sem Þjófur.

Dagar, á hvörjum Hospítalshlut skal skipta, eru:

Frá Lánganesi til Austurhorns, fyrsti rúmhelgur dagur eptir Jónsmessu.

— Austurhorni til Búlandshöfða, bæði í landi og í Vestmannaeyum, fyrsti rúmhelgur dagur eptir Páska.

Frá

verdu; því annad finn eg ecki við hann att hugandi n).

§. 42.

Frá Búlandshöfda, kríngum allt Vesturland, til Hrútafjardar-ár, nærsti rúmhelgur dagur eptir Krossmessu á Vor.

— Hrútafjardará til Lánganess, kríngum allt Nordurland, nærsti rúmhelgur dagur eptir Vitusmessu (15da Júnii).

Um arfa fátækra og Hospítala, sjá bls. 87-89, og Cancelliebr. 25ta Okt. 1803.

n) Tilskipan Þann 29da Maji 1744, býdur í §. 24: Pared venja skal ordin á Íslandi, ad Sýslumenn haldi Manntals- eda Hjerads-þíng sumstadar í kirkjum, vegna annara óhentugra húsa, þá er þetta hjer med fyribodid framvegis, en almúginn skal, undir umsjón Amtmanns og Sýslumanna, uppbyggja hentugt Þínghús í hverri Þíngsókn, hvar vidþarf, á hentugum stödum, eins og lands ástand leyfir.

Reglug. Þann 17da Júlii 1782 §. 15. Kirkjugard og kirkjuveggi skulu bændur í sókninni upphlada og þekja kirkjuna kauplaust, þó má gefa þeim allrafátækustu, sem ecki geta fædt sig siálfir, einmælt mat daglega, medan þeir eru heiman ad, og fá þeim verkfæri til vinnu, og færa þetta kirkjunni til reikníngs. Þúrsi kirkjur siór-adgjörd, skulu bændur hjálpa til ad flytja timbur og efni til þeirra, hvad sanngjarnlega jafnist bænda á milli, eptir efnum þeirra. Hverr um þetta neitar, þá hann er tilqvaddur, sæti fyri það ad lögum ad lögum og landsvana.

§. 42. Blſ. 35.
Samuleidis þær héradliſtandi o).
N 4 §. 43.

o) NL. 2—8—4 band: Peir (Preſtar) mega engann eckjumann eda eckju gefa í hjónaband, fyrr enn ſkipt er og ſkil gjørd ſamørfum þeirra.

NL. 5—2—13. Enginn eckjumadur eda eckja má inngánga nýtt hjónaband, fyrr enn rett ſkipti eru framfarin med børnum eda erfíngjum ens dána.

Tilſkipan þ. 23ja Aug. 1793 §. 4. Þegar eckja eda eckjumadur, ſem ſkipt hefir vid ómyndugu, med Commiſſariis eda ſamfrændum, vilja inngánga nýtt hjónaband, ſkal Preſti fyribodid vera ad ektavígja þau, ádur enn (fyrir honum) er ſannad, med vitnisburdi ens almennilega Skiptarettar á þeim ſtad (ul. Sýſlumanns, eda ennþá Prófaſts hjá geiſtlegum), ad bodum þeſſarar Tilſkipunnar ſe fullnægt (neſnil., ad þeir ſem ſkipta, láti neſndann Skiptarett vita af birjun ſkiptanna, ſvo hann útneſni ómyndugum ſvaramenn, og ſamqvæmt Tilſkipun þ. 31ta Marts 1719 §. 1. láti Skiptarettinn vita, hvórn arf ómyndugir, vid ſkiptalyk, hlotid hafi), annars veri Preſtar þeim ómyndugu anſvarlegir fyrir øllum ſkada, og bæti 100 rdlm til fátækra þar, ſem ſkiptin framfóru.

Cancelliebref þann 14da Decembr. og ſídan Kóngsbref þann 29da Apr. 1796, leyfdu eckjufólki nýtt hjónaband, þó ſkipti væru ecki fullgjørd, ef dánarbú var uppſkrifad, allt inngiald ſamanreiknad, og búid tekid undir løglegar adgjørdir.

§. 43. Blſ. 35—36.

Og þær, ſem hér tilnefnaſt p), áſamt oðrum héraðlútandi ónefndum. Hvað ſá 11ti Artik.

Hús-

p) Tilſkip. þ. 3ja Júnii 1746, §. 7., býður að áminna børn og hjú, að varaſt óſæmilegt tal og gaman, eiða, blót, hjegómlegar fráſognr eða Søgur, Amorsvíſur og Rímur, ſem kriſtnum ſómir ecki um hønd að hafa og heilagur Andi ángraſt við.

(NL. 6—2—4. geſur húßbændum rett til í húſum þeirra að ſetja peningaſekt fyrir blót og ragn, eða annað húsſtraff, ſjá blſ. 22 og nótu o) blſ. 23—24; þó mundi Pólití dóm þurfa til að útta̋ka þá ſjárſekt eptir. Um formælingar orð, blót og ragn, einkum í verſtøðum, ſjá blſ. 25, með tilheyrandi nótu p). Preſta og aðra geiſtlega ſektar NL. 6-2-5. tvøfaldt fyrir ſama; en þá, ſem brúka rúnir og riſtíngar, ſkal opinberlega afſetja. Tilſkipan 3ja Júnii 1746 §. 31.)

§. 12. Børn mega ecki í fyrſta ſinni viſtráðaſt hjá oðrum, án foreldra, forſvarsmaña eða nærſtu náúnga vilja og ſamþyckis, nema Hreppſtjórar ſjái foreldrar megi þeſs án vera, og barninu ſe til ſkaða heima að vera, añars ſeu viſtarráð barna ógyld. Túlki nockurt barn frá foreldrum, bæti fyrir það eins mikiu, og goldið er meðalmanni í árskaup. Hafi foreldrar þarámóti mørg børn, ſkulu þeir ſkyldugir, þegar 3 eru komin til løgaldurs, að láta eitt þeirra eptir til þjónuſtu,

hvar

Lúsaga Tilskipunarinnar, frá 3ja Júnii 1746, býdur, nefnilega: ad børn, sem uppalast á ol-
N 5 musu

hvar Hreppstjóri tilsegir, og sama er ad segja um uppvaxandi hjú onnur, megi þau missast. Þver-skallist foreldrar vid þetta, sektist eptir málavøxtum.

Tilskip. þ. 19da Febr 1783, býdur í §. 7.: Enginn búandi má hafa syni sína lengur heima hjá sér, enn til, þess þeir eru 18 vetra, þá þeir ega ad gánga í vist hjá ødrum, nema þeir þjóni hjá foreldrum fyrir fædi og kaup, sem annad vinnufólk, og mega engir þeirra fleiri heima vera, enn vidþarf, til ad vinna upp jardina.

§. 14. Forakti børn eda hjú foreldra eda yfirbodara áminníngar, og haldi áfram í leti og þver-módsku til 16da aldurs árs, klagi Hreppstjóri þau fyri Sýslumanni, sem, eptir gegnum og ran-sókn, dæmi þau í Gapastock, (Tukthúss Kúndaksþ. 3ja Martz. 1784, §. 1. 2, b) setur nú Tukt-hús, en Kóngsbref 25ta Júlii 1808 §. 7. Hýdíngu í stadinn, og setji sídan í vist hjá meg-andi skickanlegum bónda í sveitinni; betri þau sig þá ecki, ad minnsta kosti fyrir 25 ára aldur, dæmist sem landeydarar í Tukthús, og þaradauk missi børn arf eptir foreldra, sem falli til nærstu erfingjum (sjá og nótu n) bls. 23). § 18. Slái nockurr Hússbónda sinn eda Matmódur eda Yfirbodara, hvar helst sem er, bæti, auk lagastraffs, hálfu árskaupi, helfíngi þar af fá-tækum børnum og helfíngi þeim hann sló, og

gisti

musu og annara góðgjørðum, megi ecki, þegar þau mannast, vista sig burt úr þeirri

sveit,

gisti Gapastock (nú hýðist). §. 20. Strjúki nockurr, án løglegrar orsakar, úr vist, gesi húsbóndinn það Hreppstjórum strax til kynna, sem án tafar láti þann leita upp, og ákjæri sem lausgángara til strass, nú eptir nótu n) bls. 23. §. 21. Allann skaða, sem vinnufólk gjørir húsbændum með ódygð eða leti, skal það borga að fullu, þá húsbóndinn krefur; hendi það optar og skaðinn nemi 1 rdls virði, setjist það seka auk þess í Gapastock (það er nú: hýðist). §. 23. Húsbændur haldi vinnufólk forsvaranlega til fæðis og fatnaðar eptir efnum og landsvana, hjálpi og hjúkri því í sjúkdómi, gesi því tóm að ydka sig í kristinum lærdómi, og að þrífa vel fatnað sinn, gjaldi því laun í tækann tíma, og ofþýngi því ecki með óbærilegu erviði og vökum, gesi því og tóm til að vixla kaupi sínu því til gagns. Bresti eitthvað af þessu, beidist hjúið, með góðsemd, lagfæríngar þar á, en gagni það ecki, má það tilkynna það Hreppstjóranum, sem áminni húsbóndann, en gagni það ecki heldur, segi Sýslumanni frá, sem gjøri strax hjúum rett, og setti þann rángsnúna og óbilgjarna húsbónda.

(Tilskipan fyri Danmørku, þ. 25ta Mart. 1791, §. 19. býður: að bíði hjú nockurt í húsbóndans vinnu skaða á heilsu þess eða limum, skuli húsbóndinn umannast og kosta þess lækníngu, en falli hjúið annars í sjúkdóm

í vist-

sveit, medan þau þar gæti fengid forsvaran-legg, vist, vyrdist nú ísjárverdt bodord eptir ad

í vistinni, er húsbóndinn ad eins skyldur til ad ala önn fyri lækningu þess og forsorgun, eins og Plakat, þ. 15da Dec. 1739, býdur, uns þad, eptir löglega uppsögn, fer úr vist hans. Plak. þ. 15da Dec. 1739 býdur: ad hvörreinn húsfadir hier eptir ali önn fyri lækningu hjúa sinna, allt svo lengi sjúkleiki þeirra ecki varir framyfir skildaga þeirra, eptir löglega uppsögn. — hvad, vegna sömu ástædna, má hjer allteins heimfæra. —)

§. 24. Innihald þessa §s. og annad börnum og hjúum vidvíkjandi, má lesa bls. 21 — 25 hjer ad framan, þar og líka §. 14. í Tilskip. af 27da Maji 1746. (Merk: 26ti Maji er prentvilla. bls. 36 lín. 2 Instrúxins.)

§. 25. Reki húsbóndi hjú úr vist sinni orsakalaust fyri skildaga, betali því hálfs árs kaup, og straffist auk þess, eptir málavöxtum, nema hjúid hafi verid baldid og þverbrotid, og ecki gegnt skipun eda áminníngu, samt skal húsbóndinn ádur kjæra þad fyri Presti og Hreppstjóra, svo þeir med áminníngum og hótunum fái þad leidt til endurbótar. Gagni þad ecki, svo þad verdi þess vegna burtrekid, straffist, sem mótþróanlegur lausgángari; sjá nótu n) bls. 23. §. 33. Hreppstjórar eda Sýslumenn hjálpi innlendum og framandi, sem bú vill reisa á Íslandi, eda sendur er þángad í Köngserindi, um dugleg og góð vinnuhjú,

þegar

ad breyta, án allrar undantekníngar, ad því leiti þad verda kann skadlegt band á frelsi manna, ef þeir þanninn bindast ættu vid uppfósturs hrepp þeirra, og margra luchu og uppgángi á ílklegri stad hneckja mega, hvarad og lýtur nótan e), bls. 88, í hverju efni eg því sanngjarnast held, ad bædi sé haft tillit til ástands og efna þess, sem til sveitarvistar í þessu skyni er krafinn, til náúnga hans, sem þar vera kynnu á sveit, og til þess sveitarstyrks, er hann til uppfósturs hefir þar þegid, þannig: hafi foreldrum hans verid einúngis veittur styrkur af og til eda um fá ár, til ad koma fram børnum þeirra hjá sér, tel eg hann eckertenga ad gjalda eda afþéna, því bágt er þá ad gjøra réttann jöfnud þessa þeigna styrks, milli foreldra og barna; hafi hann verid nidursettur um tíma, og sé fullfær vinnumadur, mætti honum úr því gjørast, annadhvert ad gjalda sveitinni aptur 2 rdla vyrdi á ári, hafi hann hálfur ecki ómaga ad annast, svo sem barn eda foreldri ad styrkja, ellegar fyri sanngjarnt kaup ad gjørast fyrivinna á vandræda heimili í sveitinni, ef þess medþyrfti, svo sem hjá eckju med úngum børnum, eda ørvasa fólki og heilsubil-

þegar þeir óska, einkum svo ad framandi menn bídi ecki baga af. Tilskip þ. 19da Febr. 1783, §. 2. og 13da Júnii 1787, II. Kap. §. 4. skipa og Sýslumønnum og Hreppstjórum ad bjóda búendum og kauphøndlendum lausafólk í vistir.

vildu, og hvørt ár þar — þó hann sanngjarnt kaup til fatnadar og umbuna þyggi — qvitta megi nidursetu kostnad hans jafnlengi; en egi hann konu, barn eda foreldri á sveit, ber honum annadhvørt fyri þessu ad vinna, hvar Hreppstjórinn honum segir, edur leggja þvi løglegt medlag, eptir skyldu og efnum, eins þó hann hefdi ecki sjálfur á sveitar framfæri verid, en sé þad, þá þess heldur; í tilliti til þess foreldris, þó einúngis þá, þegar barni má gjørast foreldri ad framfæra, eptir því, sem talid er undir b), blss. 78—80, og bls. 86 No. 2. q). En audgist nock:

q) Tilskip. þ. 3ja Júnii 1746, §. 13. Nati foreldrar í svo bágt ástand, ad þeir ecki orki ad bjarga og forsorga sjálfa sig, eda þurfa vinnuhjúa vid, og egi þau børn komin til løgaldurs í vist hjá ødrum, eda vid bú, þá skulu þau børn, hvad þar fyrir utan er skylda þeirra, af fremsta megni adstoda foreldri sitt med árlegu uppeldis tillagi, og til ad geta haldid mann í vist og goldid honum. Somuleidis skal og eitt barnanna, sem vinnur í vist hjá ødrum, vera skyldugt til, þá foreldrar óska þess, aptur ad hverfa í vist til þeirra, eptir løglega uppsøgn, og votta þeim alla skylduga trúmennsku, adstod og hlýdni, og láta ser þad lynda, sem foreldrar geta veitt til uppheldis.

(Ad árlegt tillag þó se helst krefjandi, rædur sagnsóni, svo ad eitt barna, sem einn er óráds

nockurr sídar til muna vid arf, hjónaband, bú eda ødruvísi, sem nidursettur hefir verid á sveita ølmusur, egi hann þad til fullnustu aptur ad leggja til sveitar, (sjá hér um blſ. 87—89, og Cancelliebr. 25ta Okt. 1803). Í tilliti til þessa endurgjalds rétta reiknings, vyrdist því naudsynlegt, ad í Hreppsbókinni haldist reikníngur útaf fyrir sig, ásamt fyrir sérhvørn ómaga, og hvørn sem sveitarstyrk þyggur, yfir þad, sem til hans er kostad af fátækra fé, svo upphæd þess, sem endurgjaldast á, eptir blſ. 87—89 og því hér framfærda, æ sé strax audfundin.

Vidvíkjandi þeim, blſ. 36. í Instrúxinu, nefndu ókostum med fódrar- eda haga-pen-íngi, einskordun fiskiabla, kaupa- eda hjá-vinnu, ad heilu eda hálfu, eru ljós Laga-bodord mørg til leidarvísirs r); þó ecki séu øll hér enn løgleidd, sem fyrir bædi Ríkin útgèfin eru,

stafad, ecki hinum fremur, sem máske flest eru særari, fari vid auma vinnuvíst og stort hjá fátæku foreldri, allrar útsjónar, til lengdar, á mis, um betri rádstøfun sína.)

r) Tilskip. 3ja Júnii 1746, §. 22. Engu hjúi leyfist ad fara til annars bæar, án húsbóndans vitundar og ordlofs, ecki heldur má því lídast, því sjálfu til gagnsmuna, ad vinna ser, ad vild sinni, og þar med forsóma húsbóndans gagn. (Sjá nótu n), blſ. 23.)

eru, mega þau þó í mørgu vel heimfæraſt hér, vegna eldúngis ſomu åſtæðna s).

§. 44.

s) Tilſkip. um Póliti málefni á landinu í Danmörku, þ. 25ta Martz. 1791. §. 17. Undir það ſtraff, ſem Tilſk. þ. 1ta Júl. 1746, og 23ja Martz 1770, í §. 7. tiltaka, ſkal framvegis fyribodid vera, ad áſkorda eda] taka kornvøru í kaup, í ſtad pen-ínga eda fatnadar.

(Hjer verdur þá af ſomu rokſemd hid ſama um fiſk og ſjenad eda fódur, ſem vort hellſta bjargrædi, eins og kornyrkja gefur Danmørku.)

Tilſkip. þ. 19da Febr. 1701. Þared bænd-ur med þeirri ſkadſomu misbrúkun, ad gefa korn í kaupgjøld hjúa eda í velvildar ſkyni, opt miſſa beſtu kornjørd ſína, og þarvid útſiúgaſt og undir-okaſt, má enginn vinnumadur (ad heilu eda hálfu) fá framar korntegund nockra í kaup, eda til ad ſá ſer til helſinga vid bóndann, eda þó hann láni bóndanum penínga, undir tøpun þeirra, taka korn í þóknunar ſkyni í ſtadinn.

(Hvaraf audſætt er um hálfa og heila hluti hjer, og helſinga-net, etc.)

Tilſkip. þ. 1ta Júlii 1746, §. 1. Vinnu-madur, ſem mót Tilſk. þ. 19da Febr. 1701, tekur korn í kaup ſitt, hafi eins árs kaupi fyrigjørt, ½ til þeſs, ſem því uppkemur, og ½ til ſveitar fátækra.

Tilſkip. þ. 23ja Martz. 1770, §. 7. Forbod þad, ſem Tilſkip. þ. 19da Febr. 1701, og 1ta Júl. 1746 innihalda, undir miſſir kaups ad taka korn í þad, ítrekaſt hjer med og ſkjerpiſt ſvo: ad hvørr ſá vinnumadur, ſem áſkilur korn í kaup, ſkal, þó honum veitiſt þad ecki, bæta 1 rdl, fyri ſína

djørfu

## §. 44. Bís. 36—37.

Um þá Vitnisbúrdi, Hreppstjórar gefa egn spitelskum mønnum til inntøku á Hospitøl, er

djørfu og ólæyfilegu krøfu, til jafnra skipta med þeim, er frá segir og sveitar fátækum. En komi húßbóndi og hjú ser saman um þad, skal sá samníngur, sem óløglegur og fyribodinn, þó í engu gyldi vera, heldur bóndinn samt halda fornabla sinum, en í þess stad betali bóndinn út í peníngum 1 árs vinnumanns kaup venjulegt, sem skal forbrotid vera til jafnra skipta med þeim, er frá segir og sveitar fátækum, og hjúid þannig kauplaust þjóna verda um eitt heilt ár.

(Hvad korn er í Danmørku, er, sem mælt, fiski- og fjár-abli hjer, sem allir vita.)

Tilskipan þann 9da Aug. 1754, (ad allir af Bændastett i Norvegi, karlar og konur, sem ecki haldi jardir eda hjábýli, skuli skyldir ad gánga í árs vistir, og þeim ecki leyfast ad vinna fyrir daglaun)

§. 10. Serhvørt hjú skal þjóna fyrir þad kaup, sem venjulegt er í Amtinu eda sveitinni, og ecki taka annad kaup, enn kostinn og penínga eda fatnad í þeirra stad; engu hjúi má eptirláta fódur fyri neinsháttar skepnur, neinn blett af jørd til korauyrkju eda heyskapar, neitt af bóndans abla, fiskiveidum eda annari verdslun og umsýslun, neina frídaga frá vinnu, eda fríun frá vissum verkum, eda neitt serlegt fædi, en hvørt hjú skal sífeldt og daglega vinna allt þad verk, sem húßbóndinn því býdur, eptir því sem hagar vist med honum og vrka er til, og láta ser þad fæði lynda, sem í sveitinni tídkast, allt undir 2 rdla sekt til þess,

hledslu, eptir Tilskip. þ. 13da Maji 1776, og vegabætur, einninn kostnad til þeirra, eptir Kóngsbr. þ. 29da Apr. s. á., eda bætur fyrir almúgans skylduverka forsómun mót løgum og venju vid stór-adgjørdir kirkna. Eptir Sýslumanna rádstøfunum, um fátækra forsorgun, í hreppum sérhvørs Sýslu, og náúnga framfæris jøfnud milli náúnga, eptir efnum og skyldugleika, á med adfør tilløg þeirra ad útleggja, án løgsóknar og dóms. gjaldist þau ecki, eptir advørun, í tíma. Litid álag á bæi, eptir úttektum, sømuleidis o); allteins á útbyggingar eda útburdar-dómum, fyrir óforsvaranlega ábúd eda misbrúkun jarda gégn løgum og byggingar brèfi, eptir løglega uppsøgn, appellslaust fullnustu ad veita, þó svo, ad þeir fyrst sýnist Amtmanni til samþyckis, fyrr enn þeim er fullnusta gjørd. Dómum Sýslumannanna, um vistun Lausamanna, á appellslaust ad hlýda, og strax útleggja bætur, sem þeir tiltaka, hvørt sinn

o) Kóngsbr. þ. 11ta Apr. 1781, §. 8. nefnir lítilfjørlegt álag allt ad 2 rdlm, enn þó Tilskip. þ. 24da Júlii 1789 í §. 4. ætli þeim, er þykist vanhaldinn, ad beidast yfirálits med tvøfaldt fleiri skodunarmønnum, og segi ad þeirra álygtan skuli svo gefa fullnadar úrskurd í málinu, þarf samt dóm eda Skiptarettar úrskurd til þess útlags, se þad ecki gódmótlega afgreidt. Samanb. Tilsk. þ. 8da Júnii 1787 §. 15. Canebr. og Circul. 19da Okt. og 16da Nov. 1799 §. 2. og 8. 17da Júl. 1790 §. 2. og 11ta Maji 1793, og Tilsk. 13da Maji 1776 §. 9. bls. 159—60, sem skipar um bætur ad fella dóm.

sinn þar útaf ber. Sömuleidis Undirrétta-dómum um bætur þeirra, sem hýsa passaleys-ingja, og gefa þá ecki Presti til kynna, eda þá, sem fara med óuppáskrifada passa hálfu ári eldri, eda hýsa betlara og lausgángara p).

Kóngsbréf þ. 10da Maji 1788, býdur á Manntalsþíngum ad innkrefja og (án dóms) med adför ad útleggja Sakamála kostnad, eptir nidurjöfnun Amtmanns á Amtid.

Kóngsbr. 2, frá 8da Apr. 1782 og 18da Sept. 1793, hid fyrra í §. 7, þad seinna í §. 5, bjóda: ad séu bætur eda uppnæmur abli, eptir bádum Kóngsbréfum, fyrir bleysilega netabrúk-un, ecki góðmótlega af hendi látinn, skuli Land-fógetinn (nú Sýslumadurinn) án frekari lög-sóknar eda dóms, láta útleggja þetta, af hlut-um enna seku. En þetta er ecki svo ad ski'ja, ad ecki þurfi Undir- eda Pólití-réttar dóms fyrst, um stærri bætur í opinberum málum, enn þær, sem lög, nefnil. Kóngsbr. 11ta Apr. 1781 § 1, og Tilsk. 11ta Júlii 1800 §. 10, leyfa undir- og hærri-Yfirvöldum med úrskurdum ad áleggja, heldur ad Pólitiréttar dómum þar um megi ecki appellera. (sjá bls. 241—42 og 223 nótu z)

Kóngsbréf þann 4da Június 1790, býdur hid sama um innistandandi offur til Presta, og fastsetur, ad á hvørri Hátíd skuli Sýslumenn, koúnglegir Embættismenn og Kaupmenn í hvørt



p) Siá hjer ad framan Kóngsbref um passa, þ. 11ta Apr. 1781 bls. 211 ·13.

sinn offra þeim 4mki, Forpaktarar Kóngsgóðà 2mki, og hvørr jardegandi, sem á 20 hundr. í jørdu, eda 10 hundr. í fasteign og 10 hundr. í lausafé, 1mki, og ad þetta, í tregdu tilfelli, út- leggist, samqvæmt Köngsbr. þ. 11ta Apr. 1781. Tillög til framfæris óekta barna, býdur Tilsk. þ. 14da Okt. 1763 — og seinni þaradlútandi, sjá blss. 113, 114 — hjá fedrunum, án dóms og laga, ad útleggja. Tilsk. um Sættanefndir, þ. 20ta Jan. 1797 §. 30, býdur: ad eptir inngenginni Forlikun vid þær, megi útlag gjørast eins og eptir dómi, án frekari málssóknar. Bætur, sem nockurr sektast um fyrir óleyfilega munn- eida og svardaga á þíngi eda fyrir Rèttum, útleggjast þar strax, eptir NL. 1—12—5. Í stuttu máli: allstadar, hvar hellst gefin eda enn ógefin og sídar útkomandi løg eda dómar áqveda bætur eda útlát af mønnum, eda rètt Yfirvelds áleggja q) og skipa ad úttaka, þar á Hrepp- stjórinn, ad bodi þeirra, med adfør ad vera til reidu. Þetta samqvæmt Tilskip. þ. 19da Aug. 1735 §. 5, 18da Apr. 1781 §. 2. og Reglugjørd 11ta Júnii 1788 II. D. §. 9. sem bædi leyfa Fógetum í Norvegi, uppá þeirra ábyrgd, ad láta Lénsmenn þar — í stad hvørra Hreppstjór- ar eru hèr — og líka uppáleggja þessum ad gjøra útlag innistandandi þegnskyldu og full- nustu

q) Hvad hátt bætur eptir úrskurdum nú megi stíga, er sýnt blss. 223 í nótu, og vid Bótalistann aptan vid bókina.

nustu dómum með arresti eða kyrrsetníngu og aðför, eins og §. 7. í Kóngsbr. 8da Apr. 1782 til vor (sjá bls. 243) Sýslumanni að fyrirskipa útlag bóta, sem honum annars sjálfum viðkom að framqvæma r). Sama verður því og, þó handtaka manna sé þeim skipuð, en sem vel er athugandi, einúngis af réttum Yfirvöldum, því þá standa þau fyrir þá skipun til ansvars. Hennar þarf Hreppstjórinn samt ekki við til handtöku þecktra eða grunaðra illvirkja, strokmanna, passaleysíngja, lausamanna eða betlara úr öðrum sveitum, eptir lögum og Instrúxins §. 46—47.

Vegna þess að aðför eptir Náms- eða, sem fyrrum var kallað, Féráns-dómum, og útlag bóta með öðru að dóma fullnægjugjörð lútandi, gjörist af honum, Sýslumannsins vegna, á þessa ábyrgð, og að hans eða Amts Yfirvaldsins boði, en þetta allt er mjög vandasamt verk, eptir því, sem margt þarvið mæta kann aðgætslu verdt að lögum, þá er Hreppstjóra hverjum í Instr. §. 52. vísað til Sýslumannsins, um greinilega fyrisögn og vegleiðslu þartil, þar engum Hreppstjóra er ætlandi, að vita það marga og

 mikla

r) Cancbr. 4da Martz. 1800, býður og Sóknarfógetum (hier Hreppstjórum), að útleggja Prestatekjur, og Tilsktp. þ. 11ta Nóv. 1791 §. 4. gi að þeir útleggi Kirkna- og skóla-skuldir, vegabóta forsómunar hætur, og bætur fyrir afbrot gegn Pólitilögum, og þeßháttar yfirsjónir.

mikla hér um legskipada, sem hér yrdi bædi ofs lángt allt ad telja, og eptir þessu máské þarflaust.

Ad vandasøm Arrest manna og eigna, verdi Hreppstjórum falin á hendur, Sýslumanna vegna, gjøri eg ecki ráð fyrir, nema þvi ad eins, ad vidkomendur ásamt gefi þeim þar til næga fyrisegn.

Vid þessa 52 grein Instrúxins verd eg loks á ad minnast: ad bætur vitnanna, sem tregdast ad fylgja Hreppstjóra til adfara s), falla til sveitar fátækra, samqvæmt Tilsk. þ. 18da Apr. 1781 § 2, og ad vegalengdin reiknast réttast frá Hreppstjórans og vitnanna heimilum, fyrir sérhvern vidkomanda.

## §. 53. Bls. 43—44.

Vidvíkjandi uppskrift og virdingu í búum, eptir því í lok þessarar greinar fyrilagda formi og verdi, væri ad sønnu mikid ad segja til upplýsíngar, ef ecki ell réttsýni og skynsemd samþyckti þad, og sjálf Landslögin ásamt í Þjófab. XXIII. Kap. t), og ef eg ecki gæti vísad Hreppstjórum til

s) Cancbr. þ. 21ta Júnii 1794, setur þessar bætur til 2 rdla fyri hvørt vitni til adfara kallad, sem ecki mætir, en Instrúxid fylgir Landslaganna almennu sekt fyrir óhlýdni vid Hreppstjóra, sjá þess §. 9. bls. 7.

t) Tilsk. þ. 21ta Júnii 1799 býdur og í §. 4: ad arfar eptir Húsfólk (hjáleigu) og Tómthúsmenn virdist,

til fullra rekſemda, ſem Eg ádur heſi þar uppá opinberlega framfært í Gamans og Alvøru 1ta Heſti, blſ. 30—35, um vyrdíngar í Sterfbúum, hvørjar eg mikillega ræd þeim ad kynna ſér, og þeim þeirra, ſem ecki ega þad qver — ſem þó máſké í fleiru ecki ſé óþénanlegt — ad uppteikna úr því til minnis þau helſtu átridi um þetta, á tilvíſudum ſtad.

Hér ad framan heſi eg og, blſ. 89, til þeſs bendt, ad Kóngsbr. þ. 13da Dec. 1805, ætli Fátækra Forſtjórum ſkipti øll eptir ſveitar-ómaga, eins og Kóngsbr. þ. 26ta Aug. 1735 fyrir Danmørku, og Cancbr. 25ta Okt. 1803, ætlar ecki reglulegum Auktiónshøldurum, heldur Fátækra Forſtjórum ad ſtanda fyrir Auktiónum eptir þá ókeypis; en í tilliti til þeirrar umſjónar, ſem Inſtr. §. 40 áleggur Hreppſtjórum med Hoſpítala jardir og bygg'ngar, víſa eg til blſ. 195, og þaradlútandi ſjø lagagreinar.

En þetta tillit um góda ábúd jarda, er þeim og vídar legſkipad, því

Kóngsbréf þ. 5ta Júnii 1750, býdur í §. 3.: ad Hreppſtjórar hér árlega yfirſkodi jardir, ſem Preſtaeckjum léuaſt til ábúdar af Preſtakallanna jerdum, og ſegi þeim til, hvørja adgjørd þær vidþurfi í tíma. Megni þá Eckjan, fá-

 tæktar

iſt, en ſeljiſt ecki vid Auktión, af vyrdíngarmønnum til þeirra (þáverandi) ſanna verds, og ad meiſt þeir ſtadfeſti þá vyrdíngu med eidi, ad hún gjørd ſe eptir ſamvitſku og beſtu greind þeirra.

tæktar vegna, ecki ad kosta hana, skal Prestur-inn siálfur lána fyrir vidarkaupinu, en allir Sóknarbændur leggja saman, til ad koma húsinu upp med veggjum og þaki, ad eins fyrir fædi á medan, en verdi vidkomendum yfirsjón nockur vid verkid, skulu Hreppstjórar siálfir til gall-anna svara, og þarámót ega sinn adgáng ad þeim, sem ecki hlýdnudust þeirra skipunum. Séu eckjur þessar ad efnum færar til siálfar ad halda vid ábýlum þeirra, en láti þau ecki end-urbæta, eins og Hreppstjórar þeim med sannsýni uppáleggja, skal þrisvar leggja þeim fyrir frest þartil, og verdi þad forgéfins, missi þær þessi á-býli sín, en séu þau útlögd þeim uppi þeirra Eckna pensión, missi þær þann hluta hennar, sem afgjaldi þeirra ábýlis nemur. §. 4. Prest-ar og Hreppstjórar umsiái, ad ef einhverju þess-háttar eckna ábýli fylgja serleg hlunnindi, svosem: skógur, verstada, ecki eda annad, njóti eckjan þeirra einúngis til heimilis naudþurftar, en Prest-urinn hins. §. 5. Sé engin lénsjörd Prests eda kirkjujörd til í sókninni, skulu Prestaeckjur njóta annarar hentugrar í nærstu sókn, Prestakalli eda kirkju tilheyrandi, en sé hún ecki til, skal Sýslu-madur og Hreppstjórar velja eckjunni þá hag-qvæma jörd í sóknum manns hennar, sem egandi býr ecki á, eda hafi sami bóndi ecki á henni bú-id yfir 20 ár, og henni vel vidhaldid; en hafi festa verid til hennar géfin af ábúanda, skal eckjan skila honum henni aptur, og Sýslumadur útvega honum adra hentuga jörd. Sýslumeñ,

fá-

fátækar Ekkiur og Medhjálpara — sjálfsagt því ecki heldur Hreppstjóra — vill Konúngur ecki láta standa upp frá ábýlum handa Prestaeckjum u).

Vidlíkt tillit Hreppstjóra um ábúd jarda, er fátækum tilheyra kunna, svosem Kristfjárjarda í hreppi hans, tel eg vafalausa skyldu hans Embættis. En þad nákvæma tillit, sem Tilskip. þ. 13da Maji 1776 í §. 8, 9 og 16, felur Hreppstjórum á hendur, um gardahledslu og þúfnasléttun, hefi eg nefnt vid útskr. §. 34, bls. 157 —60, og naudsynlega varúd ásamt vid bóta útlag fyrir vantandi legskil med þetta. En allt vottar þad, ad Løgin hafa ætlad Hreppstjórum hér sérlegt tillit med almennings landbúnadi og jardarækt, og ætlad þeim ýmsar Skodunargjørdir og Uttektir.

Uttektir jarda eru vissulega vandasamar, egi sérhverr vidkomenda fulls réttar eda jafnadar ad njóta. Eptir ýmislegu ástandi verda þær opt ad byggjast á óllkum grundvøllum, en þessa reglur.



u) Alíkt bódur og Kóngsbr. þ. 18da Apr. 1761, um ábýlislausa Presta innan þeirra sókna, og er þá Hreppstjórinn sjálfsagdur ad vera annar þeirra valinkunnu manna, sem þetta Kóngsbref býdur, ásamt Prófasti og Sýslumanni, ad kjósa Prestinum jørd til ábúdar, og med Sýslumanni ad taka þá jørd løglega út handa og frá Prestinum, svo eigandinn á sídan fái jørd sína og hús aptur í samastandi, eda vel vidhaldin.

ur Hreppstjóranum á rétt ad þeckja fyrifram. Eg tel þá helltu þeirra ad vera 3, nefnilega:

1.) Bygglngar-bréfid, og þá ábúdar Skilmála, sem þad inniheldur, ad því leiti hvers ar sérlegar skyldur um húsa og jardar-kúgylda-telu ásigkomulag, og þeirra vidhald, sömuleidis um afgjeld, eru þarl ábúandanum uppálagdar, og af honum samþycktur, þetta því framar, sem Tilsk. þ. 15da Maji 1705 i §. 2, gjörir þad eldúngis naudsynlegt x). Eptir þess innihaldi ber Hreppstjóranum því ásamt ad líta vid jarda úttektir.

2.) Nærstundangengna úttekt og afhendíngu húsa og jardar til þess seinasta ábúanda, af hverjum úttaka skal, sem sýni bædi allt ásigkomulag húsa og jardar þá, hvört álag þá var gjört, hvört þeim vidtakanda ábúanda afhendt, eda ecki, eda vid hann samid fyrir þetta ad endurbæta gallana. Vid Bygglngar-bréfid og sídustu úttekt, med tilliti til þess medtekna álags, skal því vid úttektir hvört hús náqvæmlega samanbera, þad uppskrifa og allt þess ytra og innra ásig-

x) Tilsk. þ. 15da Maji 1705 §. 2.: Allir Háßbændur eru skyldir ad gefa landsetum sínum Byggíngar-bref, í hvörju allir skilmálar, sem þeir og ábúandinn urdu ásáttir um nafngreinist, og skal landsetinn ecki vera skuldbundinn til ad gjalda eda gjöra nockud þad, sem ecki er innfært í Byggíngar-brefid. Köngsbr. 11ta Apr. 1781 §. 9, ætlar og til, ad útbyggt se landsetum, se Byggíngarbrefid ecki haldid.

áſigkomulag ad veggjum, þaki og vidum, á ſér-hvørn galla eda breſt gjøra það álag, ſem efni og adgjørd hvørs eins koſta muni, og eins meta hvad til ſtórmuna betrad er, úti eda inni, en hvad gallalauſt vyrdiſt og vel ſtædilegt, er nefnt álagslauſt. Í þeſſu tilliti minniſt eg og á: a) ad þvílík útteckt og uppſkrift ætíd er þeſſa vegna naudſynleg og tilætlud hér, ſem annarsſtadar, eptir Jb. Lb. II. og III. Kap., eins og um Preſta-køll og þeirra jardir, eptir Tilſk. þ. 24da Júlii 1789; um Hoſpítøl — ſjá nótu m) bls. 195-96 —; fyrrtéd Kóngsbr. þ. 5ta Júnii 1750 og 18da Apr. 1761 — ſjá bls. 247-49 — og fleida annara, ſem ecki einúngis bjóda gott vidhald, heldur betrun jardanna, um hvad, án ſamburds-ar vid fyrri útteckir, ecki verdur vel dæmt. b) ad Lb. III. Kap. leyfir ad áſkilja adgjørd húſa eda byggíngu vid landſetann — fyrir álagid eink-um — ſem NL. 3—14—30 ætlar Húſbóndan-um ad láta gjøra, en §. 31 þó ad koma ſér þar um ſaman vid landſetann; þó er hvørug þeßi grein hér ennþá lögleidd.

3.) Brefti þeſſa útteckt eda uppſkrift, og hvørt ſem er, verdur Hreppſtjóri vid útteckting ad leggja til grundvallar Byggingarbréfid — ſé þad til — og laganna bodord um ábúdar-ſkyldur, med tilliti til venju á ſérhvørjum ſtad og ſaunſýnis y); ad ſonnu eru þar ecki jafn-greinilega tilteknar í hér gyldandi løgum, eins og

y) Þeſſu er ſamqvæmt Canc. br. 16da Nóv. 1799 §. 12.

og þeim dønsku og norsku, en þó í vorum viss-ar að finna z). Líka verður þá álagið að meta með

z) a) Jónsbók býður í Llb. I. Kap.: Leiguliði skal taka jörð með handsølum og 2ur skilríkum vottum, og þá hafa hana heimila til ábúðar um nærstu 12 mánuði, og inna landsdrottni leigu slíka, sem þeir verða ásáttir. Komi eindøgnd leiga eckí fram í eindaga, þá óheimilar hann ser jørð. Hann má ecki af þeirri jørðu selja ødrum'á leigu, til heimildar, nema hann skilji það, þá er hann tók jørd, annars óheimilar hann ser og þeim er tók, jørð, og gjaldi hvørr um sig landsdrottni landnám.

Llb. II. Kap.: Láti Umboðsmaður Konúngs viljandi jarðir undan honum gánga, eða vanræktar vegna, gjaldi jafnmikið fje því, er fyrir vanrækt undan geck, og skaða, sem af varð, ef hann vissi.

Llb. III. Kap.: Skyldur er maður að halda upp húsum þeim øllum, er þá vóru, er hann kom til jarðar. Það skal hann ecki ábyrgjast, þó að hús fyrnist. Nú er húsgjørð skild á hendur manni, þá skal hann gjørt hafa húsið, áður enn hann fer af jørðu. En ef hann hefir ecki gjørt, gjaldi landsdrottni húsverð, áður hann fer í burt, eða láti gjøra hús, sem skilið var. En ef hann gjørir þau hús, sem ecki vóru skild á hann, þá á hann þau, og bjóði landsdrottni með vottum að kaupa þau hús. Heimilt á hann að færa þau hús burt fyri fardaga. En ef hús standur eptir fardaga, þá á jarðegandinn hús, nema hinn, fyri fardaga, færi viðinn á hólkn eða hreysar.

Landsdrottinn er skyldur að fá við til að halda upp húsum, svo að þar se óhætt mønnum og fje. En ef hann fær ecki við til, ábyrgist skaða þann

med tilliti til, hvernin liklegt sé, ad landsvana, hann hafi vid jørdinni tekid.

Abúd-

---

þann allann, sem þar gjørist, eptir mati 6 skynsamra manna. En fái hann vid til, ábyrgist leigulidi ef hús fellur nidur, og hladi vegg fadm saman eda lengra.

Ef madur leggur vid sinn í þau hús, er ádur vóru þar, þá skal hann burttaka vidinn fyri fardaga, og bæta hús sem ádur var. Sá eignast vidinn, sem land á, ef hañ tekur ecki úr húsum ádur.

Llb. V. Kap.: Sá sem jørd leigir, á grasnautn alla á jørdu þeirri, og allt ad vinna á henni, þad er hann vill og þarf til húsa umbóta, eda garda ad búa um andvirki sitt (þ e. naudsynja eigur, áhold og verk) þar er hvorki spilli akri nje engi

Rettarb. E. K.: Svo skal leigulidi hjón (hjú) hafa, ad hann fái unnid allar engjar, eda bæti landsdrottni skada þann allann, sem menn meta, ad land spillist af því, utan menn ødruvíss áskilji.

Llb. VII. Kap.: Reki vid á leigulands fjøru, á leigulidi ad draga hann úr flædarmáli, marka þess marki, er fjøru á, og festa, sem hann egi sjálfur, en ega (fyrir þad) álnarkebli og smærri; allt eins er um hval; fær hann 6 vættir spiks og rengis til helfinga, se hann tvítugur eda lengri, en festi þó eins, þó ad skemri se Festi hann verr vidi eda hval, borgi eganda skadann af vanrækt hans, og se sekur 6 aurum vid landegandann.

Rekab. III. Kap.: Ef hval rekur á fjøru manns, þá skal sá, er á landi býr þar nærst, festa hval þann, hvørr sem fjøru á, þeim festum, ad ecki seu ósterkari, enn reip þau 10, ad 2gja manna

abli

Abúdar-skyldur Leiguliða við Húsbóndann, eru nú auðsjeaðar þessar;

1.)

---

abli haldi hvurt, og se þá borinn annar endi um stokk eða stein. Rett er honum að skera festar af hvalnum sjálfum, og ef svo er festur, þá ábyrgist hann ecki, þó' að uttaki hvalinn og festar slitni. Hann á, þegar hvalur er kominn, að senda mañ þann, er fari fullum dagleiðum, að segja þeim, er reka á. Allt það, er sjemætt rekur á fjøru hans, skal hann úr flæðarmáli færa, sem hann egi land og reka, ella ábyrgist hann að øllu við Rekamann.

Lb. VII. Kap.: Leigulidi á að grafa torf og skera í landinu, sem hann þarf til eldividar, þar nærri, sem áður var skorið, og fella saman torfgrefir. Við skal hann høggva, hafi viði áður eldt verið, nema annað se (af landsdrottni) áskilið. Í skógi skal hann høggva skóðahrís og girði og ljeðengíngar kol ser, og neyta þess alls svo haglega, sem hann ætti skóginn sjálfur. Hann á að bæta búshluti sína úr skógi eða af rekaviði, en gjøri hann uñá, á landsdrottinn þá. Egi hann eldivið eptir þar, er hann fer af jørðu, skal landsdrottinn eða sá, sem til jarðar kemur, hafa þá eldibranda, eñ inna hinum fyrir starf sitt, eptir 6 manna dómi, flytji ella burt eða lógi að óseku

Lb. VIII. Kap. Rettarb. E. K: Leigulidi er skyldur að færa alla mykiá vøll undan sjenaði sínum, áður hann fer af jørðu, eða tvígyldi fyrir það, sem þá ófært er. Þann kostnað, sem hiñ þarf til burtfærslunnar, er til jarðar fer.

Lb XIV. Kap: Maður skal það taðfall hafa, er þess sjenaður gjørði, er þar bygði, er hann

hefir

1.) Náqvæmlega ad halda alla þá Byggíngar-skilmála, sem hann undirgeng-
ist

hefir ser bólfestu tekid. Taki nockurr myki af annari bólfestu, og færi á vøll sinn eda akur, þá er hann sekur 2 aurum vid þañ er mykiuna átti, og tedji honum þó jafnmikinn akur eda vøll, og jafn vel, sem hinn taddi ser ádur, med þeim tødum, er hann flutti burt.

Llb. XI. Kap.: Se sje lógad, svo ad hey se selt af jördu, á húsbóndinn hálft heyverd og heyskaupa rett, ádur flutt se af jørdu.

Merk; N.L. 1—22—25 bannar, þó hey se útlagt, þá annad er ecki til, í skuldir, ad flytja þad burt af bænum, heldur skuli þad þar (til jardarræktar) gefast.

Llb. IX. Kap.: Kjer og búsgøgn má brjóta hús til ad færa út, ef hann bætir húsid aptur jafn vel, sem var, ella færi út í síøfum. Nú brýtur madur setstocka úr húsi sínu, eda brýkur þær, sem greyping nemur eda naglfast er undir bjálka eda bita, þá skal hann þad aptur færa, en bæta hálfa mørk Konúngi, og hálfa mørk þeim er hús á, allt hvad húsbroti nemur, og gjør, hús jafngott, sem ádur var.

Llb. LVI. Kap.: Vøtn øll skulu svo renna, sem ad fornu hafa runnid. Veita á þeim enginn madur á bæ eda af bæ annars, nema þau brjóti sjálf. En ef þad er veitt, þá skal veita aptur vatn, og gialda eiganda jardarspjøll og landnám med.

b) Yngri løg bjóda hjer: Tilskip þ. 5ta (8da) Maji 1591, ad landsetar skuli halda sømu ábýlum sínum, á medan þeir gjaldi í tækañ tíma leigur

ist hefir eptir Byggíngar-brèfinu, hvørt heldur er um jardar- og húsa-bót, gjöld, verk,

leigur þeirra og landskuldir og allt annad útsvar, sem þeim ad fornri venju beri ad gjalda, og þar med búi á jørdum og betri þær med gódum byggíngum og túngørdum, eins og vera ber; en finnist nockurr þar í forsómunarsamur eda tregur, skal honum strax útbyggja, og hann missa hvad hann þar byggt hefir, og straffast maklega (jafnvel fasteignar bóndi í Danmørku mißir ábúd eignarjardar sinnar, sem hann ad eign eda byggíngum illa vidheldur, eptir DL. 3-12-3.)

Tilskip. þ. 21ta Apr. 1619, ítrekar hid sama, med skilyrdi: ad landsetar gjaldi þad afgjald og útsvar, sem ber, og þeir undirgengist hafi, þegar þeir jardirnar fengu, og haldi ábýlum sínum vel vid og forsvaranlegum húsabyggíngum á þeim. Til sama, og ad Byggíngarbrefinu í því og ødru se fullnægt, ætlast Kóngsbr. þ. 11ta Apr. 1781 §. 9., en ad landsetum ella se útbyggt.

Tilskip. þ. 29da Nóv. 1622, §. 4.: Vier viljum hiermed alvarlega bodid og skipad hafa, ad bædi Eckjur og adrir, sem búa þar á landinu (Islandi), skulu sjálfir útvega sèr timbur, til ad betra og byggja med ábýlisjardir þeirra, eptir því, sem efni þeirra og ástand landsins borid geta. Sømuleidis viljum Vier strengilega bannad hafa, ad fella af nockurt hús (á Kóngsjørdum) sem þar nú er eda eptirleidis byggt verdur, án serlegs leyfis.

Tilskip. þ 15da Maji 1705, bannar í §. 5, ad krefja lengri leigna flutníngs af landsetum til Húsbóndans, enn 2 dagleidir (um landskuldar flutn-

verk, eda annad, hvert heldur eptir fornri venju, eda sáttmála a).

R 2.)

flutning verdur þá líklega hid sama, þó vor lands' løg þar um þegi), en §. 6. bannar ad byggja lands-setum út, medan þeir løglega búi á leigujørdum, og gjaldi eptir þær, hvad ber, sem frá aldaødli. (sjá og í Kóngsbr. þ. 5ta Júnii 1750, §. 3ja og 5ta, bls. 247 —48, og þ. 18da Apr. 1761, bls. 249, nót. u), sama gódrar ábúdar og vidhalds skil-yrdi, semuleidis um Hólastóls góz i Fyriskip. þ. 9da Sept. 1791, §. 2, 9, 14.) En þegar

Tilskip. þ. 22ann Júlii 1791, ítrekadi sama bodord mót útbyggingu Festubænda, (þad er ad skilja þeirra, sem festu gefid hefdu til ábúdar um þeirra lífstíd, í øllum løgskilum stædu, og vel hyrdtu um jardir) nema af þeim húsbónda, sem bú-laus væri, þyrfti jardarinnar vid, og hefdi sjálfur landsetanum jørdina byggt, en baud á-samt ad vernda þá vid þann ábudarrett, sem NL. 3—14—10 gæfi þeim, álagdi hún landsetum einn-inn þær skyldur, sem hann og adrar lagagreinir um løglega ábúd tiltaka, án hvorra fyllingar þessi rettur ecki getur til þeirra nád. En þær helstu eru, auk góds vidhalds húsa, eptir þessum NL. 3—14—30, skilsemi á eptirgjaldi, gód medferd skóga, og audsveipin hlýdni vid húsbóndann.

Tilskip. þ. 13da Maji 1776, um Túngarda og um Þúfnasljettun, §. 8 og 16, er nefnd bls. 158 —60. Eptir þessu er audsied, ad hjá oss fyrir-gjørir landsetinn ábúd jardar:

1.) Haldi hann ecki byggingar sáttmál, sem hann løglega undirgengist hefir, í vottaulega af honum samþyckta Byggingarbrefi, med því skil-

2.) Sé eckért Byggíngarbréf til, verda þær svo fáar sem engar, eptir þeim strángasta rétti,

---

skilyrdi. Kóngsbr. 11ta Apr. 1781, §. 9. og Tilsk. 15da Maji 1705, §. 2. Lb. I. Kap. Tilsk. 21ta Apr. 1619.

2.) Siálfsagt, ef hann nídir nidur ábýli sitt, eda ecki hyrdir vel um jørd sína, eptir þeim, bls. 252—57 tilfærdu lagagreinum.

3.) Ef hann ecki gjeldur eindagad eptirgjald eda leigu í tíma, eptir somu.

4.) Ef hann leysislaust af landsdrottni, selur ødrum, ljær eda leigir nockud af jørdu sinni, húsum eda skógi, eptir Lb. I, VII og XI. Kap. í samburdi vid NL. 3—14—10, 33, 34, 37, og ér adgætandi, ad skóg má leigulidi alls eugum ljá, eptir NL., sem ecki gylda hjer í því efni, heldur ad eins til egin bús, en ecki til solu, nota ser, eptir Lb. VII. Kap. (siá bls. 254) NL. 3—21—7; 1—22—25 (siá bls. 255).

5.) Ef hann hýsir lausafólk og passaleysíngja eda betlara, eptir Kóngsbr. þ. 11ta Apr. 1781, í samburdi vid NL. 3—21—8, 21.

6.) Ef hann i 3 samfelld ár hledur ecki løgskipadann vallargard, eda sljettir þúfur, eptir fyrimælum Tilskip. 13da Maji 1776, §. 8. 16; þó er þarvid hid sama athugandi, sem nefnt er bls. 156.

7.) Ef sá Landsdrottinn, sem hefir byggt honum jørdina, þarf hennar siálfur vid til ábýlis, og er bú- eda jardnædislaus. Tilsk. 22ann Júlii 1791.

Merk: Serlegt var þad í Jb. Lb. XXVIII. Kap. og undir eins ónáttúrlegt, ad bygging jardar gyldti ecki lengur enn til nærstu

Far-

rétti og Tilskip. þ. 15da Maji 1705, í §. 2. — sjá nótu x) bls. 250 — en sé Byggíngarbréfid ógreinilegt og yfir høfud ásfilji løgbodna áhúd og skyldur, auk tiltekins afgialds eda vissra verka, er sjálfsagdasta adalskyldan, ecki ad eins ad halda vel vid þeim húsum, leigulidinn tekur vid, heldur, þá falla ad veggjum eda vidum, ad byggja þau vel upp á eginn kostnad, þegar fyrnast, hafi hann annadhvørt tekid vid þeim í leigufæru standi, eda sanngjarnt álag til umbótar, og hún sé á hann skilin; þetta eptir Lb. III. Kap. og NL. 3—14—31 — sjá bls. 251 No. 2. b) — Þó, þó vafi sé á þeirri útleggíngu nockurra á Lb. III Kap.: "ad lands"drottinn sé ecki skyldur ad leggja til vid til "húsabyggínga, heldur ljá stodir, til ad halda "þeim upp, svo mønnum og fénadi sé óhætt und"ir, medan leigulidi hledur tópt um grind"ina, fadmslángt eda lengra í einu, ad ecki

 "þursi

Fardaga, ef landsdrottinn deydi, eda var utanlands, og umbodsmadur hans á medan deydi; en þad vyrdist nú afmád med Tilsk. þ. 22ann Júlii 1791.

a) Tilskip. þ. 15da Maji 1705, bánnar í §. 1. ad hæcka afgjøld eda qvadir af Kóngsjørdum, fram yfir þad, sem af þeim goldist hafi frá aldaødli. Hvad þetta se, og til hvørra aura reiknad, hvørt heldur til landaura, eptir hundrada og álna tali, eda vætta í-skreid, ellegar ødrum skileyrir, sýnir Jardabók Konúngs, sem eg meina ad óvída eda hvørgi, áskilji peníngagjald í jardarskuldir.

"þurfi hana eda húsid á medan ad fella", tekur samt tilfærd Tilskip. bls. 256, þ. 29da Nóvembr. 1622 í §. 4., tvímælin af, og skipar landsetum sjálfum ad útvega húsavid til ad byggja med og betra ábýli þeirra. Þó vyrdist eptir NL. 3—14—30, 31. — ennþótt hér ecki løgleiddum — sanngjarnt, ad jardarhús, sem vodaeldur, þ. e. eldsuppkoma af léttvægri, en ecki gröfri vangá, skridnføll, snjóflód, sjóargángur; eda ofvidri eydileggja, byggist á eigandans kostnad, en ad landsetinn kosti til adflutníngum og verki þar vid. Líka er þad í augum uppi, ad hvørgi nær þad neinni átt, ad landseta húsabóta-skyldu sé lokid, med fadmslángri veggjarhledslu á ári, heldur er þad einber løgleysa og fávitska.

3 ) Sé engin úttektargjørd eda ómótmælt uppskrift yfir ábýlid til, þegar landsetinn vidtók, og annadhvørt eckert eda ónógt álag honum til jardarbóta fengid, þá verdur Hreppstjórans álit vid úttektina allopt ad verda í vidanna tilliti vægara, þó ber honum ad laga þad eptir því, sem hann og Medúttektarmadur vid náqvæma aðgætslu finnur mikid eda lítid forsómad af landsetanum, med veggi, þak og alla þá umhyrdíngu, sem undanfærslulaust af honum krefja mátti, og þaraf meta, hvørjar skémmdir vidir og hús, eptir hans ábúdartíd tekid mega hafa af þakleysi og ásignum tíuoldum árum saman, og hafi þarvid í minni NL. bodord í 3—14—30. b), og ásamt ádur

b) NL. 3—14—30: Øllum húsum sem vóru á jørdinni, þegar leiguliðinn tók vid, skal hann halda vid, þekja

ádur tilnefndar, blſ. 255 b) Tilſk. þ. 5ta (8da) Maji 1591 og 29da Nóv. 1622, §. 4, ad land-ſetar ſkuli betra ábýli ſin med gódum bygg-íngum og túngørdum, etc. og, ſem mælt, þar til ſjálfir útvega ſèr vid, en í tilliti til um-breytínga á húſum og máſkè broti í vidlegum, eda þá burt er flutt, greypads og naglfaſts, þad ſem á ſømu blſ. er af Lb. IX. Kap. þar um tilfært, ſem er ſamqvæmt NL. 3—14—41 c),

R 3 ſjá

vel og halda þeim lekalauſum. Hann ſkal uppi-halda torfvølum og vindſkeidum og krókaraptum, og búa ſvo um, ad ecki komi ſlagregn á veggi (ſama finnſt og í Gulaþ. L. Bb. Kap. I.) Se hús ſvo umbúid, ſvári ábúandinn ecki til, þó hús ſeyſk-iſt af elli. En láti hann hús fúna vanrækt-ar vegna, þá byggi hann añad í ſtadinn. Haldi hann ecki húſum løglega vid, ſkal hann álag gjalda, eptir því, ſem 6 greindir menn meta.

Merk: Þeßi tala greindra ſkodunarmanna vid útteftir, er vid ſeinni løg nidurſett til 2ja.

c) NL. 3—14—41: Brjóti landſeti (ſem flytur frá jørdu) naglfaſtar læſtar hurdir, lamir, heſpur, etc., ſem bænum fylgir, eda bord, becki og naglfaſt rúm, eptir því ſem í (ábætir) innſtædu fylgja ber, og flytji á burt, bæti landnámi til eigandans, en Kon-úngi 1 lódi ſylfurs, og ſkili því aptur. En brjóti hann þad, ſem greypad er ſaman, þá bæti þad aptur og gjaldi 1 lod ſylfurs, hálft Konúngi og hálft landsdrottni. Allt ſem matid verdur ſem húsbrot, ſkal bæta 1 lódi ſylfurs fyrir til Konúngs, en lands-drottni landnám, og gjøri hús aptur jafngód, ſem fyrri. Þegar landſkuld hans er goldin, má

hann

sjá og fyrrnefnda Bilskip. 29da Nóv. 1622 §. 4. bls. 256. Um húsagjörd áskilda og um vidaukin hús, minnist hann einninn Lb. III. Káp. bædi í tilliti til réttar og ...udleysu beggja, og forkaups húsbóndans — sjá bls. 252 og 255 — í sambu..di vid RB. 3—14—32 d).

4.) Med engu meiri verkun enn vid jardarhús, ber álag ad gjøra á illa vidhaldna heygarda, heytóptir og hlødur, eda kálgarda, sem jørdunni fylgja ega, eda á ennur hús, hverra gott vidhald sjáanlega hefir brostid, um þess fráfaranda ábúdartíd; og sanngjarnt er, ad sú, bls. 156—57 tilbendta varúd med bætur eda álag á túngarda, nái ecki til kálgarda, sem afhendtir vóru ádur í standi.

5.) Jardar kúgyldi og hver ennur lifandi eda dэнd umstæda, sem jørdunni fylgja ber, svo sem: skip, áhøld, húshlutir, etc., ega vafalaust í gyldu

---

hann, ad lidnum fyrsta fardegi, flytja med ser bú sitt, etc. og allt hvad ecki er greypad saman eda naglfast vid bita eda bord.

d) RB. 3—14—32: Hafi leigulidi, framyfir skyldu, á jørdinni byggt hús á egina kostnad, til hvors hann hafi efni fengid hjá ørnum, en húsid ecki komid í afgjaldsreikning vid húsbóndann, og sett þad á endi lód, hvar ecki stód hús, þá hann þángad kom, skal hann, þegar hann flytur burt, med tveimur vottum bjóda landsdrottni ad kaupa þad af ser, eptir því sem 6 greindir menn meta. Vilji hann ecki kaupa, þá selji landseti þeim hann vill, eda flytji burt innan Krossmessu á vorum. Se þad ecki afflutt, heldur landsdrottinn húsinu.

gyldu standi ad úttakast, og álag annars á gallana ad gjørast. Þetta samsvarar hér eldúngis því, sem i Danmørku nefnist Besætning og Inventarium (innstæda), og sem eptir Tilsskip. þ. 8da Júnii 1787 §. 6, á vel vidhaldid ad afhendast eptirkomakanum forlóds úttekid úr búi ens dána eda burtfarandi, á undan øllum ødrum skuldum, samqvæmt Tilsskip. þ. 15da Jan 1701. J. NL. 3—14—41, kallast þetta Ásbod eda Áhætir til þess, er jørdu fylgir hvørs Artikula innihald ad þessu leiti sjest i nótu, bls. 261. Um innstædu góts og fénad vid kirkjur og Prestakøll hér i landi, býdur Tilsk. þ 24da Júl. 1789 i §. 1 og 2, ad þetta hafi ldist vel vid og afhendist i standi eda med álagi, fyrir hvørt þad strax bætist ad fullu. Hvad leigufærir og gyldir gripir og kúgyldi eru, vita flestir greindir menn od meta, bædi eptir aldri, holdum, nyt og ødru vid skodun, því gamul landsvenja er, ad gallalaus ær alullud, lembd og órotin, sem fædir lamb sitt i fardegum, haldist leigufær, og ad engin uppbót komi á ásaudar kúgyldi til uppyngingar, hvør regla er og løgtekin um Kóngs og opinberra Stiptana góts, vídast um landid, sjá Tilsk um Hólastóls góts þ. 9da Sept. 1791 §. 9, og fylgja henni nú flestir af sømu røkum. Tilsk. þ. 15da Maji 1705, minnist ecki heldur neitt á uppbót fyrir Ásaudar kúgyldi, en vísar um hana, fyrir kýr, til landslaganna. Kb. VI Kap. tiltekur ad vorlagi um ær: ad 6 ær, 2 þeirra tvævetrar og 4 gamlar, svo ásigkomnar,

 sem

sem fyrr segir, séu vid ká, eda gyldt kúgyldi, en 7 lambsgotur, edà 8 ær algéldar, tvævetrar og eldri; eda 8 lambgimbrar, sem fædi lømb sín, eda 8 géldingar tvævetrir, eda 6 þrevetrir, eda 12 veturgamlir, allir gyldir og í ullu, séu vid kú.

Um kýr tiltekur sami Laga=kap. og sá XVIII. næst eptir, ad gyld kýr skuli vera ad vorlagi, ecki ýngri enn 2 vetra og ecki eldri enn 8, hafa bo=id 2 kálfa eda fleiri, heil og heilspenud, hafa kélft um veturinn eptir Pálsmessu — eda 25ta Jan. sndverdlega á Þorra — héradsræk ad fardøgum, og ecki verti enn medalkýr. Þau leggja 3 veturgømul naut, eda 2 tvævetur, eda 4ra vetra gamlann uxa, vid kú. Géldmjólka kú, eda qvígu ad fyrsta kálfi — Búaløg bæta vid: kú prispena — í 108 álnir; gélda kú, eda prévetrann uxa á vor, í 80 álnir. Uxa 5vetra í 1 hundr. 40 áln.; 6vetra 1 hundr. 80 áln.; en 7vetra, landgenginn og eldri vid 2 kýr. Lagaløst á qvikfé telur Kaupab. XVIII. Kap., ef þad lekur eda dreckur sig siálft.

Í tilliti til nytjar telja Búaleg bls. 26, ad þad sé ad forngyldu og enþá haldin leigufær kýr, sem kémst til 6 eda 7 marka mjólkur, þá hún er best, eda mjólki hún 5 merkur á sumar, ad jøfnum mjøltum; því 2 merkur egi hún ad mjólka fyrir fódri, 2 fyrir ábyrgd og 2 fyrir leigu. sama segir Atli, bls. 133, og ber fyrir samhljóda álýktun Løgmanna, þann 24da Aug. 1693 þar um.

Ábyrgdinni vidvíkjandi um kýr, segir Kb. XVI. Kap. og Tilskip. þ. 15da Maji 1705, ad sá er leigir þær, skuli ábyrgjast þær vid øllu, nema vid brádasótt, lúngnasótt, kálfburdi, aldri og lystur-reid — lopteidum eda reidar-slagi — en leigja þó ecki vandt sé. Uppbót kúa reikna Búaløg 3 álnir á 9 vetra, en 6 álnir á 10 vetra kú, og svo eyrir árlega fyrir eldri, og jafnvel eyrir á hvørt ár eptir hid 8da, og eptir Lb. XXXIX. Kap. 2 aura fyrir auga, horn eda hala á nauti. En, þessu er ecki á vorum døgum vída fylgt, því venjuleg uppbót á gamalkú eru 20 álnir; líka er um Kóngs og opinberra Stiptana góz og vídar, ønnur uppbót farin ad ad tídkast, samqvæmt útrekudum úrskurdum Kongungs, hvaraf eg hér einúngis tiluefni Tilskip. um Hólastóls góz þ. 9da Sept. 1791, §. 9, sem eptirgéfur "landsetum 8 ß. árlega í uppbót á hvørt "kúgyldi, hvarámót þeir ábyrgist hana ad "løgum, og þegar hún, søkum elli og þar af "leidandi vanþrifa, megurdar og veikinda, "ecki verdur leigufær, setji þeir sjálfir nýa, "góda og forsvaranlega í stadinn — en á Ásaud géfst engin uppbót —". Hér vil eg nú benda ad eins til þess, ad þó þessi 8 ßs. uppbót tilkæmi í 8, 10 eda hærst 12 ár, hleypur hún þó hærst til 1 rdls, og er hvørgi nærri ígyldi fyrrnefndra 20 álna í landaurum; en hvar hún er ordin algeng, vyrdist eldri kýr enn 8 vetra, vart medtækileg uppbótarlaust frá þeim, er af jørdu fer, og þegid hefir þessa uppbót um nockur

ár undanfarin, egi sá, er tilkémur, jafnadar-ad njóta.

Um skipa og hrossa útsvar hlýtur allt undir ástandi þeirra, tíd og vyrdíngu, ad vera komid, eins og hvad annad, sem fylgja ber jørdum eda húsum.

6.) Umhyrdíng eda vanrækt túns og engja, í tilliti til áburdar og ávinnslu árlega eda eydslu hans frá vellinum ad þarfleysu til brenn-slu, í stad forsómads móskurdar, og vanbrúk-un skógarlands, eda þess tráſſalegur umgáng-ur e); hyrdnleysi med vørdslu vallar og engja, hvørsvegna slægjulønd og tødu vellir vadast upp, en blautlendi og þýfi sporast sundur; skurdaleysi í votum túnpørtum til þurkunar; mannabla-leysi til ad fá sér fódur fyrir fleiri skepnur, vinna jørdina ærlega upp, og med þeirra á-

burdi

e) Hvard Prestakøll og kirkjur, eptir sømu reglum ega ad úttakast, minnist eg hjer þess: ad medferd þeirra og kirkna skóga einninn á ad koma til á-lits, og ad NL. 2—12—1, 2, og 2—21—22 ecki leyfir þar neina skógaryrkju, nema til egin heimilis brúkunar Presta og kirkjunnar egin naudsynja, sjá og hjer um kónglegann úrskurd, þ. 12ta Febr. 1776, Tilsk. 31ta Márz. 1741, og Rentukammbr. þ. 21ta Maji 1811, sem bannar ad ljá nockrum Presta-kalla og kirkna Skóga, undir 4marks sekt fyrir hvørn hrisheſt, og ad brúka þá nema til kola, handa þeim, sem skóg þvílikann hefir í ljeni, eda brefsi annann eldivid, leyfir þessum ad eins ad høggva upp kalvidi til eldsneytis, og þar med ítrekar sama Kammers bodord hjer um, þ. 10da Maji 1753, auglýst í s. á. Løgþingisbók No. XXVI.

burdi rækta og bæra hana; skógar- og hey-sala og slægjulán til burtflutnings mót Lbs. VII. og XI. Kap. og NL. 1—22—25 (sjá nótu bls. 255) af leiguslandi, og sýnilega umlidinn yfirgángur ásælinna nábúa á lendum ábúandans; hvörsu móskurdi og rístu er hagad med samfellíngu torfgrafa eda flaga, og hvört þetta er framid í slægjulandi eda ecki; á sandfoks- sjóar- eda vatna-ágángs- eda skridu-jördum, hvör leigulida skylda til afbreinsunar og jardar-bóta sé sýnd; loksins medferd og umhyrdíng varp-pláza, fridun nótlegna til selaveidi og annad, er til góds búnadar horfir, allt þetta eru atridi, sem vid jarda útteektir þurfa ad hafast í minni, og ásamt vallar- og fiski garda hledslum, ad samanberast nákvæmlega vid þau fyrrtöldu lagabodord, b. 157—60, og 252—59, til þess, eptir málavextum, ad fría eda fella ábúandann frá álagi eda til þess, og til ad meta svo sanngjarnlega þess upphæd, ad brestir og gallar sem bætast áttu, en vóru af honum forsómadir, verdi med því álagi fylliлega bættir af eptirkomara hans eda eiganum.

7.) Þó útteektir jarda og húsa eptir þessu séu nú vandasamar, egi sérhvörr vidkomenda réttar og fulls jafnadar ad njóta, eru þær ásamt ómissandi þeim, og einhvör hin bezta og lögmætasta vörn þeirra réttar og eigna. Margur tragi tekur sér jörd, sem hann óhyggjusamlega nídir svo nidur á fáum árum, ad landskuldin um sama tíma hrockur ecki henni til vidréttingar, þó

Eigandinn neydist opt til hana ad kosta, hjá ørreigum, sem þá skjótast á burt, þegar þeir taka ad óttast lífshásk af lengri veru í heynjandi moldar rústum, en reyna þó til ad fá sloppid frá ábyrgd og útlátum fyrir uldda jørd og feyg hús, annadhvørt í transti þess, ad hún verdi ecki útekin þá, heldur enn fyrri, og þar þetta ecki var gjørt, þá hann vidtók, gæti hann breidt yfir nídslu sína og trassaskap med því, ad segja hana þá engu lakari enn ádur, þar engin úttekt sái annad løglega sýnt. Hersilegur er þá allopt húsbóndans skadi á fasteignum og hinna drottinssvik; en — konu þarámót landseti ad nidurnídderi jørdu, sem úttektarlaust er leigufær talin ad húsum, og þessvegna álagslaust byggd, en skilji vid hana um nockur ár aptur í álíku standi, getur hús' . ıdinn þó fallid uppá, ad krefja fullnadar álag á allt, vegna þess, ad hann hafi tekid hús og jørd, allt sem leigufært, og eckert móti mælt, og sídan eckert byggt, eptir skyldu, þessvegna med áfignum, moldrunnum veggjum og þaki, er ecki fékk leka varid, feygt og skemmt allann vid; því beri honum, eptir NL. 3—14 —30 og Tilsk. þ. 5ta (8da) Maji 1591, etc. (sjá nótur bls. 255—56 og 261—62) gyld hús ad byggja í stadinn.

Þad er þessvegna øldúngis naudsynlegt, ad leigujardir, hús og kúgyldi løglega úttakist hvørt sinn þær losna, og vid fráfall ábúandans eda konu hans, svo ad af sterfbúinu óskiptu verdi løglegu álagi útsvarad, en ad þad

ecki

ecki þurfi ad lenda á einum erfingjanna, eda þeim, sem framvegis á jördunni b. r. Til þessa hafa sjálf N. L. ætlast 1 3—14—41 (sjá nótu bls. 261), er þar nefna til Aabod eda ábætir til jarda, þ. e. lista yfir þad, sem jördu eda húsi ber ad fylgja, og 1 5—13—35 álags eda uppbótar-sekt, sem í sterfbúum skuli hafa forrétt til forlöds betalings, jafnt vid innistandandi árs-kaup hjúa, sem sérlega løgverndud krafa, og gánga lángt fyrir øllum almennilegum skuldum. Einninn Tilsk. þ. 19da Aug. 1735, §. 19, og ad vyrdingar-menn, sem Skiptaforvaltarar hafa med sér í dánarbú, yfirskodi þar húsin. Í sama skyni bjódur Tilsk. fyrir Danmørku þ. 8da Júnii 1787 (A) §. 1—3: ad jardegendur þar, skuli ecki mega álags krefja af landsetum eda þeirra sterfbúum, nema hinir hafi med úttekt eda skodunargjørd afhendt, þessum jardirnar. Ad sama lytur og §. 2 í Tilskip. þ. 15da Maji 1705 til vor — sjá bls. 250 — og þau á bls. 247 —49 nefndu Kóngsbréf þ. 5ta Júnii 1750 og 18da Apr. 1761, eins og eg bls. 251 minntist á, ad Tilskip. þ. 24da Júlii 1789, hefdi bodid um Prestakøll, og ønnur þ. 27da Maji 1746 §. 1. um Hospítøl og þeirra hjábyli, eins ad byggíngum, girdíngum, túni og engjum, hvad Tilsk. þ. 15da Apr. 1776 um allar lénsjardir og góz Konúngsins alvarlega fyrileggur, í hennar §. 7, og ad gjøra gyldt álag á þær og þeirra innstædu vid húsbænda skipti; ønnur Tilskipan útgefin sama dag, um Eydijardir, bjódur og nå-

quæma

qvænna uppskrift alls þeirra ásigkomulags §. 4 og 7, ad ecki, til óþarfa, nefni til fleiri lagabodord hér um f).

Þeir, sem eginlegast áttu skodunargjördir, úttektir jarda og álag ad gjöra, vóru ad vísu Sýslumennirnir, med 6 skodunarmönnum — en Prófastar ad eins ad standa fyrir Prestakalla úttektum í Sýslumannanna stad — þó ega Sýslumenn ad úttaka Klaustra ki kjur, eptir Tilsk. þ. 24da Júlii 1789, §. 1, 9. Þetta eptir fyrrtöldum lagagreinum og NB 1—16, 3—14—30, en ad jardegendur gjeri þad sjálfir eda nockure landsdrottinn, og sé þarvid undir eins málspartur og dómari, er stakleg løglepsa, þó í frammi hafi verid höfd, og allar þær úttektir eru sem ómerkar ad állta. Seinni og nú gyldandi løg g) hafa

f) Svo sem báda, þ 29da Maji 1767 konúnglega stadfestu Separations Akta fyrir beggja Biskupsstóla og Skóla góts og fleiri, hvaraf audsætt er, ad á bænda eignum í landinu ecki er, í þessu tilliti, meiri óregla landsetunum til skada leyfileg.

g) Tilskip. fyrir Danmørku, þ. 8da Júnii 1787 A) §. 3, i samburdi vid Tilsk. þ. 29da Okt. 1794, §. 17. Tilsk. fyrir I[illegible] þ. 24da Júlii 1789, §. 3, og 13da Maji 177[illegible], §. 15, og 13da Jún 1787, Kap. II. §. 15, og Kap. III. §. 2, hvar 2 menn ád eins meta áverka á jordu. Kóngsbr. þ 20ta Sept. 1799 setti einninn tølu Skodunarmánna vid ódals og eigna þrætur nidur til fjøgra, og Tilsk. þ. 15da Apr 1776, um Eydijardir, í §. 1 og 8, vid þeirra skodun, mælingu og uppskrift, sem 4 eidsvarnir menn gjøra skyldu ásamt Sýslumanni.

hafa fækkad Uttektarmønnum, til þess bædi ad létta þessu ómaki á Undirdómurum, og leida þeßi mørgu mál fljótt og sem kostnadarminnst til lykta, og þess-vegna ætlast til, ad þær gjørdu 2 eidsvarnir menn, sem (einnsinni) væru til þeßa í eid teknir, álíkt Stefnuvottum, og hefdu þá svarid ad fylgja bestu vitund, samvitsku og réttsýni, þó þetta sé ecki fullgreinilega tiltekid í hjá oss enn auglýstum løgum, eda neitt úttektarform, nema um Prestaköll, med Tilsk. þ. 24da Júlii 1789, þá er þó bædi rádlegast, og kann ecki annad enn þénanlegt vera vorum Løggjøfurum, ad sømu fyriskipunum hans, ad því leiti hér mega videiga, í sama efni og sama formi sé hér fylgt med þetta, sem hann fann nýlegast hentugt og réttvíst, eda til verndar þegnum sínum í heilu Kongungs ríki h); þar nú Hreppstjórum, til kostn-

h) J tilliti til Prestakalla úttekta eptir híngad gefinni Tilskip. þ. 24da Júlii 1789, og þess ógreinilega og óvissa forms og rettar, sem þar nefndum úttektum er ætlad, væri óskandi, ad finna Kóngsbref fyrir allann Norveg hjer nm, útgefid þ. 17da Martz. 1797, ad því leiti hjer má henta, yrdi hjer sem fyrst løgtekid, þar segir í §. 3.: Uttektarmenn nefni serílagi til serhvørn galla, og reikni allteins gløggt hvad þeirra adgjørd, med verki og efni, vill kosta, og leggi til álags grundvallar Nr. 3 — 14—30 (sjá hann bls. 260—61 í nótu b).

Merk: Cancbr. þ. 1ta Júlii 1797, álítur þad verulega galla, ef þvílíkur bær se, ad loptum, góifum, gluggum, dyrum, veggjum, timbri,

þaki

kostnadar-léttirs fyrir almenníng, og hægdar Sýslumönnum, er, þessu samqvæmt, í Instrúxi þeirra ætlad útteктir, og þaradlútandi skodanir og álögr ad gjøra, vil eg hér stuttlega sýna þeim þetta form, og ráda til, uns frekari fyrirskipan annad býdur, því ad fylgja:

8.) Pad vyrdist þá naudsynlegt:

a) Ad eptir því Formi, sem Tilskipanirnar í nótu g) bls. 270 tilnefndar leggja, verdi í hverjum hreppi 2 greindir og valinkunnir menn, eitt sinn fyrir øll teknir í eid, líkt Stefnuvottum, og til-

þaki og øllu naudsynlegu, ecki í því ástandi, ad til íbúdar se, án brádrar adgjørdar og kostnadar.

§ 4. Sorenskrifari (hier Sýslumadur) standi fyrir úttektinni, og svari til hennar inn- og út-vortis rettinda, og se hann ecki samþyckur úttektarmønnum, skal hann, sem í ódals- og saka-málum, rita meiníngu sína serlega og orsakir, því hann se fráleitur Rettarins. Finnist þá nockurr ad hafa breytt mót skyldu og betri vitund, hvørt heldur hann eda úttektarmenn, dæmist sá ad gjalda skadañ.

Cancbr. þ. 19da Okt. 1799, ætlar Dómørunum annars, bædi í dánar- og ødrum-búum, ad dæma álags útsvarid (afgreidist þad ecki gódmótlega), en ymsar markverdar úttektar reglur fleiri, telur annad Cancbr. frá 16da Nóv. 1799. Ad mál um tregdad útsvar álags, leggist fyrr til Sættanefndar einn dóms, býdur Cancbr. þ. 9da Apr. 1796, §. 2, þó getur þetta ecki fundid stad, hvar Skiptarettar úrskurdur um þad er fallinn, nema bádum málspørtum um semji.

tilnefndir ásamt Hreppstjóranum, ad gjøra allar jardaúttektir og skodunargjørdir í hreppnum — hvar ecki er um áreidar, eda landaþrætu ad gjøra — eptir samvitsku og sem þeir réttast haldi. Hreppstjórar, sem eptir Instrúxins §. 56, hafa þenna eid unnid um þetta, í §. 53, þeim uppálagda Embættisverk, sem ennur, þurfa hann ecki ad vinna á ný. Sé einhvørr þessara skyldur eda svo nátengdur eda venfladur þeim, er taka skal út af, eda út handa, ad einhvørr vidkomendra sé foreldri, barn, systkyni eda jafn-námægdur, ellegar landseti eda þénari einhvørs þeirra, verdur Sýslumadur annann þá ad útnefna í hans stad, og fyrir Rétti sídan taka þennann í eid, um hans fremdu skodunargjørd.

b) Þared þessar Tilskip. ætla ecki til, ad Sýslumenn sjalfir leggi dóm á þeßi málefni, nema álagid sé yfir 2 rdli, eda tregdad sé þad ad afgreida, því þá ber þad vafalaust — sjá Kgsbr. þ. 11ta Apr. 1781, §. 8. — eda hafi atqvædi nockurt vid sjálfa úttektina eda skodunina, heldur skodunarmennirnir, og §. 11 í Tilsk. þ. 8da Júnii 1787, og Cancbr. 4da Marz. 1797, jafnvel ecki til ad Undirdómarinn, nema á medan hann allrafyrst kennir ódvønum úttektarmønnum adferdina, sé vid þær staddur, heldur ad hann útnefni menn til ad gjøra þær, þá ætti hvørr, sem úttektir jarda eda húsa vid landsetaskipti, daudsfall eda annars vidþarf, ad beidast af Sýslumanni skipunar til Hreppstjóra og annarshvørs þess eidsvarna eda — sé hann eda bádir,

eptir ádurſegdu undir a), forfalladur — þá ann=ars óvidridins dánumanns, til ad yfirſkoda eda úttaka hvad hann umbidur. Ádur á ſá, ſem beidiſt, ad hafa vottanlega tilkynnt málsparti ſínum, nær hann ætli ad beidaſt 2gja úttektar= eda ſkodunar=manna hjá Sýſlumanni, hvar hann býdur honum þá, ef hann girniſt, ad mæta og heyra þá útnefnda. Daginn eda qvøldid ádur enn ſkodanin eda úttektin framſer, ega þeir út=nefndu menn ad láta málsadegendur vita, nær hún byrjiſt, ſvo þeir gæti vidſtaddir verid. En állti nockurr þeirra ſig vanhaldinn vid þá gjørdu ſkodun, úttekt eda álýktun þeſſara manna, ega þeir ſtrax vid hennar lok ad lýſa, ad þeir vilji hana átelja, og þá þarf ecki ſá úttektarmadur, ſem í hinna forføllum kynni óſvarinn útnefndur ad vera, eid ad vinna á medan. Ætti þá ſá, ſem van=haldinn þykiſt, innan hálfsmánadar, boda mót=parta ſína og úttektarmennina nógu timanlega, til ad mæta hjá Sýſlumanni, ef girnaſt, til ad heyra tvøfaldt fleiri, þad er: 4 úttektar= eda ſkodunar=menn útnefnda til nýrrar yfirſkod=unar. Sé þad ecki gjørt gjørt innan þeſſa tíma, vill Tilſk. þ. 8da Júnii 1787. §. 3, ad hin fyrſta ſkodunargjørd ſtandi óraſkanleg, en Tilſk. þ. 24da Júlii 1789, §. 4 áſamt henni, ad þeirra yfirálit ſem í ødru ſinni og tvøfaldt fleiri útnefnaſt, ſkuli ſídan óraſkanlegt haldaſt; en þeßir nýu ſkodunarmenn, ſéu þeir ádur óſvarnir, ega ſídan vid fyrſta Héradsþíng ad afhenda Sýſlu=manni ſkodunargjørdina, og vinna þar eid,

ad

